# MEDITATIONES TRIUMPHALES.

EDUR

# Sigurhroofs Hugvek=jun,

Ut Af
Dyrdarligum Upprisu Sigre vors Drott
ens JESU CHRJSTJ i Fiorutiju
Capitulum, epter þeim Fiorutiju
Upprisu-Psalmum.
Samanteknar
Af Saal.

## Sr. Jone

JONS. SYNE,
Sooknar-Preste til Hvols og Stadarhools.

Seliast Alment Jnnbundnar 15. Fiskum.

Prickter a Hoolum i Hialltadal,
Af Halldore Erikssyne, 1749.



# Formmalen.

So sem a Gamla-Testamentesins Tijma, epter Syndafalled, kuñe eingeñ Dagur, med stærra Rette ad kallast Dagur gledelegs Bodskapar (a) eñ sa, æ hvorium Fyrerheited var, þvi blessada Kvinuñar Sæde, er sundur skyllde meria Hoggormsins Hofud, (b) vorum Endurlausnara JEsu Christo, so kuñe þess Tijma Uppfylling, (c) og hins Nya Uppbyriun alldrig ad færa oss, syndugum Moñum, þañ Dag, a hvorium allur Heimureñ helldur skyllde fagna (d) eñ þañ, a hvorium ad Frelsareñ være fæddur (e) sa ad er Sonur Guds, ad endurleysa þæ sem under Logmaalenu voru, so ad vier skylldum fæ þa Sonarligu Utvalning, (f) og vera fullvisser þar um, ad Gud er auglystur i Holldenu, (g) til þess ad leysa Diofulsens Verk, (h) so vier hofum eiñ Medalgaungu-Mañ mille Guds og vor, Mañeñ JEsum Christum, (i) hvors Ande fyrer-
fram

(a) 2. Kong. 7. v. 9. (b) 1. Mos. B. 3. v. 15. (c) Gal. 4. v. 4. (d) Ps. 118. v. 24. (e) Luc. 2. v. 11. (f) Gal. 4. v. 4. 5. (g) 1. Tim. 3, v. 16 (h) 1, Joh. 3. v. 18. (i) 1, Tim. 2. v. 5.

fram̃ spaade, fyrer Spaameñena, a hverium Tijma og hveriar Lijdaner skylldu vid hañ framkoma, og hver Vegsemd þeim skyllde epterfylgia, (k) epter hañs tvofolldu Stande, Nidurlægingar, og Upphafningar, og þad nakvæmlega, so sem, medal aña ra Fyrermyndana, og Spaadooma H. Ritninga, Esajas hefur sagt. (l) Hañ uppspratt fyrer hønum lijka sem eiñ Kvistur, og so sem ein Root wr þurre Jørdu, hañ hefur aungvañ Yferlit nie Fegurd, etc. og eñ, i ødrum Stad, seiger hañ: (m) Siaa miñ Pioon mun forsiaallega breita; Hañ mun upphefiast, og miøg haatt upphafiñ verda og vera miøg Haar. So hañ i þvi fyrra forþienade oss Saaluhiaalpena og so i þvi sijdara meddeilde oss hana; Af þessu tvøfoldu Stande vors Endurlausnara, hefur David so sunged, (n) Uñ lijteñ Tijma hefur þu hañ miñe Einglunum giørt, þad er þa hñ took uppa sig vort Holld og Blood, og leid fyrer oss Pijnu og Dauda; Eñ med Dyrd og Heidre hefur þu hañ Coronad, Þa hañ hafde allt fullkomnad er þienade til vorrar Endurlausnar og Fridþægingar vid Gud, i hvorre Dijrd og Heidre hañ hroosade Sigre yfer Synd, Dauda, Diøf-

)2( le

(k) 1. Pet. 1. v. 11. (l) Es. 53. v. 2. etc. seq.
(m) Esa. 52. v. 13. (n) Ps. 8. v. 6. Ebr. 2. v. 7.

le og Helviite, og Uppriseñ fra Daudum, kũñgiörde þa somu siinum Lærefveinum, auglysande sig lifande epter Piisl siina, (o) Þesse Tiidende hafa þau gledeleguſtu boreſt Mañlegu Kyne, þvi Upprisa vors Endurlausnara JEsu Christi er Stolpe og Grundvollur vorrar Trwar, epter sem Paall Postule seiger: (p) ef þu jaatar DRotteñ JEsum med þiinum Muñe, og trwer i þiinu Hiarta ad Gud uppreiste hañ fra Daudum, þa verdur þu hoolpeñ. Hvad gagnade Fyrerheited? Hvad stodade oss Christi hiingad koma i Heimeñ? Til hvers hefde vered hañs Piina og Daude, ef hañ være ei fra Daudum uppriseñ? Til olldungis einkis; Oll Predikun være þa oniit og vor Trwa oniit (q) og þeir, burtsofnudu i Christo væru fortapader (r); Eñ nu, JEsus er uppriseñ, sigrare Daudans, fra Daudum, þa vitum vier ad sa er yferuñeñ sem Daudans Magt hafde, þad er Diofulleñ (s) og vier, fyrer Sættmaalans Blood, Frelsader vordner wr Grifiuñe sem eckert Vatn var i (t). Þar JEsus er, fyrer sitt eiged Blood iñgeingeñ i þad allra Helgasta, og hefur funded Eilijfa Endurlaun (u) og situr til hægre Handar Hatigniñe i Hædum (x) þvi aamiñer Sanct. Paall Timothæum alvarlega um þad ad hafa i miñe JEsum Christum sem uppriseñ er fra Daud-

(o) 1. Cor. 15. v. 6. (p) Rom. 10. v. 9. (q) 1. Cor. 15. v. 14. (r) v. 18. (s) Ebr. 2. v. 14. (t) Sach. 9. v. 11. (u) Ebr. 9. v. 11. (x) Ebr. 1. v. 3.

Dauduu. (y) Af þessare Upprisu JesuChristi vors Endurlausnara hefur eitt Guds Barn Rietklætinguna, þvi hañ er ofurseldur fyrer vorar Synder, og fyrer vorrar Riettlætingar Saker uppriseñ (z) Þvi, þar hñ hafde fullnægt Guds Riettlæte vegna vor Mañaña, uppvakte Gud hañ af Dauda, og so sem þad hañ var riettlættur i Andanum, (a) Riettlætte hñ oss med sier. HEILGUNENA, i hvorium þier erud og uppreister fyrer Trw Guds Kraptar, sem uppreiste, hañ fraa Daudum, (b) Hier fyrer seigest þad, ad þeir Trwudu upprijse Andlega med Christo, (c.) Og so sem kome samañ i Eitt med hönum, fyrer Samlijking Upprisuñar, Ad so sem Christur er uppriseñ fraa Daudum fyrer Dijrd Fodursens, so skulum vier og gaanga i Einum Nijum Lifnade, etc. (d.) Og þad er saa Kraptur Christi Upprisu, um hvorn St. Paall talar, þar hañ seiger: Ad eg fae þeckt hañ og Krapt hañs Upprisu, etc. (e.) Þvi þa JEsus wtgieck aptur wr Grofeñe, eda wr Jardariñar Filsnum, vard hañ ei alleina Ad Lifande Saalu, sem Adam, helldur Ad Lifgande

)3( Anda

(y) 2.Tim.2.v.8, (z) Rom.4.v.25. (a) 1.Tim. 3. v.12. (b) Col.2.v.12. (c) Col.3. v. 1. (d) Rom. 6. v.4. 5. (e) Phil. 3. v. 10.

Anda. (f.) Þvi hañ took ei einasta Lijfed aptur handa sialfum sier, helldur og handa sijnum, ei til þess einasta, ad hañ skyllde lifa i Himnenum med Gude sijnum Fodur, helldur ad hañ og, fyrer siñ Anda, Skyllde lifa i sijnum Trwudum Børnum hier a Jørduñe; (g.) Ad so sem fra Hofdenu utdreifest Lijfs Andeñ i Mañenum um allañ Lijkamañ, til Lijfs og Hræringar þeim ytstu Limum, So wtdreifest fra Christo hñs Lijfs-Ande uñ alla Limu hañs andlega Lijkama, so sem þvi Andlega Hofde og Uppsprettu-Brúñe þess Andlega Lijssens; Þvi þeir Trwudu Eru Limer hañs Lijkama, (h.) Og Eirn Ande med honum, (i.) og hañ þeirra Lijf. (k.)

Vegsemd Eilijfs Lijfs, ad verdum þar Þijdleger i Upprisu Riettlatra, hvoria St. Paull bevijsar med þvi, Ad sem aller doou i Adam, lifne þeir i Christo, og hañ sie Fyrste Avoxtur, þar næst þeir sem eru hañs, (l.) ad Gud mune þa sem Sofnader eru fyrer Christum, med honum framleida. (m.) Og þad Sokum þess, ad Christur er vor Brooder Og vier hañs Sam-Arfar, (n.) i þeirre Arf-

(f) 1. Cor. 15. v. 45. (g) Gal. 2. v. 20. (h) Eph. 5. v. 30. (i) 1. Cor. 6. v. 17. (k) Col 3. v. 4. (l) 1. Cor. 15. v. 21, 23. (m) 1. Tessa. 4. v. 14. (n) Rom. 8. v. 17.

Arfleifd hvor epter sijne Rød; Hañ er Upphaf og Frumgieteñ af þeim Daudu, ad hañ sie sa Ypparste medal allra, (o.) og þad a medal margra Brædra, (p.) Frumgroodeñ, og þar næst þeir sem eru hañs i hañs Tilkomu; (q.) Þar til er Christur vort Høfud, (r.) Og vier hañs Limer, ad hañ vill vier lifum af og med sier; Eg life og þier skulud lifa, (s.) ad so sem aller doou i Adam, skule aller Endurlifna i Christo, (t.) og so sem Guds Ande uppvakte hañ af Dauda, so mun hañ og uppvekia oss i hvøriun hañ byr, (u. til Eilijfrar Dijrdar. JEsu Upprisu Miñing rootfesteſt þvi helldur sem vier optar Sijngium og Lesum um hana, og þvi helldur lāngar oss til Drotteñs; Þvi helldur kollum vier: Kom Herra Jesu. (x.) Þvi meire er Fagnadar-Tilhuxuneñ ad faa uñ sijder hañs Glede-Sioon i Eilijfu Lijfe, sem vier erum fullvissare þar uñ, ad vor Endurlausnare Lifer. (y.) Vid Upprisu JEsu uner sier einasta eitt Guds Barn, og ei vid añad i Heimenum; Pad er vijst uñ þad ad komast til hañs epter þetta Lijf; Þvi hañ hefur sagt: Fader, Eg vil ad þeir sem

)4( þu

(o) Col. 1. v. 18. (p) Rom. 8. v. 24. (q) 1. Cor. 15. v. 23. (r) Eph. 1. v. 22. Col. 1. v. 18. (s) Joh. 14. v. 19. (t) 1. Cor. 15. v. 22. (u) Rom. 8. v. 1. (x) Apoc. 22. v. 20. (y) Job. 19. v. 15.

þu hefur mier giefed, sieu hiaa mier þar eg er, so þeir siaae mijna Dijrd, þa sem þu gafst mier, (z.) Hvors vegna, þott þad sie sem syrgiande, er þad jafnañ gladt, (a.) Pad saaer med Graate, eñ uppskier med Fagnadar-Saung. (b.) Petta hefur saa Saal. Guds-Madur Author Bookareñar laated sitt Ynde vera; Po ei duled, sem foolgeñ Fiesiood, eda Pund i Jørdu grafed, helldur lagt aa Maangarans-Bord fyrer Eitt Gudelskande Hiarta, Vel-Edla Frw GUDRUNU EJNARS-Doottur, Eckiu Saal. Biskups Mag. Arnasonar, hvør ed af Hiartgrooeñe Gudhrædslu hefur þetta Skrif til mijn sendt, ad þad Prentad yrde, hvøriu eg hefe so teked, ad þvi er fyrer Guds Naad af-loked, bæde þess vegna, og aaleit þad gott og Gudrækelegt Verk, er fylgia kyñe Upprisu-Psalmum Saal. Biskups Mag. STEJNS, og hins, ad ei er nein so hentug Book uñ þañ Tijma til Hwss-Lestrar hiaa Einfølldum Almwga; Eñ Allra-Naadugast er befalad i Forordn. uñ Hwss-Vitianer, ad ydka Daglega Bæner og Lestra, so þvi þess helldur verde Allra-Underdanugast epterlifad. Eg vona ad Guds Børnum falle so þetta Verk i Gied, ad hañs verde Dijrdeñ, eñ þeirra su Velferdeñ; Ad þa Christur sem er vort Lijf, Opeñberast, mættu þau og Opeñberast med hønum i Dijrdeñe. (c.)

Hvørs af Hiarta Oskar. Peirra

Hoolum Skylldugur Pienare i DNottne.

D. 21. Martii. Halldor Brinjolfsson.

1749. Superint. Hol. St.

(z.) Joh. 17. v. 24. (a.) 2. Cor. 6. v. 7. (b.) Ps. 126. v. 5 (c.) Col. 3. v. 4.

* * *

* * * * * *

# Inngaungurenn.

## I. Capitule.

MJJN Sæl! Nu er þiñ æstrijke Brwdgume JEsus af Daudanum uppriseñ, og hroosar sætum Sigre yfer Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, þvi skulum vid nu og, hvorium þetta Blessada Sigur-Verk bodast, upprijsa med glodu Hiarta, fagnande Hugskote, og hroosande Twngu, Jæ, aller Jñre og Ytre Kraptar ockur af DRottne meddeillder, skulu nu samfara verda i þessu Andlega og Blessada Sigur-Hroose, þvi þad er hiñ meste Sailar-Fognudur, Under-Root og Uppkyrian eilijfs Fagnadar ad hafa (epter Raadum St. Pauls) JEsum i Miñe, sem af Dauda er uppriseñ. Vid hofum Sæl mijn æ umlidnum Tijmum med Sorgande Guds Bornum, mætt Sorgande horfa æ þañ giegnumstwngna, Alblooduga, Folnada, og sijdañ i Grofena nidurlagda JEsu Lijkama, og miñast vid hañ med Taara-blondudum Kosse, þar ed su skiæra

Riettlætes-Sooleñ JEsus, edur heñar stoora Guddooms Byrta yferskigdest i æred miklu Kvala Myrkre, og Od þau Sorglegu Sky hiñar sarustu Pijnu, vard lijka so wtlijtande sem hid raudasta Blood, rañ under med soddañ Litarhætte, og huldest i Daudans Hafe um Priar Daga. Þesse Harmur er nu af-þerradur mijn Saal, þvi nu er þesse hin sama Riettlætes og Glede-Sooleñ JEsus, med fogrum Morgun-Liooma uppriseñ, þetta Blessada DRottens Hiaalpræde, maattu nu fagnande skoda mijn Saal, med odrum fagnande Guds Bornum. ' Gledium ockur þvi af ollu Hiarta, Jaa, þier Himnar gledied ydur, og þu Jord fagna þu, Ps. 96.11 Fagna þu dijrkeypta JEsu Brwdur, þvi skylldt er oss nu ad fagna med Einglunum oss hier yfer samfagnande. A Krossenum Fridþæade JEsus oss aumar Mañeskiur vid siñ Himneska Fodur, med siaalfs sijns Foornfæringu, eñ nu er Saala mijn þesse þiñ Astvinur auglijstur i sijnum mikla Guddooms Krapte, og þetta Leoned af Kyne Juda hefur Sigureñ uñed a Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, Ap. 5. Hañ byriade Strijded, edur þessa Hoolmgongu med Sorg og Veikleare Asynd, eñ endade med Hreistefullum Guddooms Sigre; Hañ doo fyrer Synder vorar, eñ uppreis oss til Riettlætes, Rom. 4. Og um þessa hañs Upprisu lyster mig nu ad tala.

Þar til veit þu O JEsu Fulltijnae þijns H. Anda, So eg af þier frelsadur, mætte þvi Frelse med

riettre Endurminningu fagna, AMEN.

# Texten.

EN er Sabbats Dagurenn var lid-
enn, keyptu þær Maria Magdalena,
Maria Jacobi og Salome Dyrd-
leg Smyrsl, ad þær kyæme og smyrde JE-
sum.

HJer af skalltu læra mijn Sal ad heidra blessud Bodord þijns Herra, þvi þau eru þijn Lijfs-Regla epter hvorre þu skallt þier hegda, og vijkia þar hvorge fra til hægre nie vinstre Handar.

Po nu Logmaaled sie sa deydande Bookstafur, þa þienar þad þier þo, ef þu þad vel athugar, i þvi ad þad þreinger þier ad leita þijns JEsu; lijka sem sarum Manne þienar Verkur og Slæmleike Saar-sens til ad leita sier Lækningar, eins rekur og Log-maaled þig (af hvoriu þu sier þijnar Illgiorder, og þeirra forþient Laun) til Saarana JEsu, so þu finner i þeim Lækning, Frelse og Fyrergiefning Syndanna, þvi þinna vegna hefur hann uppfyllt Logmaaled, og ef þu trwer a hann er a þier einginn Fordæming framar meir. Eg er O þu goode Jesu eitt Ohlijded Barn, og i ollu goodu næsta ofullkomenn, samt finn eg allt þad sem mig vantar i þinne Hlijdne, hun giorer mig af raanalaatum Illgiorda Manne, riettlaatann: Og allt hvad Logmaaled kann af mier ad wtheimta, þad hefur þu fyrer mig borgad og uppfyllt. Seige nu Logmaaled til mijn, þu ert sekur, þa er eg þo i þi-

er og fyrer þig Sakiaus; Laat mig i þvi Sakleyse
þier ætijd þioona, eñ þijn Myskun væge mijnum
Veikleika. Dygda Dæme þessara Kveña,
sijner oß eñ framar ad oß byrie ad taka vel Vara
a Bodorde DRottens um hans Hvijldardags
Halld, so ad þu hallder hañ riettelega epter Jñe-
hallde þeß Pridia Bodords, þvi þo sierhvor Da-
gur sie DRottens, þa nefner hañ þo sierdeiles siñ
Dag hañ Siounda Dag Vikuñar, þeß skallt
þu giæta; Gud vill ecke ad þu skuler fremia a hon-
um nockurt naudsynialaust Erfide, allra sijst þad
sem Oßæmelegt edur Otierlegt er, og vit fyrer vijst,
ef þu hier i moote giorer, þa vill hañ þeß a þier
hefna; þad þu þarft ad viña holldlegrar Naudþurf-
tar vegna, þad gior þu a þeim Sex Virku Dog-
um, þar til meiga þeir nægia, þo þu taker ei med
þier til hañ Siounda Dagiñ fra Gude, þvi hañ
a ad þiena Naudþurft Saalar þiñar, heñar Gag-
ns og Gooda attu þa hellst ad giæta, i þvi ad heyra
og stunda Guds Ord rækilega, og saña Ydran og
Yfer-Boot giora, fyrer allt þad sem þier hefur a
vorded a þeim sex Virku Dogum. Fordast skall-
tu og sterklega hañ vonda Osid sem nu, þvi verr,
ærid rijkt yfergeingur, ad sumer, Ja, allt of-
marger, taka þeñan Dag hvad hellst til ymis-
legs Leikfangs, og skiemta Hollde sijnu a hon-
um med ymsum Leikum, Spilum og Table, lijka
og med Ohoofe og Dryckiuskap, samt fleira soddañ
epter þvi sem þa lyster, hvorium Lystingum Drott-
eñ

eñ hefur fyrerbodid ad epterfilgia, Es. 58. þvi aflar þad sañlega Skada og Hegningar, þo faaer vilie þvi siña, eda feig fraṁ, hvad fyrer Gud dyrkar þu med þessu? Andsvar, þijns Hollds og Bloods Vilia, og þess Giaaliife, hvert þier er þo skipad ad Krossfesta, eñ ei þañig ræckia ef þu villt añars heyra Christo til, edur hvorneñ vidtu skilia þeñañ DRottens Urskurd? Ef þier lifed epter Holldenu, þa munud þier deya, eñ ef þier deyded fyrer Andañ Holldsens Gyrnder, munu þier lifa, Rom. 8. Þessu og odru fleyra Slijku, vill Diöfull Holld og Heim ur laata under Stool stijnga, eñ þad fær uṁ sijder ad byrtast. J einu Orde ad seigia, villtu þess lifanda Guds Blessunar niota bæde hier og sijdar, stunda þu þa til, ad saa nidur aa þessum DRottens Deige, sem alltijd, þvi gooda Sæde sañrar Ydrunar og hreiñrar Trwar, þa munt þu og þitt Erfide blessast aa þeim sex epterkomande virku Dogum, og Alldin goodra Verka uppspretta. Goode JEsu, eg veit eg fæ ecke dulest fyrer þier, þu veitst allar mijnar Athafner sem æred margar eru, so i giegn þessu þijnu Bodorde, sem ollum odrum, forlaat mier þær miñ Gud, og hiaalpa mier fyrer þijna Forþienustu med Krapte og Verkan þijns H. Anda, so þiñ Hvijldar-Dag hallda hier i Naadeñe, ad mier med ollum Guds Bornum hlotnest ad hallda eilijfañ Hvijldar og Gledi-Dag i Dyrdeñe, Amen.

# II. Capitule·

Um̃ Tijman̄ a hvørium DRotten̄ uppreis.

SEM ad Kvøllde Sabbats-Dagſens, ſaa er hefſt hin̄ Fyrſte Heilagur Dagur i Sabbats-Døgunum, kom Maria Magdalena, og hin Ønnur Maria ad ſiaa Grøfena.

SAla mijn, hier af maatu ſiaa Uppriſu Tijma þijns HErra, ſem var hin̄ Pridie Dagur epter han̄s Dauda. A Affangadags Kvøllded var han̄ af Joſeph i Grøfena lagdur, og hvijldeſt han̄ þar þan̄ Fyrſta Heatijdes Dag allan̄, ad hvørs Kvøllde ad Kvin̄urnar komu ad ſiaa Grøfena, ſo ſem hier ſeigeſt. Og ſæ þu hier af ad Staa, ad Lauſnaren̄ uppreis ecke a Gydingan̄a Sabbats-Deige, ſem nu er vor Laugardagur; helldur hvijldeſt þa hin Bleſſada Saal vors HErra i Høndum ſijns Himneſka Fødurs, en̄ han̄s Heilaga Holld i Grøfen̄e, og Guddoomſens Tign hvijldeſt i Holld enu, Col. 2. Mijn Saal, epter þad vid høfum ad Vilia DRotten̄s, Eymder og adſkilianlegt Anſtreyme affſtaded hier a Jørdun̄e, faaum vid fyrer ockar JEſum Eilijfa Hvijlld og Rooſeme, þar til ſkulum vid fagnande og þolen̄mood hlacka i Pijnningun̄e. Hitt er og ſtoor Fognudur, ad Gud ſiaalfur hefur hier Hvijlld i ockur Fridþægdum vid ſiaalfan̄ ſig, og þar fyrer, fyrſt Gud er med, hvør

kan̄

kañ þa ad vera a moote? Nu atl og mijn Saal Hvijlldar-Stad vijsañ, lijka vel um þeñañ ockar Samveru Tijma, i Hiarta og Saarum þijns HErra, þadañ hefur hañ ockur hwngrud hijngad til alldrei hraked, þo Overdug vered hofum þess Heimkyñes, hañs mykla Myskun mun og hier epter eins Siñnd vera. Lijkameñ mun og odlast ad Skilnade, sijna Hvijlld i Grofeñe, Es. 26. Ia, Lijkamleg, Andleg og Eilijf Hvijlld, er Guds Born um afrekud fyrer JEsum Christum. Ebr. 4. Ara la Morguns, hiñ Fyrsta Dag Vikuñar, uppreis vor HErra af siñe eigeñ Guddooms Magt, eins sem hañ fyrersagt hafde; So skulum vier vijst vita, ad alldrei rasckast Ord DRottens, og þad hañ a sett hefur, faer ad hafa sitt Geinge. DRotteñ miñ eg treyste þijnum Ordum, veit og trwe fyrer vijst, ad oll þijn Blessud Fyrerheit hafa fullañ Stad, Mal. 33. Og naa til mijn, hvorsu sem mier kañ synast Ovaenlega astanda, i þeim er Efalaus Sañleikur, Otvijlug Naad, Obrygdañlegt Traust og Endalaust Hiaalpraede ollum Trwudum. Pess er og hier ad giaeta, ad saa Ilmsaete Sigurvegareñ JEsus villde ecke undañ draga sijna Uppnrisu allt fram ad Kvollde þess Pridia Dags, so ei skylldu hañs Saart harmande Astviner bijda hañs allt til þess Dags Kvolld-Nockurs Huggunar lauser, þar fyrer uppreis hañ Ardeiges edur um Fyrstu Apturelldïng. So er ad lijsa miñ goode JEsu epter þijnu Naadarfulla Hiartalage, þijn

Myſkun þoler ecke laangañ Undañdraatt, i þvi ad hiaalpa aumſtoddum Mañe i hañs Hrigd og Veſolld, H:65.v 29 Pier þreinger þijn Eiſka til ad hiaalpa oſs næſta Aſtlitlum, vier drogum þad opt undañ marga Daga, ad giegna þier og þijnu Kalle, Jaa morg Ar, lijka vel marger af oſs allañ ſiñ Alldur; O Gud naade ſlijkt, Eñ ſo er þeſſu Ojafnt ſkipt fyrer þier og oſs, ad Vonum, ad þegar vier balſtijruger Syndarar Lokſins kollum til þijn harmande, þo af þijnu eigeñ Tilſtille tilknwder, þa veitest oſs opt þijn Huggun aadur eñ vier kuñum ad vænta heñar, og aadur eñ vier hroopum, er Eyrad þitt fyrer, oped til ad heyra, vid vora Fyrſtu Hugar Angiſt, er ſtrax opt til Reidu hiaa þier hin ſætaſta Hugſvolun, vid þau Fyrſtu Taar, Jlmande Huggun, og ſtrax ſem fyrer oſs hallaſt tekur naakvæm Hiaaſtod og Vidrietting; Eñ virdeſt oſs ad þu þetta um̃ eitt Augnablik undañdrager, er Haalſeñ ſtrax moodur aadur ad hroopa, Syneñ forgeingeñ, og ſaar Kvortun yfer þvi, ad vier f[illegible]um ſo leinge epter þier ad bijda. So ſem þad nu miñ liwfe HErra, ad Prijr Dagar voru yfer þier aaliktader, af hvorium ſaa Eine var þiñ Pijſla-Dagur, Añar þiñ Hvijldar-Dagur, og hiñ Pridie þiñ Uppriſu-Dagur; So aa eg og i lijkañ Maata Prija Daga fyrer Hendum; Saa Eine er nu yferſtandande, ſem er mijn Hierviſt i þeſſu auma Lijfe, þad er ſaa Erfides-Dagur aa hvorium Saal og Lijf þiaaeſt, og þo mier Polgiædes naumum̃ fiñeſt hañ opt

laangur,

længur, þa veit eg samt, ad eg kañ ecke aan Hormunga og Imislegs Mootgængs i Guds Dijrdar Rijke iñ ad komast, Act. 14. Hier framdregst mitt auma Lijf med Sorg og ymsre Astrijdu, allt þar til þad fær Enda med Daudanum, hvorium, nær kiemur, eg vil i JEsu Nafne feigeñ fylgia, og uppa þad hañ þiene mier þa til goodra Umskipta, vil eg til þess Tijma, epter þiñe Velþocknan miñ sæte HErra fylgia þier epter, og allt þad þola og lijda sem þu villt a mig leggia, Sie ad eins þiñ Kraptur i mijnum Breiskleika mættugur, So er eg viss um Sigureñ. Sa Añar Dagur er miñ og añara daudra Maña Lijkama Hvijldar-Dagur i Jorduñe, nær þo Guds Barna Sæler hvijla i Hondum DRottens og eingeñ Pijna snerter þær, Sap. 3. v 1 Hiñ Pridie er vor Uppriſu-Dagur ollum Guds Bornum Epterlongunarsamur, a hvorium vor Lijkame sem hier er ad Dupte vordeñ, upprijs i Krapte JEsu Uppriſu, Andlegur, Oforgeingelegur og Vegsamlegur, Lioomande og Dijrdlegur, 1. Cor. 15. Soddañ Fagnadarrijk Umskipte eru þa feingeñ, þar epter længar opt Hiartañlega mijna Sælu, Su Longuñ mun og um sijder uppfyllast. Hier ad auk er þad athugande, ad ei villde JEsus a Gydingaña Sabbats-Deige upprijsa, helldur a næsta Deige þar epter, hvar med hañ uppbyriade Sabbats-Dag Nya Testamentesins, sem nu er Guds Bornum bodadur, og af sialfs Christs Postulum tilskickadur.

Miñing JEſu Dijrdarfullrar Uppriſu, og er þad nu vor Suñudagur, edur Fyrſte Dagur hvorrar Viku, ſem og Riettelega kallaſt DRottens-Dagur, a hvorium ſierhvor Chriſten Madur a ſig. vel ad vanda, og þeñan Dag helga Gude til Dijrdar, og Saaleñe til beſtu Nota; Og lijka ſem þiñ og miñ HErra, Chriſten Madur, uppreis Dijrdlega a þeſſum Deige, ſo eigum vid a honum fyrer ſaña Ydran og Yferboot Andlega ad uppriijſa, ef ſa eilijfe Daude ſkal aungva Magt yfer oſs hafa.

O miñ Elſkulegaſte HErra JEſu, hiaalpa þu oſs ollum Riettelega þiñ Sabbath ad hallda og helga, hier i þijnu Naadar-Rijke, ſo ad vor Saal nææ ſiñe riettu Hvijld i þier, og þu hvijler i vorum Hiortum ætijd og Æfeñlega, AMEN.

# III. Capitule.

Uñ wtgaungu Kveñaña til Grafareñar.

DOg miog ſneṁa a þeim fyrſta Deige Vikuñar, þa ed eñ var myrkt, komu þær til Grafareñar med dyrmæt Smyrſl, er þær høfdu tilbwed, og nockrar med þeim.

AF þeſſum Kviñum maa ſiaa eitt auglIooſt Kiærleiks merke, ad þær Sokum ſiñar heitu Elſku til JEſum lietu ſig eckert hindra, og aungvañ Haaſka hræda fraa þvi ad vitia hañs bleſſada andvana Lijkama, er þær meintu ſo vera, og þad Ar-

deiges aan allrar Qvalar. Vilier þu i sama Maata mijn Saal naa Samfunde þijns elskulegasta Uñusta JEsu, og niota hañs Elsku og unadsemdar, eñ frelsast fraa Guds Reide og eilijfre Fordæmingu, þaa skalltu strax aa þijnum Æsku-Alldre leita hañs, hafande hañ og hañs Bodord i Hug og Hiarta, eñ hafna Holldsens Glaum og Giaalijfe. J añañ Stad, miñstu þess hvorn Morgun aan allrar Gleymsku og Forsoomunar, ad þu af Jnstu Hiartans Alwd, og yfer allt framm fyrst leiter þijns Guds med Bænahallde, Matth. 6. Akalle og Packargiord, Phil. 4. hvoriu ef þu ecke gleymer, mun þier blessudum blessast Himen og Jord, og allar Guds Gaafur, samt Verk og Ydne. Eñ framar skalltu leita DRottens, med sñemgiordre hreiñre Ydran og hræsnislausre Yferboot Syndaña, aa þeim þægelega Naadar-Tijma, medañ DRotteñ er ad fiña, Esa. 55. Og hañs Omælanleg Myskun og Poleñmæde bijdur epter þier; Ad ei wtbreide hañ forgiefens til þijn og i moote þier siñ Naadar-Fadm, þvi ef þu þetta þriooskusamlega undañdregur, kañ þier Naumt ad verda Hlid sañrar Yferbootar, þvi Ydran sein er sialldañ hrein, eñ þad er vijst ad DRottens Naad endurnærer þig, ef ei mootstendur honum og hañs hiaalpræddes Verke; Nu er sa þægelege Tijmeñ, nu er Dagur Hiaalpræðesins, 2. Cor. 6. Giæte þess hvor eirn, sem fiña vill Rwm sañrar Ydrunar. Jaa sier hvor skyllde med sier þeynk-
ia

ia ad torvelldt verda kuñe i siidustu Daudans Neyd, og Angist Andarslitraña ad JEsu riett ad leita, og hañ fiña, med þvi þaa kañ margt fyrer tesia, liika kañ Daudeñ so hastarlega ad heimsækia, ad saa faae eckert Svifa-Rwm hier til, sem þad hefur til þess Tijma hyrdulauslega undañdreiged, so þaa verde allt þetta i Raadaleysu, O hvad hæped er þad þa o Madur! ad eiga allt þetta ogiort under Bidlund þessa bitra og braada Dauda, hiaa hverium ei sæst Frestur um eitt Augnablik, þvi eg vil hallda ad þad eina Epterdæme þess ydrande Ræningia, Luc. 23. Leide ecke alla iñ i Himnariike; Og þvi sege eg eñ, oviss er Dauda-Stundeñ, ei skal þier ad treysta þar uppa ad þu eiger sem Skylldu-Skatt alltijd Naad DRottens viisa, hvad leinge sem þu hana foraktar, og undañ dregur heñar leita; J soddañ Sioo sier ad voga, er hid mesta Haaska-Spil, þvi hvad ödrum hefur ad Slise vorded, er uggvænlegt þier verde ad Glise, Drottiñ lætur ecke ad sier hæda. Gal. 6. v. 7. O þu Astriike Herra JEsu! margar og hardar Harma-Skwrer dynia yfer þijn Born i þessum Heime, i hvorium þau hroopa til þijn; O hvad miog laangar þa Hiartad epter þiñe Naa vist! Pad er Polgiædes-leyse mijnu ad kieña ad so laangviñ. finst Bideñ, og þo mier syneft edur siñest sem þu þeiger vid mier, og læter sem þig varde ecke um Trega mijns Hiarta, þa er þad meir eñ verdskulldad, þvi mijnar Odygder og Jllsku-Verk hafa maklega giört

ert Adſkilnad a millum þijn og mijn, Eſa. 30. Par fyrer maa eg graata, og ecke hef eg ad vænta nockurs Fagnadar edur Hugfrooa, Jaa, ongrar Glede-Stundar, faae eg þig ecke aptur funded, þvi bid eg þig audmiwklega miñ Hiartans Herra, laat þu mig ecke til Laangframa forgiefens epter þier leita i mijnum Mootgange og Mañraunum, þvi ſo er þijn Millde nærgiæteñ ad þu veitſt beſt hvad ſaart þad Sverd bytur, epter þvi þu ert ſiaalfur aa allañ Haatt freiſtadur, þu veitſt hvorſu ad allt Pol og Prek vill þaa i burt reña, þu veitſt hvad Magnlaus Erwar-Hondeñ vill þa verda, einkañlega hiaa mier hinum veſælaſta Orme, ſem aadur er næſta ſnaudur under, af ollum goodum Dygdum ſo þeſſum ſem odrum, kom þar fyrer þu goode Hirder, kom og leita epter mier, tak þu mig ad þier aadur eñ eg verd þeim illu Vorgum olldunges ad Braad og Herfaange, þvi hvor er ſaa i Helviite ad þier ſeige Packer?

Pad er hin hædſta Glede ad fiña til Naadar Naalægdar þiñar O JEſu, og faa af þier Forſmeck eilijfs Lijfs, eñ hvad er hryggelegra eñ miſſa aptur þad ſættſmackande Saalar Hunaang? Ad vera ſo gott ſem uppnumeñ med Sancte Paale i hiñ þridia Himen aa eiñe Stundu, eñ ſockva nær þvi til Helviitis aa añarre, 2. Cor. 12. v2 DRotteñ miñ JEſu, eg leita nær þeſs orka, epter þier af ollu Hiarta, leita þu aptur epter mier miñ Gud og Fader, og laattu oſs þijnar harmande Unga-

Skiepn-

Skiepnur alldrei Sioonar missa a þier, þu Astrijkasta Mooder, hvorke hier nie sijdar, Amen.

# IV. Capitule.

Um̄ Kveñaña Erende til Grafareñar.

Þeirra Erende var ad smyria JEsum, (sem Texteñ ꜳdur skijrer)

Þessar Gudhræddu Kviñur fylgdu DRottne, Fyrst epter wr Galilæa til Jerusalem, wt af Jerusalem, til Aftoku-Stadarens, þær voru vid hañs Andlꜳt, og ad Siidustu fylgdu þær honum til Grafareñar, Sꜳu hvar og hvorneñ hañs Lijkame var lagdur. Nu fꜳra þær med sier fullar Krwser af Smyrslum, eñ samt voru þeirra Hiortu fyllre af Elsku og Ast til JEsum, Sw var Orsokeñ, ad þær sporudu aungvañ Kostnad, og toldu hier ꜳ ongvar Tormerkiur, hvorke i Smyrsla Utveganeñe nie Um̄kostnadenum: Soddañ Art og Nꜳtt uru hefur Kiærleikureñ, þar sem Muñ-Elskararner telia ꜳ allar Tormerkiur, lijka sem hiñ Late afletur Verknadeñ og Ydnena. Ei kuñu þessar goodu Kviñur añad ad J-grunda, eñ þad Frelsareñ være nu Andvana hvijlande, og sijst þeinktu þær hañ munde lifa, samt lifde i og hiꜳ þeim Kiærleikureñ og Elskañ til JEsum, soddañ Kiærleiks-Dygd var ein su hin mesta; Þu Madur, skoda þig hier so sem i odrum Speigle. Vier erum fullfrooder ordner um̄ þad miñ JEsu, ad þu siert

fraa Daudum uppriseñ, lijka med sætum Sigre til Himens uppfareñ, og siert þar vor Astrijkur Fyrerbidiare, ei ad sijdur er nu Elskañ til þijn weslokeñ aa medal margra, Matth. 24. v. 12. O þad hormulega Stand! O þessa vondu Tijma aa hvorium vier nu lifum! Eg skamast mijn þo ei sem vert er, nær eg Hugleide Dygda-Dæme þessara Kveña, þvi þo eg med Ordunum laatest tala nockud um þijna Elsku, og raade odrum hana ad stunda, þa vill hun naalega i ongvu Goodu Verke sig auglysa aa mier, hvada Nafn tilheyrer mier þa, Añad eñ heita eirn Hræsnare? hvors Doomur i þijnu Orde mier er og til Eyrna komeñ; O JEsu væg þu þessum mijnum hormulega Veikleika, sem ollum odrum, og fyrergief mier slijkt allt af þiñe Myskun. Po þesse strax nefnda Dygd skine fagurt aa Kviñunum, þa var þo hiaa þeim Breiskleike i Bland, Jaa, soddañ eitt Lioos sem dapurt logade, og þurfte Adgiordar, sem var, ad þær meintu JEsum eñ þa Andvana i Grofeñe, eñ giættu all-lijtt hañs sialfs Orda, sem þær hofdu þo aadur af hañs eigeñ Muñe heyrt, ad hañ munde aa Pridia Deige upprijsa. Matth. 16. v. 21. Ad hvoriu þær gaafu sig ekkert hvort helldur þvi hefur Gleymskañ ollad, edur su Meining, ad ei munde af þvi verda. So er eñ þa ad lysa epter oss aumum Vesælingum, þvi erum vier so yferfallner i Mootlætingunum, samt þess i mille hardhnackader i Synda-Jdiuñe, ad añadhvort eru gleymd Guds Ord, edur vier trwum

þeim

þeim ecke, Hvorttveggia er vondt, þad sijdara þo verra. Pad sijnest so sem hier hallde æ medal vor, Tveir Kappar sijfellda Orustu edur Hoolmgongu hiaa sumum, af hvorium Añar heiter STIRK-UR, eñ Añar VEIKLEIKE, so gieck þad og þessum goodum Kviñum, Elskañ þeirra vard sterk, eñ Trweñ harla veik, og so sem i ødru Omeige, mun þetta ecke lijkt þvi sem Paulus talar uñ Utvortis Strijd og Baraattu, eñ Iñvortis Otta og Hrædslu 2. Cor. 7. v. 5. Eñ vid þad er sig ad gledia, ad JEsus hefur lofad ad sundurbriota ecke braakadañ Reyr, og ætsløckva ecke lyttlogande Hor-Kveik, Esa. 43. v.3. Pad er honum nær ad hiaalpa eñ Utskwfa, so hefur hañ reynst, so mun hañ reinast, hier uppa skal sig forlaata. ORott-eñ miñ JEsu, sem veitst hvad naumt þijn Born eru opt stodd a Trwáreñar Veige, so og hvorsu ad saa sigtande Diofull forsoomar sig ecke ad legg-ia ymsar Snorur i Veg fyrer oss, O hiaalpa þu oss ollum ad vor Trw til þijn bile ecke, og þa sijst nær tæpast er komed vorum Efnum, þvi þar æti auglysest best þitt Meistaralegt Myskunar-Verk

Framar, athuga þu Saala mijn, hvar þu kuñer ad saa þau Smyrsl, sem þiñ liwfe Lausnare, nu i Hæatigneñe verande, vill af þier ætelaatande þigg-ia hier a Jorduñe: Laattu honum fyrst i tie hrein og hræsnislaus Ydrunar Taar, og set þig med bersyndugre Marja ad hañs Footum med þetta Offur, og so hefur þu smurt hañs Fætur, Luc. 7.

7. v. 38. Og under eins þitt Hiarta, hvoriu þa verdur liettara æ epter; Par næst skalltu hans Hofud smyria, med ydugleguLofe og Packargiord, asamt odrum Guds Bornum er hans Nafn vegsama, Ps. 150. v. 6. Og huxa ad þetta er þijn Skylda, þvi so marga og stoora Myskun, Ast, Vernd og Velgiorder hefur hann veitt þier, ad slijkt verdur ecke taled, Ps. 50. v. 15.

J Pridia Maata, laat þu þier umhugad vera, af trwudu Hiarta Tregdulaust wte ad laata epter þijnum Efnum, þa Smurning þijns DRottens sem heiter Myskun og Medaumkan, med hægelegu Olmusu-Verke vid hans Volada og þurfande Lime, hvorier ad eru aller aumstadder riettchristner Menn, þvi slijka kallar Skriften Guds Son ar Andlegann Lijkama, sierdeiles; Eph. 1. v. 22. 23. Pad þu nu þessum gott giorer, vill JEsus reikna sier siaalfum giort, Matth. 25. v. 40. 46. Tel þad þvi ecke epter, og halld þad ecke glatad, sem þu so vid JEsum wtelætur, og hans volader medtaka, þvi slijku er aungvanveigenn i Siooenn kastad, og ei verdur þitt fyrer þessa Smurning neitt minna, þvi DRottenn vill þier þad goodu endurgiallda, þvi þessarar Smurningar Ilmur uppstijgur i Himenenn, Act. 10. v. 4. Enn Blessan Guds ofan til þijn aptur æ Jordena medann þu hier dvelur; Enn æ sijdasta Deige i Upprisu Riettlaatra færer soddann Smurning þier hin bestu Not, nær JEsus verdur til þijn segiande: Hv-

ad þier giordud Einum af þessum enum minstu sem ꜳ mig trwa, þad giordud þier mier, ganged inn i eilijft Lijf, Matth. 25. v. 34. Þu hædste Herra JEsu varst smurdur, edur þijn Manndomleg Nattura, ꜳn Mælingar, Ps. 45. v. 8. Med þvi Himneska Oleo Heilags Anda, fyrer þvi kunne ecki þinn Manndoomur nie sw Edlis Art, ad hindra þijna dyrdlegu Upprisu, og ei hafder þu Smurningar Þorf til ad aptra Forrotnuninne hvoria þu ꜳtter ecke ad siꜳ, Psalm. 16. v. 10. Þu hresser miklu framar þijnar Skiepnur med þessum og þvilijkum Gꜳfum, Jꜳ, þu veiter oss voludum þa Smurning fyrer hvoria vier kunnum Andlega ad upprijsa. Veit oss ollum þa Nꜳd minn Gud, ad vier audsynum oss epter þijnu Bode, Good-Hiartada og Giafmillda vid þijna Naudlijdande Lime, og fꜳum sijdan af þijnum blessada Munne ad heyra þetta Glede Tal, komed blessud Born mijns Fodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed frꜳ Upphafe Veralldar, Amen.

# V. Capitule.

## Um Jardskiꜳlftann.

NOg siꜳ, ad þar vard Jardskiꜳlfte mikell, þvi Eingell DRottens stie nidur af Himne, gieck þar ad, og vellte Steinenum af Dyrunum, og sette

sig

sig þar uppa, og hans Asynd var sem Elding, og hans Klæde hvijtt sem Snioor, En Vardhalldsmenerner skielfdust af hansOtta, og urdu lijka sin væru þeir dauder.

Þegar vor HErra liet sitt Lijf a Krossenum, þa skalf og hristest Jorden, Matth. 27. v. 51. So sem af Ofbode hinna beisku Kvala er henar Skapare hlaut ad lijda, so sem hun kyne ecke Oharmande slijkt af sier bera, giorde þvi med hinum ødrum Hof ud-Skiepnunum þessa Sorgfullu Lijk-Hrijnging. En sem vor HErra uppreis af Dauda med hinum dyrsta Sigre, skalf Jorden, so sem hun lieke fyrer sijnum HErra af Fognude, þa var og burtu Sorgar-Klæde Soolarenar, Ja øll Naatturan var þa gladvær, hvar um ad þeynkia mier er alltijd Eirn stoor Fognudur, edur þvi skyllde ecke mitt Lijf og Saal glediast i mijns DRottens Sigre, og yfer honum, er mier er til eilijfs Hiaalpræddes skiedur, og aungvu sijdur en Hofud-Skiepnurnar, stilla Eirn fagran Fagnadar-Dans. Þeir Lijflausu Hluter hafa eckert Gagn af þine Pijnu min HErra JEsu, en mier aumum Syndara stendur Huggun og Hiaalpræde af þine Forþienan, þvi mijn vegna hefur þu allt Fullkomnad, so sem þu sialfur yferlijster under þitt Andlaat, Joh. 19. v. 30. Þvi maa eg nu øllu framar Jordune mine Moodur, en þo armintur af hene, Hiartanlega fagna af þijnum sæta Sigre, yfer Illsku-Hoop mina Ovina, Synd,

Dauda, Diøfle og Helviíte, 1. Cor. 15. v. 55. Af hvorra Oke og Yfer-Drottnan, Jaa, eilijfum Kvolum og Pijnu þu hefur mig leyst og frelsad, so fadmar þa mijn Saal þig fagnande miñ sæte Sigurvegare, lijka er mitt Holld hier yfer gladvært, þvi þegar þroteñ er Armædu og Eymda full Hiervist þessa Lijfs, mun þad gladvært uppstanda af Grøfeñe, til ad lifa forklaarad med þier Eilijflega. Af þessu giefst mier eñ framar Orsok ad þeynkia uñ Tilstand miñar Hiervistar, hvor og hvilijkur eg sie, og hvad DRotteñ veite mier. Eg er i Sañleika Molld og Dreckur, og tilheyrer mier maklega ad skiaalfa og titra, so opt sem riett verdur ad mier H. Haaverdugt Holld og Blood DRotteñs i Kvolld maaltijdareñar Sacramento, under þa Medtekningu lofa eg ad giøra Boot og Betran mijns Syndafulls Lijfernes, Eñ Gud naade, þetta vill i aungvañ Maata so af mier efnast sem vera skyllde, og þad sem þo er verra, ad Vidleitneñ þar wt i er æred doseñ og døpur, Þessu velldur su forspilllta Naattura; Rom. 7. v. 18. 19. Sem mier hefur þad eckert epterlaated, er i nockru goodu Gyllde sie, Drotteñ væg þu mier aumum og syndagiørnum.

Þad maa lesa Act. 16. Þegar Paall og Silas voru af Høfdingium Borgareñar Philippis i Macedonia iñsetter i Myrkva-Stofu, ad nær þeir i Faangelsenu uñ Midnætte baadust fyrer, þa hafe þar orded eirn mykell Jardskiaalfte, so ad Grundvøllur Myrkva-Stofuñar hrærdest, og allar Dyr opn-

opnuduſt, eñ þeir urdu lauſer af ſijnum Fiotrum. Eins ſkiede og i þiñe Uppriſu miñ JEſu, vid þañ Jardſkiaalfta ſem þa vard, urdum vier Daudans Faangar lauſer af Myrkva-Stofu þeſs Eilijfa Faangelſes, og Andlegum Anaudum, Zach. 9. v. 11. Eñ i Stadeñ veittur farſæll Jñgaangur til Eilijfs Frelſis og DRotteñs Dijrdar-Rijkes, eñ þo oſs bere med riettu til Packlætis Miñingar, vid vorn HErra, til hañs wtgaanga af Herbwdum þeſſa Heims; og bera hier hañs Vanvirdu, Ebr. 13. v. 13. þaangad til þins verdur fullkomeñ Aſhending. 1. Cor. 15. v. 24. Lijka og maa þad leſa Exod. 19. þegar Gud DRotteñ Allsheriar wtgaf ſitt Heilaga Logmaal aa Sinai Fialle, ad þad ſama Fiall hafe þa ſkolfed og titrad, eñ Foolked fullt Felmturs og Otta, flyde og foor i burtu.

Logmaaled er Sendebode Hefndaña og Bolvunareñar, Verkande Hrædſlu og Skelfing i Samvitſkum allra Yvrunarlauſra Maña, ſem faſt aafram hallda aa Veige Vondſkuñar. Hier i moot er Jardſkiaalfte DRotteñs Uppriſu, Gladværdar og Fagnadar Sendebode ollum Riettrwudum, Utdrijfande fraa þeim allañ Otta fyrer Logmaalſens Bolvan, þvi nu er Logmaaled uppfyllt, og þeſs Bolvan i Bleſſan ſnwed, Gal. 3. v. 13. J JEſu vors DRotteñs Sigurviñing; Petta maa Eitt Guds Barn odru fagnande kuñgiora, og þeſſum eilijflega Lofsverda Guds Velgiorninge af Hiarta hrooſa hier i Naadeñe, Eñ þar fyllelega i

Vaktararner skielfdust, og urdu lijka sem være þeir dauder, þad kieñer, ad fyrer Krapt JEsu Upprisu kuñe sierhvør Guds Vinur med alvarlegu Framhallde Andlegrar Upprisu, ad nidurbriota alla þa Hæd, sem sig upphefur i giegn Gudlegum Vijsdoome, og burtreka alla þaa Satans Vaktara, sem hindra vilia i nockru slijkt Andlegt Saalu hiaalpar Verk, þvi þeir formeiga alla Hlute fyrer JEsum sem þa maattuga giorer, Eñ þo þetta faae ad kosta Strijd, þad fær og so ad vera, þvi hvør fær Coronuna, nema saa, sem berst og yfervinur, eñ fwoslegum Adburdum Mañsens i þessu, samteingest hiñ mikle Guds Kraptur af Himnum, hvar fyrer slijkt verdur ad Verke og Framkvæmd, er hier og þu Madur, ecke um neina Smaamune ad tebla, fyrer hvoria Meñ þo Stundum miked viña, helldur um Hnoss eilijfrar Æru, Hlauped þvi so þier høndled þad. 1. Cor. 9. v. 24. Siaa hier og aa Vokturunum Imynd illra Maña, og þañ Oræka Vott þeirra Verka, Samvitskuna, sem meir maa eñ Þusund adrer, og naa þar nærsta vel til Ord hins Vijsa, þa nockur er, seiger hañ, so Efablandeñ, þa giorer þad hañs eigeñ Illska, sem ber Vitne yfer honum, og fordæmer hañ, og ein hrædd Samvitska vænter ætijd hins Versta, þvi ad Hrædslañ kiemur þar af, ad Eirn treyster sier ei til ad forsvara sig, og veit sier aungva Hiaalp, eñ hvør sem lijted Traust hefur i sijnu Hiarta, hañ giorer Vijlsemdena stærre eñ Plaagañ sialf, so

þesser

þesser eru sialfum sier þijngre, helldur eñ sialf Myrkureñ. Sap. 17. v. 21. Hier af sier þu mijn Saal, ad Daglegt Sælgiæte sie ad hafa gooda Samvitsku, og saa Riettur er ecke giefande fyrer allar Veralldar Kræsingar.

Miñ JEsu, vilie mijn Samvitska fordæma mig, þa skal eg flya til þijn fyrer Taareñ, vitande, ad þu ert meire mijnu Hiarta, og villt þad Fridstilla. Hræde mig Løgmaaled, skal eg og flya a þiñ Fund, sem Løgmaalsens Bølvan hefur i Bless-an snwed, þiñ Betalingur er mijn Borgun, hana hefur Gud giefed mier, hvørs Verks hañ ecke ydrar, nie þad aptur tekur, Eñ hitte mig saa Harmur, ad eg i þessare Før til þijn, miñ goode JEsu, Take til ad søckva sem Petur a Sioonum Fordum, þa mun þijn Myskunar-Hønd, sem alldrei verdur stutt, taka til mijn sem hañs, so sem þad hefur hijngad til vered, so mun þad hier epter verda, Þessare Bæn, Trw og Huggun, laat oss þijn Børn alldrei sleppa, AMEN.

## VI. Capitule.

### Um Samtal Kveñaña a Veigenum til Grafareñar.

OG Kvinurnar søgdu sijn a mille, hvør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafar-Muñanum ? Þvi ad hañ var næsta mikell, og þa þær litu vid,

ſaau þær Steineñ afvelltañ, og fundu ad Steinenum hafde vered vellt af Grøfeñe.

ÞEgar þeſſar goodu Kviñur fooru ad heimañ, giørdu þær eingeñ Raad fyrer þvi, ad nockur Hindran munde uppaa fyrer þeim falla i aaformudu Verke, eñ aa Veigenum ſiell þeim iñ þeſſe Ottaus Paanke um̃ Steinſins Afvelltingu, og giættu þaa hid fyrſta ſijns Vanmaattar, hañ burt ad hræra, ſamt hielldu þær aafram̃ Ferdeñe, hvar vti Elſkañ ſynde ſitt Audkieñe, ſem ei lætur ſier neinar Hindraner aptur ſnwa, helldur er þoleñmood, og hefur alltijd gooda Von ad ſiñ Vegur mune greidaſt. Og er þad hier wt af vel athugande, ad nær eirn og añar Guds Vinur, vill eitthvad gott Verk viña, falla opt fyrer i þvi Aforme og Verke ymiſlegar Hindraner: Stundum onaada oſs vorar eigeñ Iñbirlingar, og Kvijde fyrer einu og odru okomnu, þar þo hvorium Deige næger ſijn Piaaning, Matth. 6. v. 34. J hvoriu ad ſiaa maa Lijking þeſs Strijds ſem er aa milli Holldſens og Andans: Stundum koma i Veigeñ Utvortis afraadande Hindraner margvijſlegar, og hvor kañ i ſtuttu Maale uppteiia alla þaa Steina ſem hier falla i Veg fyrer oſs, ſuma leggia adrer, þvi ærid margar eru Hneixlaner Verølldareñar, Suma vier ſiaalfer; opt bañar Otteñ oſs ad vera aa Ferd i Biørtu, ſem Nicodemo, Joh. 3. v. 2. Dramb, Agyrnd, og Lete,

ſnwa

snwa morgum fra Dygdaña Veige, J Einu Orde ad seigia, Sa goode Vegur er opt med ymsum hoggnum Steinum til=mwradur. Hier fyrer utañ hliootum vier Steina margra Eymda og Erfides ad bera, undañ hvorium opt verdur saart kveinad. Logmaalsens Steirn liggur næsta þwngt a veikum Mañe, hvor mun lietta þeirre Byrde? Hvor mun honum burtvellta? Þesse Steirn hootar margre Bolvan, fyrer þad hañ verdur ei boreñ so sem ber, eñ vorkieñer ecke Maattleysed, nie giorer Raad fyrer þvi, Hvor er þa Vorn vid þessum Voda? Eirn JEsus, og eingeñ añar, þvi hañ hefur þessa Steins þwngre Bolvan burtvellt, edur Logmaaled uppfyllt, þad eigum vier honum ad þacka. Þa er eñ þa Añar Steirn, sem margañ og þiaaer, sem er Krossens Steirn, og ymsra Mañ=Rauna, Matth. 11. v. 29. Ecke vill oss greidt veita, med vort Eindæme þessum burtvellta; Þad syneft og sem þesse Steirn sie ecke eins þwngur a allra Herdum, og trwe eg ad eingeñ skamte sier slijkt allt sialfur, Gudhrædder Meñ faa opt ad bera hiñ mesta Þwnga af honum med ymsu Moote, Eirn Dag epter Añañ, þegar adrer hlæia og leika lystugt fyrer med miklum Spreitinge a Hioole Luckuñar, meiga þeir graata og taka til Þacka ymsar Mañ=Rauner, sem noog eru Dæme til, Forn og Ny. Soddañ Kross=Steirn er med morgu Moote, eñ situr þo hvor ein hañs Tegund fyrer Mañlegum Kroptum, sem hvorke eru af

Kopar nie Steinum, Poleñmædeñ giörer þeirra Byrde liettbærare. Stundum finſt hier Hwngurſins Steirn, hvörium ſaa Forſiaale Joſeph ei gietur fraa öllum burtkaſtad. Stundum Striid ſins, hvörium Kongureñ, þo hañ kome til med ſiina Magt, fær ecke alltiid fraahrunded. Stundum Steirn næmra Siwkdooma, ſem Læknereñ gietur ecke alltiid mykt. Stundum Faangelſeſens, ſem Vinerner faa ecke jafnañ bætt. Stundum Skip Reikans, fraa hvörium Segl og Arar hiaalpa ecke alltiid. Stundum Ellds Vodans, hvörium Vatned fær ecke alltiid burt-fleytt. Stundum Steirn ſaarra Freiſtinga adſkiliañlegra, og ymislegs Böls, ſem mörgum verdur þeige-liettur, hvörium fagrar Fortölur ecke faa jafnañ burthrunded. Hvör hellſt Mootlætis-Steirn ſem þreingia vill miinu Hiarta, þa vere hañ mier i JEſu Nafne velkomeñ, hönum er ecke um̃ Megn ad hiaalpa mier ad bera hañ, hañ veit af hvöriu Verk Efne eg er ſkaptur, og ætlar öllu ſem næſt, hañ ſikrar þad beiſka, ſniir Vatne i Viin, eg hefur noogar Dyr, fyrer hvöriar hañ kañ mig burtleida, þegar hañs Millde þocknaſt, nu fraa þeſſu, nu fraa ödru, og Lokſens ad öllu Leite, hier uppaa ſkal vona, hier vid ſig gledia, og hönum ætiid med Taarum tilſeigia, þvi þeſſarar Moodur-Eyra, heyrer fliootaſt i Neydeñe, og huggar beſt i Freiſtinguñe, hañ hefur þær aadur reynt, hañ veit beſt ad vorkieña þær, hañ giörer ſarſælañ Enda aa þeſſu öllu ſam-

añ. Medal allra hier nefndra og þvilijkra Steina, er ecke ad eins Syndareñar helldur Priootskuñar i heñe ad blijfa, hiñ veste og stærste, Es. 48. v. 4. Ezech. 11. v. 19. Þvi hañ spyrner fra þeim Edla Læknernum JEsu, sem oll Mein og Saar kañ og vill græda, a þeim sem til hañs koma; Þesse Steirn steiper Saal og Lijkama i Eilijfa Eymd og Vesølld, nema soñ Ydran kome a mille, Joel. 2. v. 13. Þesse Steirn heiter og Ydranarleyse, hvørn Diøfulleñ opt iñsiglar med Priootskuñe, er sig auglyser Oskialldañ a hañs Prælum, hvørier ad sialfer eru so harder Steinar, ad a þa viñur ecke Vidsmiør Guds Velgiørda Lainglundar-Gieds nie Poleñmæde, ei helldur Vijn Guds Bendinga, Hootana, nie Aminiñinga, þeir lata allt hañs Raad fara, eñ Satan maa rijda þeim hvørt hañ vill. Vara þig aumur Madur, ad þesse Steirn verde þier ecke ad Meine, vellt þu honum burt i Guds Nafne og Krapte, med Høndum hreirnrar Ydrunar, so fær hñ þig ecke skadad. Eingell þess mykla Raads, JEsus Christur er i þvi Verke alltijd til Reidu ad veita þier Fulltijnge, hvad stoor og mørg sem Syndeñ er adur vordeñ; Ja, hvad sem þig hender, þa snw aptur sem skiootast med Taarum, þvi ecke vill JEsus þijna Glotun, þar uñ maattu vera noog sañfroodur af Guds Orde.

O Herra JEsu, hardt þreynger Syndeñ ad miñe Saalu, þvi eg hefe so margt illa giort, mijn Vondska er ætijd mikel, þad seiger mier mijn Samvitska,

vitska, hun hefur þad uppaa Reikning skrifad, so vill og Satan opt hindra mig aa miñe ydrumar-Reisu til þijn, og leida mig i Efasemd uñ þijna Myskun og mijna Velferd, sæte JEsu, eingeñ kañ þetta Biarg i burt ad taka nema þu alleina, þvi skrijd eg syndugur Ormur ad þijnum Footum, og bid þig Hiartanlega, ad taka þad allt i burt fraa mier, sem mig kañ i nockru ad hindra til þijn ad koma, giør þu saker Myskunar þiñar Oveige mijna ad Vegum, og Myrkureñ ad Lioose, so eg hwngradur epter þier, meige þig alltijd fiña, þvi nær eg sie þig fagnar Saaleñ, og auglyser þañ Fognud Heimuglega og Openberlega, Amen.

# VII. Capitule.

Uñ Grøfena.

OG Kviñurnar stigu iñ i Grøfena og fundu ecke Lijkamañ JEsu.

Sw Eina Sorg Kveñaña var nu bætt, Steineñ var afvelltur, fyrer hvorium þær þo kvidu. Þu skallt ecke kvijda stoort fyrer þvi Okomna, christeñ Madur; Ad Ovorum Abraham tilsette Gud Offrid i Stadeñ hañs Sonar fordum, Gen. 22. v. 13. Treystum Gude hañ kañ, ollu vel til Vegar koma. Eñ falle þier einhvor hastarleg og oforvarandes Sorg uppaa, þa vertu

þo

þo ecke Vonlaus, legg þig i Faung DRottins
þolinmoodlega, so hiaalpar han þier, ef þu bidur,
og biidur hans, so tefur han ecke leinge, hafer þu
JEsum i Mÿne, so man han til þijn, leita þu
hans fyrer sana Ydran, og drag þad ecke leinge
undan, þvi leiter þu hans af ollu Hiarta, so læt-
ur han þig sina sig. Eñ vilier þu nu spyria, hv-
ar at eg ad leita? Edur hvar mun eg sina
JEsum? Sem bæde vill og kan hugga mig, og
bæta allar mijnar Meinsemder? Þu heyrer hier
af Textanum ad þessar Gudhræddu Kvinur hafe
leitad Guds Sonar i Grøfene, þar sem þær vissu
ad hans Lijkame hafde lagdur vered: Ad sonu kant
þu ecki ad komast til þeirrar somu Grafar sem hier
er umgieted, edur giora hier Reisu til þeirrar wt-
hognu Joseps Grafar hvar Lausnaren Andvana
hvijllde, og þo þu villder hafa Erfide og Umkost-
nad þar fyrer, hvad ad sonu med Tijmanum vin-
ast kyne, þa giorer þad þier eckert Gagn i þessare
Grein, þvi soddan Pilagrijms Reisur eru þier
ecke bodnar i Guds Orde, miklu helldur vijkur
þad fra riettre Trwarenar Reglu ad forma slijkt i
hier sagdre Meiningu, edur ad Saalen skule þar
nockurt Gagn af hafa. Þu skallt christen Madur
athuga þetta odruvijse, og snwa þvi a gagnlegri
Veg, og vitia soleides andlega Grafar þijns blessa-
ada JEsu, so þu siert þo a einhvorn goodan Veg
samferda þessum Kvinum.

Þu skallt fyrst i Grøf þijns DRottens, athuga
siaalfs

siælfs þijns Dauda, og Burtferdar Stund fra
þessum Heime, þvi nær þu bier vid skilur, er þier ad
Guds Vilia i Grøfeñe Vist og Vera ætlud, (hv-
ør einu goodu Guds Barne verdur farsæl Roose-
me) þvi þad er tvijl-laust epter Guds Orda Fyrer-
søgn, ad aller vier faaum þessare Daudans Vita-
Skulld einhvorn Tijma ad giegna, vid þessu meig-
um vier aller bwast. Ad hyga þar uñ Daglega,
og med Gudrækelegum Underbwninge i saññre
Ydran oss þar til ad reida, hiaalpa oss øllum miñ
goode JEsu, so þegar þetta auma Lijf eitt siñ end-
ar i Daudanum, þaa meige og øll vor Eymd og
Neyd wte og endud vera, og vier mættum i þier
þu lifanda Lijf, lykta þetta Lijf.

J aññañ Stad skalltu Guds Barn, so hug-
leida þier til Huggunar Grøf þijns blessada Her-
ra, ad þu viter og vidkañest, ad hañ med siñe
Greptrun hafe helgad Grøf þijns og mijns Lijka-
ma, so hun er nu vordiñ fyrer hañ eitt sætt og
epterløngunarsamt Svefn-Herberge þreyttum
Mañe, Esá. 26. v. 20. Og þo vor Lijkame sem
er Orma og Madka Fæda, kolne þar, fwne og
for-rotne, þa gioreſt eingeñ Þorf ad kvijda slij-
ku, þvi Holldeð hvijlest þar i Fride til þess sijdasta
Dags, hvadañ þad forklarad af DRottins Al-
mætte uppreist verdur, og Saaluñe aptur med
ædsta Føgnude samteingt. Eñ nu aa medañ eg
life miñ DRotteñ, til farsællegs Daudans Und-
erbwnings þegar hañ kiemur, hefe eg giørt, og vil
fram-

framveigis giora mier Grøf Hæle og Hvijldar-Stad, fyrer mijna Sorgfullu Saal og Hiarta, i eirnre Biarg-Skoru, sem er i þijnu blessada Sijdu-Saare; Þetta Verk hefur mijn Trwar-Hønd fyrer sig teked, og þu sialfur hefur giefed mier Leyfe þar til, þvi vil eg þar uñ mig bwa, og þar feigeñ sem optast hvijla Hug og Hiarta, þvi þar er Lykn og Værd Saaluñe, þar er Svølun og Sætleike Omælanlegur, a þessu blessada Moodur Briooste vil eg gladur sofna, og þau sijdustu Andartøk hafa, so er allre miñe Eymd, og sialfum Daudanum i besta Sætleik snwed. Þegar þu miñ DRotteñ varst læteñ a Krossenum, lagde Joseph þig i sijna eigeñ Grøf, og wr þeirre Grøf Josephs ert þu uppriseñ, þar af giesst mier ein good Amiñing, sem er su, ad eg tilreide sem best eg kañ Grøf mijns Hiarta, og herberge þig þar miñ liwfe Endurlausnare; Þu hefur kosed þier sialfur þeñañ Hvijldar-Stad, þu hefur noogu dyrt keipt hañ, hañ skal og verda þiñ, eg vil feigeñ þiggia þar þijna Vistar-Veru, hier skal Hiarta i moot Hiarta, og Hiarta fyrer Hiarta giefast, O ein blessud Bijte! Og nu so ad þesse Grøf sie ein nij Grøf i Lijking hiñar, vil eg Daglega fyrer þijna Hialp nya hana edur hreinsa med heitum Taarum hræsnislausrar Ydrunar, O Gud giæfe þad giæte so vered, uppa þad hun mætte og verda ein stadfost Stein-Þroo, hvøria eingeñ Orvæntingarseme kuñe fraa þier ad hræra, miñ Gud,

eingeñ Synd i burt ad fæla, eckert Mootlæte bila edur yferbuga, Rom. 8. v. 37. seq: Helldur fare i þier, a ollu Strijde, og ollum Ovinum sætañ og farsælañ Sigur, þier sialfum dyrdlegañ, mier Saaluhialplegañ, 1. Tim. 6. v. 12. Jei nu Orde, snu þu mier DRottiñ, so er mier snued, Jere. 31. v. 18. Lækna þu mig, so verd eg heilbrigdur, og hvijl þu i mijnu Hiarta ætijd og ef iñlega, Amen.

# VIII. Capitule.

### Um Einglañа Opeñberan og Bodan Christi Upprisu.

DAr fyrer, þa Maria Magdalena sier Steineñ burt-tekeñ af Grøfeñe, hleipur hun, ad hun kuñgiøre þetta Postulunum. Og sem Kviñurnar efudu hier um, Siaa, stoodu Tveir Meñ hiaa þeim i leiptrande Klædum, eñ þær urdu hræddar, og sloou siñe Asioonu nidur til Jardar, þa sogdu þeir til þeirra, hvad leite þier hins Lifanda hiaa Daudum? Hañ er eige hier, helldur er hañ uppriseñ, Hugleid ed hvorneñ hañ talade vid ydur, þa hañ var i Galilæa, Seigiande, þad Mañsens Syne byrtade ad seltast i Syndugra Maña Hendur, og Krossfestur verda, og a Prid-

ia

ia Deige upp ad rijsa. · Og þær Endurminnuſt hañs Orda.

GUD tebler lijka ſem Forkiæring vid Mañeñ i þeſſum Heime, þvi lijka ſem þar er ymiſt uppaa Teningnum, ſo ellder hier og ymſu, nu er Glede, nu Sorg, og þad Stundum ſitt aa hvorre Stundu, Gud hefur heſſu ſo nidur-radad, þeim ſem hañ Ottaſt, til Reynſlu og Proofunar, hvorneñ þeir vilie ſkicka ſier i hvorutveggiu. J Velgeingneñe ſkal Mañ hallda ſier i Stille, þvi ſaa ſem nu er ſaddur ſkal þo Hugleida, ad aptur ad nyu kañ hañ hwngradur ad verda, og ſtaata þvi møgulega. J Mootlætenu ſkal Mañ og ecke Orvænta, helldur lijda Poleñmoodur þad aa vill drijfa, og bijda DRotteñs Atkvæda, þa mun hañ ſnart ſnwa Graat i Glede; ſo ſaa ſem i Dag nidurſaaer i Taarum, hañ meige aa Morgun med Fognude uppſkiera, og gleyma ſo ſijnu fyrra Angre, Eſ. 65. v. 16. Og þa er þad, ſem hefde þad ecke vered, nema til Vidurhallds vorum rietta Chriſteñdoom. Jeg miñeſt aa þa Fyrre Dagana ſeiger David, og tala um̃ þijnar Daaſemder. Mun þad ecke eñ, lijkt vera fyrer Guds Børnum, nær Eirn af þeſſum fiñur Añañ, kvedur hvor ødrum ſijn Harma-Kvæde, og þad ſtundum graatande glader, þvi þa er og opt i Talenu, hvorneñ Gud hafe Myſkunſamlegañ tiaad ſig, i þvi og þvi Efne, og ſnwed þvi undarlega, og huggar ſo Eirn Añañ med þeirre ſømu Huggun ſem

Gud veitte honum, Segiande; So foor Gud med mig, hañ man og til þijn; Motlæted er Skerf-ur Guds Barna, lææt þu þad þvi ecke undra þig, Gud Hugsvalar þier um̃ sijder.

Miñ goode Gud, hendla þu vid mig sem þier lijkar, mier geingur alltijd vel, þegar mier geingur epter þijnum Vilia, grææter þu mig, so huggar þu mig snart aptur, Gief mier med Þogn og Þoleñ-mæde ad bijda þiñar Urlausnar, Job. 13. v. 15. C. 14. v. 14. Allt Angur mijns Hiarta mun þijn Moodur-Hond hin miwkasta, hier ánægiañ-lega, þar fullkomlega um̃ sijder af-þurka. Thr. 3. v. 32. Tveir Einglar byrtust hier Kviñunum, añars hafa Sex Einglar DRotteñs af Himnum komner sig Opeñberad vid Grøfena HErrans. Sææ sim̃ vellte Steinenum af Grafar-Muñanum. Þesser Tveir er stoodu hiææ Kviñunum, eñ adrer Tveir til Høfda og Foota sitiande i Grøfeñe, hvoria Maria Magdalena sææ. Og sææ Eine sem sat i Grøfeñe til Hægre Hlidar, skrijddur hvijtu sijdu Klæde, hvorn Kviñurnar sææu til samans.

Þessa sijna Blessada Eingla sende hiñ goode Gud til Huggunar þessum Harmþrwngnu Kviñ-um, og ad boda þeim Fagnadar-Tijdendeñ JEsu Upprisu. Hañ lætur eñ sijna Eingla þiena sijnum Utvølldum, eñ þo vor Augu sieu ei so upplijst, ad vier siææum þessa Dææsamlega Verndan so sem þessar Kviñur, þa þreifum vier þo nææalega ææ þeirra Giætslu. Pad var stoor Glede-Bodskapur, sem

Jacobs

Jacobs Syner færdu sijnum Harmþrwngna Fødur, nær þeir kuñgiordu honum ad Joseph lifde med Heidre i Egyptalande, Gen. 45. v. 26. Eñ myklu Ædre er þesse Eingla ñá Bodskapur, Kvinnunnin og oss under eins færdur, ad JEsus med Ædsta Guddooms Heidre og Himneskre Sigurviñing sie oss, Daudvona og Færædum Saudum sijnum til Riettlætes uppriseñ, Rom. 4. v. 25. Hafe oss opnad Dyr Himna-Rijkes sem aptur-luktust oss i Adams Falle, frelsad oss fræ Helviitis Anaud, og øllum Daudans Voda. Þetta er þad Blessada Evangelium, sem oss mæ Hiartañlega kiæta. So meigum vier nu i DRottens Nædar-Rijke, lijfgader af H. Anda, i Trwñe leita þess lifanda JEsu, hvørs Mañdoomur uppriseñ er med Saal og Lijkama, og nu lifer, Rijkiande i siñe Guddooms Hætign, hvør oss mun hier i sier lijfgada og Andlegu Lijfe giædda Lokfsens wr þessum Harma-Dal Heimsins, til eilijfs Lioofs og Lijfs med sier iñleida. Þesse lifande HErra hefur oss fyrst þad Nætturlega Lijfed meddeilt, samt allt, Eitt og sierhvad sem þvi sama er til Vidurhallds þienande, þvi i honum erum vier, lifum vier, og hrærumst vier, Act. 17. v. 28. Jæ, hvad sig nærer, hrærer og bærer, lifer af þessare Lijfsens Uppsprettu. J honum hefur og sierhvør Sañ-Christ eñ sitt Andlegt Lijf hlotid, fyrer Verkan hins H. Anda, og þad Fyrst i Skiirneñe, hvar vier Hiælp, Lijf, Boot og Heilsu feingum af hañs Guddooms

Giæsku og Almætte. Ezech. 16. v. 4. 5. Hañ Lijfgar oss og Daglega, af Syndunum fyrer saña Ydran upprijsande. E. 18. v. 21. Af þessare Lijfsins Lind, verdur oss og, epter afstaded þetta Lijf veitt og giefed þad Eilijfa Lijf, hvar øll vor Hrygd snijst i fullkomna Glede æn Enda, og nu miñ HErra JEsu, epter þvi þu ert þad lifanda Lijf, hvørt mijn Sæl i Trwñe umfadmar, þa giør þu mig Lifande i þier Lifanda, med Lijfgunarfullre Adstod og Upplijsingu þijns Blessada H. Anda, sem alltijd stioorne mier og stijre, og leide mig so sijdañ af þier Lijfgadañ til eilijfs Lijfs. HVAD LEITE ÞIER HINS LIFANDA HIA DAUDUM, segia Einglarner hier til Kveñaña, hvørier munu giøra þad nu æ vorre Tijd? Sañlega giøra þad aller Muñ-Christneñ Hræsnarar, Ebr. 6. v. 1. Sem lææast heita Christi Vin er, eñ lifa þo i ymsu Ræænglæte, og leika sier ad Syndum og Løstum, hafa forbrendar Samvitskur, hata Liooseð, og eru fyrer utañ þad saña Lijf i Christo, Eph. 4. v. 18. J hvørium ad er eitt Riette legt Athæfe, Þesser hallda sig ad lifa, þo þeir gæange dauder, ef þeir ad eins heyra Orded og brwka Sacramenteñ, þad hvørttveggia er ad søñu til Vidurhallds Andlegu Lijfe, og Huggunar Sañydrande Guds Børnum, so þau i Christo Eilijflega life. Eñ hinum þad Ydrunarlauslega vanbrwkande, er þad Ylmur Daudans til Daudans.

Þu Sæte JEsu ert vort einka lifande Lijf, Þu

ert vort Lijf i Hørmungunum, vort Lijf i Daud-anum, vort Lijf i Uppriſuñe, vort Lijf uñ alla Ei-lijfd, Lat þu oſs O HErra JEſu lifa i þier i eirne lifande Trw, og a þig, þu ſem ert ſu rietta Lijffens Book iñſkrifada vera, Phil. 4. v. 3. Openb. 21. v. 27. Fullviſſa uñ Eiiijfs Lijfs Arftoku i Dijrd eñe, Openb. 3. v. 12. AMEN.

## IX. Capitule.

Uñ Utgaungu Peturs og Johañis til Grafariñar og hvad þeir ſaa i Grøfeñe.

OG þær geingu fraa Grøfeñe aptur, og kuñgiørdu allt þetta þeim ellefu, og ſo øllum ødrum. Eñ þetta vár Maria Magdalena og Johaña, og Maria Jacobi, og þær adrar med þeim ſem þetta ſøgdu Poſtulunum, og þeirra Ord virdt-uſt þeim ſem være þad Hiegooma Maal og trwdu þvi ecke. Eñ Petur ſtood upp og hlioop til Grafareñar, ſkigndeſt iñ, og ſaa Lijnklæden løgd einſømul, foor burt, og undradeſt med ſiaalfum ſier, þad er ſkied hafde, þviad Maria Magdalena hafde komed til Simonar Peturs, og til hins añars Læreſveins ſem JEſus elſkade, og ſagde til þeirra, þeir hafa teked burt Herrañ wr Grøfeñe, og vier vitum ei hvar þeir hafa

lagt hañ. Pa gieck Petur wt og sa aañar Læresveirn og komu til Grafareñar, eñ þeir tveir hlupu bæder ææsamt, og hiñ aañar Læresveirn hlioop vakrara fram eñ Petur, og kom fyrre til Grafareñar, og er hañ giægdest þar iñ, sææ hañ Lijnløkeñ løgd þar, eñ hañ gieck eige iñ. Pa kemur Simon Petrus epter hønum, og stijgur iñ i Grøfena, og sier ad Lijn-løkeñ eru løgd þar, og Sveita-Dwkureñ sem var uñ JEsu Høfud, ei lagdur med Lijn-Klæd-unum, helldur sierdeiles samañundeñ i ei-num Stad. Pa stie og hiñ aañar Læresveirn iñ, sææ er fyrre kom til Grafareñar, sææ þad og trwde þvi, þviad þeir kuñu ei eñ þa Ritningarnar, þad hønum hefde byriad upp ad rijsa fraa Daudum.

PAd sierlegasta sem þu christeñ Madur merkia skallt af þessum Textans Ordum, er þad, ad vera ecke torvelldur ad trwa Guds Orda Sañleika, og draga ecke undañ þaa andlegu Ydranar og Bænar Leit epter þijnum Herra, helldur so sem eirn andlegur Johañes hrader alltijd þessare þiñe Før, þvi ei veitst þu hvad leinge þier endast Kraptarner þar til, nie nær Naadar-Dyrum Drottins er aptur lokad, og merk Dæme þeirra ofor-sjaalu Meya, Matth. 25. v. 10. et seq. Ad ei

hende þig hid sama. JEsus leitar epter þier Daglega, Daglega wtrietter hañ til þijn, og at moote þier synar Nadar Hendur, Es. 65. v.2. Kom þvi Barn Guds sem hradast, og vird alltijd mikels Herrans Sendeboda, fyrer hvoria hañ skickar Bod epter þier, og þo þier þyke þeir lijtelsiorleger sumer fyrer þijnum Doome, þa hefur þu þo alltijd ad virda Gud og Sañleikañ, og huxa þañeñ, miñ JEsus kallar, þvi skyllde eg þa ecke koma? So vill hañ þa heyra þig nær þu kallar, og nær þu leitar, af þier fundeñ verda. Hier er og ad merkia eina Huggunar-Grein aa Petre, hañ komst aafram til Grafareñar þo seirna fære. Hafe þier christeñ Madur til falled Seinleike, edur Undañdrattur sañrar Yferbootar, þa skalltu þo samt alldrei örvænta þier Nadareñar, lijka vel þo þvi verde ecke neitad ad soddañ sie voveiflegt Haaska-Spil, þad stendur þo samt alltijd stödugt, ad ecke vill DRotteñ Syndarans Dauda, Ezech. 33. v. 11. Laat vera hañ vilie mæla þier þad aptur i þiñ Barm med Hrygdum þessa Heims, ad þu hefur so illa breitt, Es. 65. v. 7. Eñ seig mier hvar til mun þad skie? Til þess seige eg, ad þu hallder þig ecke saklausañ, og þecker betur hvad aadur er skied, og taker so hier wt þad vonda i Lijfe þijnu med þessum Guds Doome yfer þier, so ei fordæmest þu med þessare vantrwadre Verölldu; Eñ þier byriar ad taka þvi þa vel og seigia med Spaamañenum þoleñmoodlega i goodre Von, eg vil

vera Reide DRottens, þvi eg, hefe syndgad a moote honum, og þaa midt i þijnu Harma-Floode, skallt þu umsadma med þijnum Trwar Ormum þetta Huggunar rijka Guds Fyrerheit, nær sem saa hiñ synduge snijr sier og giører riett og vel skal hañs fyrre Synda alldrei framar minst verda, Ezech 18. v. 21. seq: Jaa, þu skallt Jhuga Sanct: Pals Ord, þad er dyrmætt verdugt Ord, ad JEsus er komeñ i þeñañ Heim syndvga Meñ Saaluhoolpna ad giøra, og ber so allt þetta samañ vid JEsu Vidhondlan vid hañ ydrande Ræningia, samt Fødursens vid hañ fortapada Son, og muntu þaa sañydrande siña, ad þu hafer ei Orsøk ad orvænta. Pad er hier ad auke athugande, ad þeir Hluter sem bevijsudu Christum sañarlega af Dauda uppriseñ vera, og þessum Guds Astvinum þiena mattu til eins Gledefulls Huggunar Teikns, sem var Grafareñar Opnan, og Christi Burtfør wr heñe, þad giordu þeir sier, þo sierdeilis Maria Magdalena, sem þar fyrer harmade, ad einu sorgar Teikne, og skieđure slijkt oss eirneñ optlega, þvi þegar Kross og Hørmungar mæta oss, þa meinum vier þad Reide-Teikn DRottens, og so sem eitt Skilnadar Brief vid hañ, lijka sem hafe hañ sijna Naad og Huggun iñebyrgt i soddañ Tilferlum, og forgleimt leingur Myskunsamur ad vera, Thr. 5, v. 20. þar þo Krosseñ er eitt gott Teikn, edur eru þad ecke lioos Ord, og øllum skiijanleg sem þar standa,

Ebr. 12. v. 6. og 7. Ad hvorn hañ sem DRotteñ elſke, þañ ſama age hañ. Og aptur, ef þier værud oan Tiptunar, þa værud þier ecke Born, helldur hiaa Born, og ſaa ſem ſlijks giæter, og ber þoleñmoodur þeſſar Kroſſ-Reynſlur DRottens, hañ hefur ſoddañ eitt Fyrerheit af honum: Med þvi þu hefur vardveitt Ord miñar Poleñmæde, mun eg vardveita þig aa Freiſtingar-Tijmanum, Apoc. 3. v. 19. Hyggium ad þeſſu, þier Guds Viner, og laatum oſs ei vera ſo framande og Peckingarlauſa i ſoddañ Kroſſ-Skoola, hvorier þo vilium heita JEſu Læreſveinar, edur hvorneñ maa vid Sælkiera Heimſins, og ſijhlæande Meñ, ſegiaſt þetta ſijdar meir; Þetta er ſa Madur ſem komeñ er wr miklum Harmkvælingum og hefur yferuñed fyrer Lambſins Blood; Þo nu holld og Blod vilie ecke laata ſier þetta ſeigiaſt og þvi lijkt, þegar nockud ber ad Hondum þa munum vier þo ſaña Kroſſeñ ſijdar meir ad hafa vered Aſtar Teikn lifanda Guds. Ad ſijduſtu hygg ad mijn Saal, ad hier voru DRottens Naa-Klæde epter i Grofeñe, hvor hañ took ei med ſier nær hañ uppreis, hañ var aa Kroſſenum nakeñ wijndur, þar maattu aller ſiaa hañs Al-Blooduga og Benium þakta Lijkama, eñ hañs Klædum ræntu hañs Kvalarar, þau liet hañ epter i Heimenum: Eins ſkiede og hier; Hañs Lijk-Blæia maatte epter liggia. So veit eg og, ad eckert ber eg i burtu wr Heimenum, eg kom hingad nakeñ, eg fer og bur-

tu nakeñ, og hvad skulu þa þau stooru Veralldar-Maña Umbrot, þetta skal kieña mier ad vera ecke of-gyrugur epter Skamviñum Aud þessarar Veralldar, lijka og ad reisa ecke Hollded med of-miklu Epterlæte; Epter Himneskum Rijkdoome vil eg sækia, og eilijft Sælgiæte þreyge eg hwngrad-ur, og sem komed er ad þvi þraungva Hlide sem þar til liggur, og hiñ svarkallde Dauda Sveite vill sund ra Samvister Saalar og Lijkama, vil eg þa sijd-ustu Daudans Skaal so afswpa, ad eg synge und-er eins yfer heñe mijns JEsu Miñing, og i hañs Sveita-Dwk iñvefia mitt Hofud og Hiarta, þar med vil eg miñ Veg hiedañ giora wr þessum aumu Veralldar Her-Bwdum, leggest þa þijn Lijk-Blæia miñ goode JEsu, þad er, þitt Riettlætes Klæde i þeim sijdustu Strijds-Lokum yfer mijna mædda Saal, og take so þijn Hond full Lyknar og Dumrædelegrar Mysskunar vid ollu samañ, mier deyande, og mijnum epter þreygande; Bæn-heyr mig hier um miñ Gud, Amen.

## X. Capitule.

Um þad hvorneñ Einglarner og sialfur JEsus Opeñberudust Mariu Magdalenu.

Ageingu Lærefveinarner burt heim til sijn aptur, Eñ Maria stood vid Grøfena og griet þar wte fyrer, og er hun griet, þa giægdest hun i Grøfena, og saa Tvo Eingla Hvijtklædda sitiande þar,

Eiñ

Eirn til Høfda, og Añañ til Foota, þar sem þeir høfdu lagt Lijkamañ JEsu, og þeir sogdu til heñar, Kona, þvi grætur þu? Hun sagde þeim, þeir hafa teked burt Herrañ miñ, og eg veit eige hvar þeir hafa lagt hañ. Pa hun hafde þetta sagt, snerest hun vid, og leit JEsum standa þar, og visse þo ei ad þad var JEsus, JEsus sagde til heñar, Kona, þvi grætur þu? Ad hvørium leitar þu? Eñ hun ætlade Jurtagards Mañeñ vera, og sagde til hañs: Herra, Ef þu barst hañ burt, þa seig þu mier hvar lagder þu hañ? Og eg vil sækia hañ.

SÆLer eru þeir sem Harma, seiger JEsus, Matth. 5. v. 4. Þvi þeir skulu huggader verda. Harmureñ er med margt Slag, øllum Guds Barna Harme epterfylger Huggun af DRottne, añadhvort hier edur sijdar, Jæ, lijka vel hvort tveggia. Margur grætur leinge sijna Elskulega Astvine; Abraham griet Saram, Isaac sijna Moodur, Jacob Rachel, David siñ unga Son, Jeremias Josiæ Kongs Afgaang, og Maria hier JEsum sialfañ, af þvi hun fañ ecke hañs Lijkama, og hefur margur sem grætur miña Graats-Efne, ef epter Mañlegum Plagsid skal tala, hvorium Guds Myskun lijka væger og vorkieñer, sem best

þecker

þecker vora Vesolld og Veikleika, þad mætti medal añars siaa af hañs Naadar Vidhondlan vid Eckiuna i Naim. Maria var Einfolld og visse ecke Ritningarnar, hun skyllde ecke af þeim þetta Guds ætsetta Hiaalpar-Raad, og þvi var heñe næst ad hallda JEsum burt-tekeñ.

Myrkred er Ovidkuñanlegt, Lioosenu fagna þess Eiskendur, þetta stitter Stundernar, hitt eykur Laangsemena. O hvad seart Harma-Spil er þad, ad siña ecke nie fornema JEsu Huggunar-Byrtu, og hañs Naadar-Naalægd, Loskv. 3. v. 1. Hvilijka Huggun skal saa hafa, hvad kañ hañ ad gledia? Eñ mijn Saal, giæt þu ad þijnum Eymdarhætte, opt hender þig verra eñ Mariam hier, ecke taka þijnar Synder þig alltijd seart til Hiarta, hvoriar þo Adskilnad giora mille Guds og þijn, Es. 59. v. 2. Medañ þu ert i Utriettingum Gyrnda þiña, þa giorer þu ecke Raad fyrer þvi hvad æ epter mune koma; Þu vegur ecke æ medañ hvad þwngsu saara Hrygd sie ad tijna JEsu, og siaa hañs æ Bak, lijka vel hender þig opt su Blyndne, ad þu meinar hañ i Ferdeñe sem Maria hañs Mooder, og geingur so fram marga Tijd, ad þu giorer þier ecke ant um hañs Epterleit, Eñ epter æ seirna maatt þu leita hañs med beiskum Taarum og Hiarta Sorg, hvorium þu tijnder fyrer Giaalijfes og Gleymsku Saker medañ þu elskader meira Myrkred eñ Liooseð, Joh. 3. v. 19. Þa seiger þu, þeir hafa teked burt Herrañ miñ, og eg veit ei hvar þeir

hafa

hafa lagt hañ : Eñ hvør took hañ burt, nema Synder þijnar? Nu sialfs mijn auma Sæl hefur burt-reked hañ. Mich. 3. v. 4. Jaa, þañ sem er þitt Lioos, þijn Heill, þitt Riettlæte og þiñ einka Fog nudur, hvørium villtu þa um̃ kieña nema sialfre þier? Joel. 2. v. 12. Eñ mijn Sæl, hafe slijkt ein-hvørn Tijma skored þig saart, leik þier ecke ad þvi optar, fyrer Guds og þiñar Velferdar Saker; Haf hier epter betre Vakt a þijnum HErra, græt þu beisklega Synder þijnar, kalla epter þijnum HErra, og þar hañ hefur beded marga Stund epter þier, Ezech. 16. v. 6. So bijd og þoleñmood epter honum, Ps. 27. v. 14. Og giæt þu Sakarenar, gior þu þetta, þa, so sem Maria fañ Lokfins JEsum, so fær þu og med Fognude hañ funded, hvar um̃ allmørg DRottens Oraskañleg Fyrerheit þig Hughreysta.

Þeirre Leitande og hryggdu Maria byrtust hier Fyrst Tveir Einglar heñe til Huggunar. Ord Guds og Sacramenteñ, med Fiollda þeirra sem þad frambera, og wtrietta, byrtast þier hier eirneñ opt, þad þacka þu Nææd Guds, fyrer þessa Sende-boda talar DRotteñ til þijn, ææmiñer þig og huggar, hlijd þvi fyrra, kiæt þig vid hid Sijdara, so sem græted Barn vid goodrar Moodur-Ord. Og lijka sem þesser Blessudu DRottens Einglar voru hvijtum Skrwda skrydder, auglijsande þar med Dijrdar-Vegsemd vors HErra, So ættu sijdar-meir a Himnum i Ædstu Vegsemd Einglunum

lijk ad verda; Epter þad þu hefur þañ ſvarta Hrygdar Bwning bored hier i Utlegdeñe, att þu þar fyrer Hende, a Lande Lifande Maña hvijtañ Riettlætes-Skrwda, Openb. 7. v. 14. J hvorium þu att ad liooma Eilijflega, þetta og þvilijkt ſkal nu lietta þiñ Harm, og kiæta þitt Sorgfulla Hiarta. Eñ a medañ þeſſe Fognudur er þier ecke til fulls afhendtur, þa hefur DRotteñ klædt þig ſkiærum Riettlætes-Skrwda i Skijrneñe, Tit. 3. v. 5. Hvorn hañ og Endurnyar i Kvolldmaaltijdareñar Sacramento, og hafer þu gooda Voktun a honum, eru DRotteñs Einglar alltijd til Reidu ad hiaalpa þier, vernda og vardveita hvar þu ert edur fer, hvort þu Sefur edur Vaker, Pſ. 34. v. 8. Soddañ allt odlaſt þeir ſem a DRottne Vakt hafa. Hier ad auk ſeiger Texteñ, ad ſu Sorgfulla Maria hafe Lokſens feinged ad ſiaa þad ſem hun ſo miøg þraade, og epter hvoriu hun leitade, edur ſiaalfañ JEſum hvorn hun hugde Jurtagards-Mañeñ vera. Hier fær þu nu þad ſañad mijn Saal, ad hvør ſem harmande leitar JEſu, hañ fiñur hañ. O hvad ſtoor Hiartans Glede er ſoddañ, þo verdur ſu Glede þvi ſtærre, ſem Hrygdarfullrar Epterleitunar Varañlegleike hefur meire vered ad undañfornu, Jaa, þvi ſætare verdur þa Fundureñ.

Epter þier miñ JEſu þraae eg marga Stund; O hvad miøg langar mig ad meiga ſem fyrſt koma til þijn wr þeſſu leidegiarna Lijfe. Eñ mijn Saal, vert þu til Frids, laat þier ei leidaſt ofmiøg þeſſa

Bid,

Bið, þu fær so opt að sia JEsum þig glediande nu ẽ Tijðeñe, og þo sia Hunangs Sætleikans Smeckur verke i þier Leiða Hier-Vistareñar, og Longun i Himineñ, hvað villtu þo añað, eñ bijða þoleñmood Brwðgumans Tilkomu, Matth. 25. v. 5. etc. Kañske Biðeñ sie styttre eñ þu ætlar, og þo hun eñ long vera kyñe, þa er hun samt stutt fyrer Guðe. Hugleið eñ framar, að þo Maria fære hier villt um̃ Persoonurnar, þa er JEsus þo samt eirn Urtagarðs Vorður, hañ bætte þa vondu Garð-Voktun Adams, so og lijka þijna mijn Sæl. J Alldengarðenum byriaðe JEsus Pijnuna, og i þonum endaðe hñ hana. J Alldengarðenum uppreis hñ fra Dauðum, og sialfur er hñ hiñ beste Alldengarðs-Vaktare siñar Christne, sem frioofgar oss sijna Kviste. J Alldengarðe vors Hiarta hefur hañ iñrætt sitt H. Orð, af hvoriu Sæðe að vaxa hiaa Guðs Bornum sæter Dygða Avexter, Elska Trw, Poleñmæðe, Hoogværð, Lijtelæte og meira soddañ, hvorier Avexter hañ sialfañ gleðia; Nu þo mitt Hiarta O Herra JEsu; sie af þier, eirn Vokvaður Alldengarður, so ber það þo þvi verr, opt eirn slæmañ Avoxt, Devt. 32. v. 32. Og margt Jll-Grese, hvort upp að ræta mier torveldt veiter, nema þiñ Kraptur sie þar til miñ Stirkur, og verke að það viñest.

O JEsu mitt einka Traust, hvors Jñdæle það er, að hiaalpa nauðstoddum, væg þu mier aumum, og formæl mier ecke sem þvi Avaxtarlausa Fijkju-

iu-Trie, Marc. 11. v. 14. Veit mier Vanmættugum og alls þurfande Fulltijnge þiñar Naadar, og Fodurlegrar Adstodar, samt øllum mijnum sam-christnum, Amen.

# XI. Capitule.

Um Samtal Christi vid Mariu hiaa Grøfeñe.

Og JEsus sagde til heñar, Maria, hun sneresk vid, og sagde Rabbuni, þad kallast Meistare. JEsus sagde til heñar, Snertu mig ecke, þvi eg er eñ eige Uppstijgeñ til mijns Foðurs. Eñ far til Brædra miña og seig þeim, Eg fer Upp til mijns Foðurs og ydvars Foðurs, til mijns Guds og ydar Guds. Þetta er Maria Magdalena, fraa hvørre JEsus hafde wtreked Sio Diøfla, hvørre hañ byrte sig Fyrst, epter þad hañ hafde sneña Morguns Uppriseð aa Fyrsta Deige Vikuñar. Og hun foor, kom og Kuñgiorde Læresveinunum þeim sem med hønum høfdu vered, sem hørmudu og grietu, Eg hefe sied HErrañ, og þetta sagde hañ mier, og er þeir heyrdu ad hañ lifde, og hañ være Siedur af heñe trwdu þeir ei.

SAl mijn hygg þu ad þessu nockud framar, og
sia, ad þa hid fyrsta took allañ Harm af
Mariu, epter þad JEsus hafde kallad hana med
Nafne, og hun snerest vid honum, komst til hañs
soñu Þeckingar, og veitte honum hañs rietta
Ærutitil. Þa nefner JEsus þig med Nafne,
þegar þu tekur til þijn i Huganum, nu þessa,
nu adra Amiñing, nu þessa nu adra Huggunar
Grein, eñ þo slijkt sie til margra sameigeñlega
talad, Jaa, þegar JEsus i einu og ödru Angre
talar so i Eijrwme til þijns hryggva Hiarta:
Þu ert miñ, graat þu ecke; Vert þu gladur i Von
goodrar Endalyktar; Þu ætt mig ad, eg skal
hiaalpa þier, og leida yfer allt þad sem þig hræder
og aungrar. Soddañ fær þu og opt ad reyna i
Verkum og Vidhøndlan þijns HErra vid þig;
Margt gott Meistara Verk hefur hañ aa þier
giort; Margañ Dioful hefur hañ fraa þier rek-
ed, bæde Syndareñar, med Andlegre Umvend-
an, og Fyrergefningu; So og Haaskans og O-
luckuñar, med naakvæmre Verndan; Ps. 107.
v. 2, seq. Þetta opt þeckiañlega, optar Oþeck-
iañlega; Opt hefur hañ huggad þig þegar yms
Vidleitne añara i þvi, hefur þier ecke hrifed;
Opt hiaalpad þier þegar adrer hafa þad ecke
getad, og stundum ecke villad hiaalpa þier, og
þetta bæde aa Saal og Lijkama, fyrr og seirna,
Leynt og Opeñberlega. Þu sier hier Haaprys-
anlegt Meistara Verk aa andlegum Hlutum, og

þar næſt á Lijkamlegum, hvort ſem þu reñer Augunum, Hugſkotſens edur Lijkamans; Reñer þu þeim til eins hardſvijrads Syndara (hvorra Yſerliter nu mæda margra Siooner) þa ſier þu hañs mikla Lannglundar Gied, epter Syndaranum bijdande, og hvor kañ hañs Meiſtaraleg Myſkunar og Daaſemdar Verk upp ad telia. Auk þeſſa hugleidium Saal mijn hvad JEſus talar hier framar til Mariu, ſnertu mig ecke, ſeiger hañ. Hvar fyrer munde hañ ſo tala? Pad vilium vid ſeirna meir framar ſkoda, eñ vit þo ad ein ſterk Trw, heſur ecke aaþreifingar Þorf, Miookeñ er Barna Fæda, eñ Megn Matur fullkomens Mañs .Ebr. 5. v 12. Hier næſt ſender Frelſareñ Mariu til Læreſveinaña, hvoria hañ kallar ſijna Brædur, og bydur heñe ad færa þeim þeſſe ſijn Ord, eg fer upp til mijns Fodurs og ydar Fodurs, til mijns Guds og ydar Guds, þeſſe Ord haſa i ſier ſtoora Huggun og ſæta Endurnæring. Hañ kallar hier þa ſijna Brædur ſem þo hofdu hneixlaſt aa honum, hañ yfergiefed og affvared; Þeſſar brotlegañ Skiepnur ſijnar, kallar hañ ſaa hædſte HErra og eilijfe Gud ſijna Brædur, þar þo opt auglijſeſt, ad eirn Syndugur Jardar Ormur biſteſt vid, og þyker Oſæmd i, ef eirn Veſælingur nefner añañ ſier Ædre, Gal. 5. v. 26. ſiñ Brodur eda Syſtur, ſo hætt er varen Mañaña Drambſeme, ad þeim þyker ſier þad Læging ſem Gud ſialfur lætur ſier lynda;

Skam-

Skamast meiga Men sijn optsines, ef þess være giætt; Von er þvi til þess mijn Sál, þo JEsus bioode þier ad læra af sier Lijtelæted, Matth. 11. v. 29. þar hans ástudleg Audmykt skijn so lioost og berlega, og en hefur han sama Giedslag, han kallar þa en og vill þeckia fyrer sijna Brædur, þo Synduger sieu, sem ei mootstanda H. Anda, P. G. 7. v. 51. helldur læta han raada sier og stioorna, giörande sana Yðran og Yferboot, þad mæ sia af Matth. 12. Capitula. So er eg þa min JEsus, og so þin Brooder, Ebr. 2. v. 11. þo næsta syndugur sie, vona eg mig samt ad vera eirn af þeim Börnum sem þin Fader hefur þier giefed, þu hefur samteingt þier mitt Holld og Blod, þvi er eg med þier Erfinge þijns og mijns Guds og Fodurs; Pu ert Guds Eingieten og elliisur Sonur, Heilagur Hreirn og Syndurunum fræ skilen, hin frijdaste og fegurste, blijdaste og æstudlegaste; En eg er ad Arfleidslune þin Brooder, Gal. 4. v. 5. þvi Gud hefur mig i þier, og fyrer þig, Arfleidt til andlegra og himneskra Giæda; Min Brooder ert þu, þu hefur mier alltijd audsynt allt gött Broodernei allre Sæalar og Lijkamans Naudsyn, Jæ ollum Mannraunum, eg æ þig fyrer Broodur medan eg life, lijka i Daudanum, og epter Daudan, Jæ alltijd eirn goodan, Nærgiæten, Milldan og Myskunsaman Broodur, og hefe eg þo, þvi midur, þetta Brædra-Lag Tijdum af mier broted, þo slepper þu alldrei þine Tryggd og

Trwfeste. Gen. 45. v. 5. Af þvi nu ad þu ert O JEsu miñ Brooder, þa er eg fullviss um ad oll mijn Synd og Vesolld sniist i Fognud, þar af veit eg þad viist, ad þu kallar hier þiñ Himneska Fodur og so miñ Fodur og miñ Gud, þvi skulu þad alltijd mijn Urræde, ad flya i sierhvorre Hrygd og æliggiande Naudsyn, i sañre Trw og Trauste, til þessa mijns Guds og Fodurs, þvi hañ veiter mier Vidtoku, eñ þad æangrar mig og hræder, ad eg so þrælega hefe þig stygt og moodgad miñ Himneske Fader med Syndum mijnum, þvi eg er eitt Ohlijded Barn, og Illskañ mijn er so yfred morg og mikel, stundum veit eg þo varla, hvad eg giøre, hegde sier þvi þitt blessad Fodur Hiarta vid mig i hvort Siñ, sem hollast og hentast siineft, eg vil giarnañ beigia mig under allt þad Hriis, og sierhvorn þañ Vond sem þijn Myskun vill æ mig legg ia, og taka mier þad til Packa, fullviss um þad, ad þu ætlar ollu sem næst, margreynda Nærgiætne þijna og Myskun efa eg alldrei, ad eins bid eg þig miñ Gud og Fader, gack ecke i Doom vid mig, og straffa mig ecke i þiñe Reide, helldur tiæ mier, so hier epter sem hijngad til, midt i Neyd allre, þitt Myskunar rijka Fodur-Hiarta, og læt þu ecke O Rotteñ miñ adra lijda fyrer þad, sem eg illur Præll hefe broted. Pessara strafnefndu Lausnarans Orda skulud þier og vel giæta elskuleger Guds Astviner sem erud Einstædingar og Forsvars litler fyrer Moñunum, 5. Mos. B. 10. v. 18.

lijka vel hrakter og Foottrodner, ofañ a adra Eymd og Sorg, þvi Verollden plagar ad brwka ecke sijdst sitt Fals og Flaarꝛde, sitt Stollt og Stijffiñe med ymislegum Rangendum Myskunarleyse og Spieskap vid soddan Guds Vesælinga, heim verdur sagt, beig þiñ Hrigg, vier vilium þar yfer; huggest þar vid, þo Verollden vijse ydur Dyrnar, þa standa ydur þo opnar Myskunar-Dyr Guds a Himnum, sem er ydar Gud og Fader, Jaa astrijkur Elsku-Fadmur JEsu Christi ydar Broodurs ér ydur Opeñ, lijka sem hañ stood hier Opeñ fyrer hañs, þa fyrer Heimenum Munadarlausum Lærefveinum; Efest ecke, vered Hughrauster, JEsus er eins JEsus og hañ var þa. JEsus byrtest hier fyrst Mariu Magdalenu, frꝛhvorre hañ hafde wtreked Sio Diofla; Eñ fæ eg hier sied O JEsu þitt Myskunar-Hiarta, sem best leitar ad tijndum Saudum, og þa fundnu ber med Fagnade heim a Herdum þier, þvi soddañ Sañydrande Syndara elskar þu, og villt ecke fra þier reka, þvi þu ert ecke komeñ ad kalla Riettlaata, helldur synduga, til Ydrunar og Yferbootar, Matth. 9. v. 13. Og þar sem þu þessa til þijn komna endurnærer, þa skrijd eg a medal þessara, hiñ stædste Syndare ad þijnum Footum miñ Frelsare þær fadmande, fullviss um Vidtoku, og kroptuga Saalar Endurnæring, epter þijnum O-rafkañlegum Lofyrdum. Amen.

# XII. Capitule.

Um̃ Kveñaña Utgaungu i añad ſiñ til Grafar, eñar, og um̃ Eingeleñ ſem þær ſaau þar og heyrdu.

OG Kvíñurnar geingu iñ i Grøfena, og ſaau eitt Ungmeñe ſitia til hægre Hlidar ſkrijddañ ſijdu Klæde hvijtu, og þær urdu hræddar.

HVorneñ ad Elſkuñar Eigeñlegleikum ſie vared nær hun er heit, hrein og Stadføſt, þad auglyſer Ord DRottens, hun blijfur og þreyteſt ecke, 1. Cor. 13. v. 4. Og Daudeñ kañ ecke ad ſlijta hana, edur ſlockva heñar Glædur, Cant. 8. v. 6. Þetta ſañadeſt miked Part aa þeſſum goodu Kvinum; þeim leid JEſus ecke wr Miñe, hñ var þeim Ylmſætur og elſkulegur i Lijfenu, elſkulegur var hañ þeim og eirneñ Daaeñ: Þær filgdu honum epter aa medañ hañ umgieckſt, eirneñ þar hañ pijndeſt, do, og var greptradur, þær leitudu hañs Harmþrwngnar epter þad hañ var uppriſeñ, og eckert kuñe þær fraa hañs Elſku ad ſkilia. O Gud giæfe! ad þu chriſteñ Madur elſkader þiñ JEſum, aan hañs Elſku ert þu ecke ad eins, ecke chriſteñ Madur, helldur Bolvaneñe underorpeñ, þvi hvor hañ elſkar ecke DRotteñ JEſum Chriſtum, hañ er Anathema Maran Atha (þad er Bolvadur) ſeiger Sanct. Paall, 1. Cor. 16. v. 22. Ad Elſkañ ſie ſterkare eñ Daudeñ, þad ſie eg aa

ſialfs

sialfs JEsu Elsku, er hañ hafde til mijn, hañ lagde ecke fraa sier þessa Elsku, þo hañ legde af sier Lijsid, þeir megnu Kvalaña Straumar, kuñu ecke ad wtslockva Elld Elskuñar i mijns JEsu Hiarta; þvi ætte eg eins ad elska þig miñ Herra i Krosse sem Kiære, hviad i Krossenum er ad marka eins Elsku til þijn, þad maa kalla matar Ast, ad Elska þig ecke nema i Velgeingneñe, eñ falla fra þiñe Elsku a Freistingar Tijdeñe. Eñ med þvi HErra JEsu, ad nu er su Tijd yfer oss komeñ, a hvorre virdast ma ad Elskañ til þijn sie nærsta miøg kolnud, þa virdstu vegna þiñar heitu Elsku, og Heidurs Nafns þijns, ad stirkia oss þijn veiku Born i þiñe hreinne og O-meingadre Elsku stødug ad standa, so vier ecke i heñe kolnum med þessare kolnande Verolldu, helldur upptendrast mættum i heñe, fyrer þañ himneska Astar Elldeñ H. Anda, þu sem elskar þijna Elskendur ætijd og æfenlega, Joh. 13. v. 1. Sa blessade Eingell DRottens sem hier byrtest nu Kviñunum, synde sig i eirne Ynges-Mañs Mind, hier maa eñ fiña eirn fagrañ Lærdoom, hvorium þu skallt ecke helldur gleyma mijn Saal. Peir himnesku Guds Einglar elldast alldrei, helldur er þeirra Æsku-Bloom ætijd sijfelldlegt, og geingur alldrei til Þurdar, hvad Lausnareñ giefur ad merkia, so talande um Borneñ, þeirra Einglar a Himnum, siaa jafnañ mijns Fødurs Auglit sem er a Himnum, Matth. 18. v. 10. Madureñ, so i þessum Fullkomlegleika sem odrum i fyrstuñe af

Gude skapadur, hlytur nu sijdañ Syndafalled til Hrornunar ad ganga, og i Alldurdoomsens Veyke opt ad mædast, samt Pijngun ymislegre, hvar fyrer David seiger: Vort Lijf varer um̃ siøtyger Ar, og nær þad kiemur Hæstt, þa eru þad attatyge Ar, og nær þad er sem kostulegast, þa er þad eintoom Mæda og Erfide, Psalm. 90. v. 10. Þetta stadfester og Forfaderen̄ Jacob, sa er seiger hañ, og iller eru myner Lijfdagar edur Vegferdar Dagar, Gen. 47. v. 9. Þetta, med fleyre añare Vesolld eru Syndareñar Verdlaun; Samt hofum vier i slijku þa Huggun, ad vier eigum fyrer Hende Einglum DRottens samlyker ad verda i Dyrdeñe, og hver sa, sem þetta sitt mædusama Lijf endar i hreinre Trw a JEsum Christum; hañ fær fulla Lækning, og Afvending allra Eymda, þar sem er sijfelld Æska, Heilbrigde, og eilijfur Fognudur, þa eru allar Guds Barna Eymder wte og forgleymdar, þreyged þvi holeñmooder þier Guds Viner sem morg Hrigdar Ar hafed hier af staded, og vited ad þvi styttra er epter af Leideñe i ydar Fodur-Land, þar þier verded unger sem oñur Orn, Psalm. 103. v. 5. Þesse DRottens Eingell byrtest Konunum sitiande i Grofeñe; Þar med yferlyste hañ Sigre og farsælre Endalykt a allre Pijnu og Strijde vors DRottens, þvi nu var uñeñ Sigur a Synd, Dauda, Diofle og Helviite, Eñ Lausnarans Hvijld og eilijf Majestatis Stioornan uppbyriadest. So leinge sem vier

lifum

likum hier a Jorduñe, þa erum vier i ſiifelldu Striide, hier er ei ad eins vid Holld og Blood ad beriaſt, helldur og vid argviijtugañ Heim og illañ Dioful, ſterka, ſlæga og ſiivakande Ovine, Eph. 6. v. 12. J moote hvorium Gud ſetur ſuma af ſiinum Veſælingum þo i ǫndverdañ Bardaga edur Fylking. O Herra hardt og ǫrdugt er þetta Striid, eñ hvorium þu hiaalpar hañ er holpeñ, epter þetta Striid, kemur Hviild og Sigur aa Himnum hiaa Gude, þar dryckiar hañ ſiina med Himneſkre Vellyſtingu aan alls Enda. Eingelleñ ſat ecke hier aa Vinſtre, helldur Hægre Hlid, aaviiſande Haatign hins bleſſada Sigurvegara JEſu Chriſti, og ad Gud hefde honum epter hañs Mañdoome, Seſs og Sæte utvaled til ſiñar Hægre Handar, ſem David umtalar ſeigiande: DRotteñ ſagde minjum DRottne, ſet þig til miñar hægre Handar þar til eg legg Ovine þijna Skør Foota þiña, Pſalm. 110. Hvor Ord Chriſtur ſiaalfur itrekar i Gudſpiallſens Ordum, Matth. 22. v. 44. Eingelleñ bodar oſs og med þeſſum Seſſe, hviliſkra Koſta Guds Viner hafe ſier ad vænta hier aa Jorduñe, ſem eru, ad eiliifur Gud med ſiñe Magt og Myſkun ar riikre Vernd ſtande þeim til hægre Handar i ollum Mañraunum og Haakaſemdum, ſo ſiñ og ſiaalfur Gud hefur lofad med Ordum, og endt vid ſiina i Verkum, hvar fyrer þeir meiga med David fagnande ſyngia aa þeñañ Haatt, þu rakſt mijna Ovine a Hæl aptur, þeir eru fallner og fyrerfooruſt

fyrer þier. O DRotteñ, þu sem best veitst i hvi-
lijkum Hæska þijn Børn eru stodd i þessum hætta
Heime bæde a Andlegañ og Lijkamlegañ Hætt,
Psalm. 9. v. 4. Slepp þu alldrei af oss þiñe Myrk-
unar-rijkre Verndar Hønd, fadme hun oss og gei-
me i allre Hættu, so ad vier alltijd glader i þijnu
Hiaalpræde syngia meigum med Brwdureñe og
segia, hañs Vinstre Hond liggur under mijnu
Høfde, og hañs Hægre Hond umfadmar mig,
Cant. 2. v. 6. Amen.

# XIII. Capitule.

Um Eingelsens Predikun fyrer Kviñunum.

EN Eingelleñ svarade og sagde til
þeirra, Hrædest ei, þvi eg veit ad þi-
er leited ad JEsu af Nazareth sem
Krossfestur var, Eige er hañ hier, þvi ad
hañ er uppriseñ, so sem hañ sagde: Komed
siaaed þañ Stad hvar hañ var lagdur,
gaanged helldur skyndelega burt, og seiged
þad hañs Læresveinum og Petre, ad hañ
sie uppriseñ af Dauda, og siaa, ad hañ muñ
gaanga fyrer ydur i Galilæam.

J Næst Fyrerfarande Gudspialls Texta var oss
undervijsad, ad þesse DRotteñs Eingell sem
hier auglijstest Kviñunum, hafe klæddur vered hvij-
tu Klæde. Ad soñu kañ ecke þu Christeñ Madur,
nooglega hier a Jordu ad ræfkijrast Vegsemd H.

Guds Eingla, eñ þad skynium vier, ad þesser Himneßku Andar hafa ecke Klædnadarens Þorf fyrer sialfsa sig, edur slijks Mañlegs Umbwnadar og Naudþurftar; þo hafa þeir opt slijkt brwkad fyrer Maña Sioon nær þeir hafa þeim Opeñberast, og þad Einunges sialfra Mañaña Veikleika vegna, og til ad kyña þeim þar med Eitthvad Gott alltijd, so sem hier. Eingelleñ kieñer med sijnum Klædnade, ad vier alltijd brwka skulum Sidsamlega Hegdan, i ollum vorum Athofnum; sem Riettelega vilium Christner heita, lijka vel þo vier sieum einslega stadder, þvi alltijd erum vier i Guds og Eingl aña Augsyn, lijka vel þo Meñerner siaæ ofs ecke, um hvoria og miklu miña vardar, Ei ad sijdur bligdast opt marger meir fyrer þessum; helldur eñ Gude; O þa stooru Skamsyne! Eñ sierdeiles skalltu geyma gooda Sidseme, og fylgia heñe i þijns Guds Hwse og Mustere, Pred. 4. v. 17. Hvar þu ætt einkum ad þioona Gude, kom þu ei þangad nakeñ; A Saaluñe edur þeim Iñra Mañenum, skalltu bera fyrer saña Trw, Skrwda Riettlætesins, og allshattadrar Gudrækne, um þetta vardar mest. Þu skallt og, af Dæme Guds Barna, bera þar og a Lijkamanum Sidsamleg Naudþurftar-Klæde, epter þijnu Stande; eñ giora þig þar ecke til, med nockre Hof-Frækt edur Nybreytne, so sem Daarum Alldar þessarar er tijtt, soddañ Heilræde skyllder þu geyma. Þad Fyrsta Ord Eingelsens hier til Kveñaña, er HUGAR-Hress-

ing. Hrædest ecke seiger hañ, þvi eg veit ad þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth, eige er hañ hier, hañ er uppriseñ so sem hañ sagde. Mañsens Stirkur er æred lijtell i sialfum sier, æ hañ er ecke stoort ad treysta, hañ vegur næsta lijted, Jafnvel þo margur miked læte: Otte og Skielfing er eirn Arfur med fleiru slijku til vor fraa Adam komeñ, hvor opt æ stuttum Tijma hefur Mikel Meñeñ fellt lijka vel, og yferbugad þæ, sem St. Peturs Dæme, og fleire añara, vitvijsar; Pvi giefur Guds Ande þetta Heilræde fyrer Muñ St. Paals, ollum þeim sem epter vilia taka, hvor hañ þykest standa, siæe sæ til ad hañ falle ecke. 1. Cor. 10. v. 12. Eñ þar sem þvi hefur nu þañeñ stundum vared vered fyrer Mikel-Moñunum, hvors skal þa Lijtelmagneñ vænta sier? Marger hafa Ottasleigner vorded vid Eingláña Opeñberan, Jud. 13. v. 21. Sem Dæme fiñast noog til i Skripteñe. Eñ mijn Saal, hvad sem þijnu Jstoduleyse lijdur, hvoriu þu bid Gud vægia og hægia epter Þorseñe, sem ollu kañ til Besta ad snwa, þa þarft þu þo alldrei ad hrædast nær þu ert i sañre Epterleit þijns HErra, þvi þa eru þeir fleyre sem med þier eru eñ æ moote, ef þu leitar af Hiarta, mun hañ i þvi Verke þiñ iñfallande Veikleika og Ostirk Myskunsamlega umbera og forlæta, giæt þu þess ad þiñ Edla Brwdgume JEsus hefur barest og yferuñed allañ Her þiña Ovina, so eingeñ þeirra fær nockurt Valld æ þier, og ecke Eitt Haar, skadd

skaddad at þijnu Hofde aan hans Vilia. Diofulleñ er ad sońu skiædur, eñ hañ kañ ad sońu ad oskra, eñ ecke ad uppsvelgia, þar er eingeñ Fordæming at þeim sem eru i JEsu Christo. Rom. 8. v. 1. Logmaalsens Bølvan er bitur, eñ Christur er Uppfylling Logmaalsens og vor Fridur, þess Bølvan er i Blessan snwed, og hvør at hañ trwer er Riettlaatur. Eph. 2. v. 15. Rom. 10. v. 4. Daudeñ er hardur, eñ nu er hañ fyrer JEsum Christum sætur orden, hañs Broddur Syndeñ er broteñ, Jaa, hañ er i Sigur uppsvelgdur, 1. Cor. 15. v. 54. So Eitt Guds Barn kañ i Trwñe og sællre Von goodra Umskipta ad seigia til hañs, Kom þu Sæll þegar þu villt.

Heimureñ er Falskur og Flaar, eñ laat þu hañ krasta miked og seigia: Vier villium hañ med Hadung heimsækia. JEsus svarar og seiger til þijn og mijn þu Guds Barn, vered Hughrauster, eg yfervañ Heimeñ; Og til Heimsens seiger hañ: Hier skulu þijnar stolltu Bilgiur lægia sig. Allt þetta att þu nu i Trwñe ad þeckia og þacka þijnum Blessada JEsu mijn Saal, og vera Ohrædd, nema þu skallt Ottast þiñ Gud med Sonarlegum Otta, sem er med HiartañlegreElsku blandadur, þvi Otte aan Elsku er añars Præls-Otte, og varastu ad styggia þiñ Gud. Pañig er nu ein soñ Gudhrædsla at hreinum Trwar-Grundvelle, og þiena þier þa aller Hluter til hins Besta, Rom. 8. v. 28. Er þad nu so, þvi villtu þa kvijda. Nu þeñ-

þeñañ Uppriſu-Fögnud vors HErra, ſkipar Eingelleñ Kviñunum ad boda Lærẽveinunum og Pètre, hvörn hañ hier ſierdeiles med Nafne til-tekur; Alltijd rætaſt ad Vonum miñ JEſus þijn Bleſsud Ord, þu ſeiger; Heiler þurfa ecke Læknarans, helldur þeir ſem kranker eru, Matth. 9. v. 12. Petur hafde þig affvared, þad var eirn hrædelegur Glæpur, ſamt var nu hañs Synd gleymd og fyrer giefeñ. So ert þu DRotteñ miñ Nadugur og Myſkunſamur, þu hefur meſta Myſkun veitt þeim Stoor-Synduguſtu, meſta ſeige eg, þvi heñar Mi-keleike þeckeſt þvi betur ſem ſa er argare og Overdugre er vid tekur. Eg vil giöra Eydemorkena ad Stødu-Votnum, og þad Purra Landed ad Uppſprettu-Brüñum ſeiger DRotteñ hia Spamañenum, Eſ. 41. v. 18. Þetta nær vel til Stoor-Syndaraña, þadañ veiter DRotteñ opt beiſkuſtu Jdrunar-Tarum fyrer ſiñ Anda upp ad ſijnu Hiarta, eñ fra ſier aptur Himneſkum Svolunar Straume ſiñar Myſkunar, þa fagna bader, Gud og Syndareñ, eins ſem goodur Fader fagnar betrande Barne, og verdur ſo Elſkañ opt epter a hin heitaſta, DRotteñs Rad ſañar i þeſſu ſiñ Eid-Staf, So ſañarlega ſem eg liſe vil eg ecke Syndarans Dauda, helldur ad hañ liſe og Leidrietteſt. Ezech. 33. v. 11. Soddañ Guds Myſkunar Sære breiddeſt yfer og hullde Peturs Meinſære; O DRotteñ, þu ſedur beſt þa Hungrudu, þar a bygge eg þa Alyktun, ad eg meina aungvañ nær
ſtanda

standa til Arfs Myskunar þiñar, eñ eina Synduga Sañydrande Saalu, þvi mier virdest miñ Ilmsæte JEsu, ad þu breider þig yfer slijka, meir eñ Hiarta good Mooder yfer sitt siwkt og sundurkramed Barn, hun vill ad soñu biarga, eñ gietur þad ecke alltijd, Eñ þu O JEsu bæde villt og gietur, þvi er þad Ord øllum Hlutum dyrmætara, ad þu ert komeñ i þeñañ Heim Synduga Saaluhoolpna ad giöra. 1. Tim. 1. v. 15. Hvad skal þier nu þrijsta mijn Saal til ad elska Elskunä JEsum, ef þad er ecke þetta?

Gud lagde sialfur eirn Skiñ-Kyrtel a Adam Fordum, þa hañ stood nakeñ hræddur og skialfande fyrer hañs Augsyn, falleñ i Synd og Dauda, Gen. 3. v. 21. Eñ Myskunar-Hondeñ þijn miñ JEsus, hefur marg Þusund Siñum breitt sig yfer mig Nakeñ og skamraudañ vegna Syndaña, og meddeillt mier Mottle þijns Riettlætis, Es. 61. v. 10. Og þañig huled mijna Blygdan, hvors eg vil med heitre Elsku og Þacklæte miñast allar Stunder.

Æ miñ DRotteñ, halltu fram vid mig þiñe Naad, Eg bid þig af diwpustu Audmiikt mijns Hiarta, yfergief þu mig alldrei, helldur nær sem eg Aumur fell og hrasa þa væg þu mier, og þa mijn Yfersioon er mest, Syn mier þa epter Þørfeñe mesta Myskun, so ad eg, hvorn þu hefur so Hiartanlega ad þier teked, Endurnært, og uppaa kostad, verde alldrei Dioflenum ad Braad nie Herfange, Amen, Seig O JEsu, Þijn Bæn er heyrd,

AMEN.

# XIV. Capitule.

Um̃ Heimfør Kvenana fra Grøfene og Christi Opẽnberan.

EN þær geingu wt skyndelega, og flijdu fra Grøfene med Otta og Fagnade miklum, og hlupu, so ad þær kuñgiørdu þad hañs Læresveinum hvrad komeñ var yfer þær Otte og Forundran, og þær sogdu aungvum neitt, hviad þær voru hræddar. Og þa þær geingu ad kuñgiora þad hañs Læresveinum, siaa, þaa mætte þeim JEsus, og seiger: Heilar sieud þier, og þær geingu til hañs, hielldu um̃ hañs Fætur og tilbaadu hañ. Þaa sagde JEsus til þeirra, ege skulu þier ottast, fared og kuñgiored mijnum Brædrum ad þeir gaange i Galilæam, og þar skulu þeir mig siaa.

ÞAd mikla Laan og margfolldu Gaafur DRottins, so sem og hañs Huggun og Hugsvolun, eru oss ecke þar til meddeildar, ad vier holldum þeim einunges fyrer sialfa oss, helldur so sem Magen medtekur ad sonu Fæduna, þo ecke Einunges fyrer sialfañ sig, helldur og hinum ødrum Lijkamans Limum til Styrks og Hressingar; So eigum vi er og ad meddeila ødrum þurfande af Drottens

eins Eigu, oss i Heydur selldre sem Raadsmoñum, ef vier skulum ei samlijker vera þeim illa Pioon, er sitt Pund groof i Jordune, og sijdañ med honum sa Verdlauneñ.; Pad gooda Verked i soddañ Efnum skulum vier og ecke of leinge undañdraga, helldur hrada oss aa þessum sem odrum Dygda-Veige medañ Tijmeñ er. Petta hvorttveggia kieña oss þessar goodu Kviñur i Upphafe þessa H. Texta, og Ord D. Rotteñs bijfalar oss slijkt Margsines. Stood Kviñunum eirneñ Gott af Hlijdneñe i þessu, hvor betre er eñ Offur, þvi aa Leideñe mættu þær JEsu med Bodan sijns Fridar og Fagnadar, þa maatte þad uñ þær med riettu seigiast, ad þær hefdu Hnossed hondlad, og þa Edla-Perlu funded, hiaa hvorre aller Hluter eru rijrer, og allt fyrer hana giefande, hvoria þær og ad Vönum fagnande fodmudu, og hielldu uñ JEsu Blessadar Fætur. O þa ylmande Glede! O þad sætasta Sælgiæte! O þad Epterlongunarsamasta Hnoss! Hier er nu ad Hugleida þad sem aadur er undañgeinged uñ Mariam Magdalenam, hvorre JEsus bañade ad snerta sig, eñ þessum Kviñum lofade hañs Millde þad, hvad skal uñ þetta hallda? Pad heyrum vier fyrre uñ Mariam, ad hun var bweñ ad medkieña og þeckia JEsum ad vera siñ Edla-Meistara, aadur eñ hañ bañade heñe hitt, þess er og ecke gieted, ad hun aangrast hafe þar af, þo hun þad ecke feinge, þvi hun var full-sodd vorden af sañre Trwareñar Glede, og Peckingu aa JE-

su lifanda uppriſnum; Eñ þessum Efablondnu og hræddu Kvinum lofade hañ þetta; So mætt þu Guds Barn lyſa epter hañs Myſkunar-Hiarta, alldrei ſyniar hañ ſijnum Nauðþyrſtum Skiepnum þeirrar Andlegu Saalar Naudþurftar, myklu helldur bijdur hañ hana fram, hañ leitar ſiaalfur epter þeim Vanmaattugu Saudum, og leggur Plaaſtureñ yfer þeirra Saar, epter þvi Naakvæmañ og Grædſlurijkañ ſem Saared er vidkvæmara og þarf fliootare Adgiørda, og medtekur ſo hvorn þegar hañ kiemur aa hañs Fund, Joh. 6. v. 37. Og rekur aungvañ fraa ſier, þvi hañ ender alltijd ſitt Naadar-Loford, ad ſundurbrioota ecke braakadañ Reir, og wtſlockva ecke lijttlogande Lijn-Kveik, Eſ. 42. v. 3. Alldrei bregdſt þad, JEſus ber meſta Umhyggiu fyrer veikre Trw, ad hun meige næraſt ſem eitt Lioos, hañ ſem Hwngradur er epter vorre Velferd og Saaluhiaalp, ſkyllde hañ ecke næra og hiaalpa vid þvi Medale aan hvors vier kuñum ecke ad komaſt i Himna-Rijke, Eñ vorre Skyll du ſkulum vier ei gleyma i þvi ad leita hañs i þeſſare Veike, og hinum mikla Trwar-Vanmætte, þvi O Rotteñ er Verndan hins Faatæka og Verndan i Neydeñe, þar fyrer þu ſem ſlijkt þecker af Orde Guds og fyrer Upplyſing H. Anda, treyſtu O Rotne, þvi hañ yfergiefur alldrei þaa ſem hañs leita, ſeiger David, Pſ. 9. 11. Vier veiteſt ad ſoñu O Madur, ecke Lijkamlega ſem þeſſum Kvinum ad ſiaa hier JEſum, mur hallda og þreifa um hañs

Bleſſ-

Blessadar Fætur, þvi þu geingur nu i Trwñe eñ ecke i Skodaneñe, þu horfer á hier sodd Fadmlög med Hugskotsens Augum og Andlegre Jhugan, so sem fyrer Speigeleñi Raadgaatu, 1. Cor. 13. v. 12. Laat þier Saal mijn lynda þad, og þacka þu þijnum JEsu, sem so opt lofar þier Syndugre ad þreifa á sier og hallda um̃ sijnar Fætur med þijnum Andlegu Trwar-Hondum, hvoriar hañ Ostirkvar og skialfande stidur, og helldur so siñe Hende, á þessare þiñe Hende, so hun skule ecke af honum slitna edur olldungis Maattlaus verda, þaangad til þu fær ad sia hañ um̃ sijder so sem hañ er Auglite til Auglites. Þvi skallt þu nu eins sem Jacob, neyta þeirar Orku sem Gud giefur, og hallda þijnum HErra, Gen. 32. v. 26. Vitande ad þar af stendur þier allshaattud Blessan. Fyrre er gylldt eñ valed er, og so helld eg þad vera i Trwareñar Efnum, ecke einasta þeir Trwar-Sterkustu Stoolpar, helldur og þeir Trwarveiku Guds Besælingar munu bæde marger komner, og komast iñ i Himna-Rijke og Eilijft Lijf, þvi mijn veik Trw, sem þo er ecke epter miñe, helldur Lijfgiafarans JEsu Mælingu; gjorer ecke hñs miklu Trwfeste Ouyta edur ad öng vu, vere eg so veikt Barn sem vera vill i Trwñe, medañ JEsus giefur Hiartañlegt Hrvngur epter sterkare Trw á sialfum honum, þa reiknar hañ mig Mañ, og hvad vardar mig þa um̃ añara Dooma, medañ þesse fordæmer og wtskwfar mier ecke, hvad alldrei skiedur, þar hef eg hañs Bref og Jñ-

sigle uppaa. Eñ framar hier um̃ ad tala, sijnest mier mijn Saal, sem þu faaer ad þreifa aa og Um̃fadma þijns HErra Fætur i þvi haaverduga Kvolldmaaltijdarenar Sacramento, hvar hañ riettet ad þier olldunges sialfañ sig, Jaa allañ siñ blessada Lijkama, sitt heilaga Holld og Blood, mun þaa þesse DRottens Myskun ecke meiga kiæta þig, og þerra þijn Sorgar Taar? Sañlega þar sem þu medtekur þetta Sañydrande i Trwñe, er þier þad so gott, og ongvu sijdur eñ þo þu hefder i Ferd vered med þessum Konum, þvi hvor þessa Lijffsens Fædu medtekur, sem strax var Mællt, hañ lifer eilijflega. Joh. 6. v. 35. Eg meina og mijn Saal ad riettelega kallast meige þijns HErra Fætur, hañs trwlynder Pivonar hier aa Jordu, þvi þeir eru Sendebodar i Christi Stad, sem Paulus vitnar; Og Esajas seiger, hvorsu elskuleger eru aa Fiollunum Fætur þeirra sem Frideñ boda og Hiaalpræded predika, Es. 52. v. 7. Fadma þvi Saal mijn þessar Fætur þijns JEsu Tilbærelega epter hañs Bode, og haf þaa i skylldugum Heidre, Syr. 7. v. 31. Eñ varastu ad setia þig Ydrunarlausa ad þessum Footum, þvi þad aflar þier Guds Reide og Hegningar, sem ei lætur ad sier hæda. Matth. 22. v. 6.

Miñ Elskulegaste JEsu, Eg vil þig medañ mitt Lijf endest, heidra og heitum Elskuñar Fadme um̃vefia, og mier hallda um̃ þijnar Fætur, þær kyssa, og skylldugléga jafnañ virda, Þar til hiaalpe þiñ Styrkleike mijnum Veikleika, og grelde mijnar

Fætur

Fætur fram̃ a Veg Fridarens, so eg Frid-Land Eilijfs Lijfs epter þetta Lijf odlast mætte,
A M E N.

# XV. Capitule.

Um̃ Vitnisburd Vardhallds Mañaña af Upprisuñe Christi.

ENN medañ þær geingu i burt, þa komu nockrer af Vardhallds-Moñunum̃ i Borgena og kuñgierdu Hofud-Prestunum allt hvad-vid hafde bored. Og þeir sofnudust samañ med Olldungunum halldande Raadstefnu, og gaafu Strijds-Moñunum ærna Peninga og sogdu, seiged hañs Læresveinar komu um̃ Noott, og staalu honum a medañ vær svaafum. Og ef þad kañ ad heyrast fyrer Lands-Doomaranum, skulum vær yfertala hañ, og giora ydur ohulta. Og þeir tooku Peningana, og giordu so sem̃ þeim var kient, og þesse Ordroomur er vijdfrægur vordeñ hia Gydingum allt til þessa Dags.

HVorsu aumkunarlega ad Satan forblynde syndugar Mañeskiur, a hvorium hañ hefur Faang feinged, og leide ur eirne Villu i adra, ur Grofeñe i Snoruna, þar til eru morg Dæme

bæde ritud og ſicaanleg, a þeſſare ſijduſtu Hœka Tijd, a hvorre Gud vardveite ſyn Born Nad-arſamlega. Meñ meiga þad ſorgande vita, ad nær Diofulleñ hefur ſvælt eirn Syndara, til eins Jllvirkes, kiemur þar ſtundum epter añad og hid þridia, og byggia ſier ſo ad bæta eina Skoñ med añare nyrre, og verdur ſo epter Lauſnarans Ord-um, hiaa þeſſum hid ſijdara verra hinu fyrra, Luc. 11. v. 26. Pad var ſtoort Jllvirke og hræ-delegur Glæpur, ad þvi Leite ſem Gydingum vid-kom, ad þeir Guds Sonar eiged Foolk, ſkylldu hneppa hañ wt af Vijngardenum og afliiſa hañ, hitt var þo aungvu betra ſem a epter kom, ad þar ſem þeim var yferbevijſud JEſu Uppriſu Dijrd af þeſſum Vokturum, og kuñu þar ecke i moote ad mæla, ad þeir med ærnum Peningum kaupa ſkylldu af þeim ſomu næſta Oaheyrelega Lyge, og ollum audſiena Uppdiktan, þvi nær Mañ ſefur, kañ hañ ecke ad vita hvor ſtelur þo ſtoled ſie, þvi hefur og þeſſe Ord-Roomur ecke ad Orſakalauſu vijdfræg-ur vorded; Pad er og lyklegt ad þeſſer Pening-ar, hafe þeim ecke friaalſer vered, helldur eñ Silf-ur þad ſem Judas vidtook, og aptur til þeirra ſn-arade, þad var og ecke meira ad ſteia þeſſum hvo-rutveggiu Peningum wr Guds Kiſtuñe, helldur eñ Æruñe fraa Gude, hvoria þo er ohægra ad fela, helldur eñ þad Pioofſtolna, ſo ſem þad og gi-eck þeſſum vondu Lygañ Kaupmoñum. Lær þu hier af ſem elſkar Lygina, og hana giorer hier ſtund-

um ad Athvarfe, fyrst hvadañ hun kiemur, þier svarast, hun kiemur af Dioflenum, þvi þu munt hafa heyrt þess gieted, ad hañ sie Fader Lygeñar, Joh. 8. v. 44. Þetta er nu Grundvolluren þessarar þiñar Yþrottar. J Añañ Stad þeinktu med þier, ad hvilijkum Mañe ad Lygeñ gierer þig, hvad miog hun upphefie þig, hun gierer þig, hvort helldur þu brwkar hana þier til Gamans, til fegrunar þiña illu Maalesna, eda odrum til Skada og nidrunar, þa gierer hun þig feige eg, þo þu meiner ad koma þier stundum fram med heñe, ad Læresvein Diofulsens og hañs Barne, og fellur þa ecke Epled langt fra Eikeñe. Nu maatt og strax i Pridia Maata sia hvort þitt Kaup mune verda fyrer þetta Stark, sem er Deyding Saalar þiñar. Sap. 1. v. 11. Lijt þu nu epter þessu ollu saman, so muntu sia hvad fagurt þetta þitt Leikfang sie, med hveriu þu byggur þier þo kañske stundum ad bæta Hag þiñ, edur skiemta þier og odrum. Vara þig O þu Madur vid soddañ Heliar Odygd, sem so margañ hefur i Olucku leidt, af þeim sem hana hafa sier tamed. Laattu ecke helldur kaupa þig til þessa med neinum Fiegiofum, nema þu vilier kaupa Helviite til Handa þier, þvi þo Mwtañ glanse i þijnum Augum, þa skyllde þier þo fegre þykia Saal þijn og Æra, trw mier, so sem þad Upphafed er sialldañ lykt Endinguñe, so mun þier og synast Fegurdeñ burt af so osludum Peningum, þegar, þig maa skie aalijka og Judam, velger vid þeim

epter æ ſeirna, og þu hlytur þeim ad wtſpya, og Gud wtſteiter þa af þijnum Kvide, þvi hvad Madureñ nidur ſæer mun hañ uppſkiera; jafnvel þo ei ſie giørt Rad fyrer þvi i Upphafe þeſſarar og þvilijkrar Kauphondlunar. Lát þu ecke ſeige eg eñ, Gaſur, 5. Moſ. 16. v. 19. Flátt Tal, Vinættu, Upphefd, Magt nie Hootaner, edur nockurn Hlut añañ giora Twngu þijna Mættlauſa edur Mællauſa i Sañleikans Opeñberan, nær ſem Porf og Skyllda krefur hañ i Liooſe læta, 5. Moſ. 17. Pvi þad er hier eingeñ Boot, þo þad hende marga, ſo ſem þad hæger einkis Kvolum i Helvijte þo marger pijneſt þar, eda muntu nockud vilia ſeigia ad þad ſie ecke verra fyrer þig eñ adra? Bwſtu vid þvi, ad ef þu tijdkar ad ſiſka i þeſſu Lygiñar Nete, Matth. 22. v. 26. Sem rided er af Andſkotanum, og hætter ecke, þa giefur þad uñ ſijder Bolvan og Olucku i Aviñingeñ, og viña þo ſumer ſo miked til þeſs Aviñings, ad þeir lijka ſem þeſſer Vard-Meñ liwga uppa ſiælfa ſig ymſum Skomum og Odygdum, þvi ſijdur ad þeir vid adra hlijfeſt, og ſiña engre Samvitſku, eñ Satán lofar þeim a medañ ad giora þa tryggva edur orugga, lijka ſem Hofud-Preſtarner Vard-Moñunum. O þu eilijfe Gud ſem ert ſiælfur Sañleikureñ, vyrdſtu med þijnum Sañleiks Anda, Joh. 15. v. 26. Ad geima oll þijn Born fra Villu og Svikum Dioſulſens, og æ medal þeirra oll Chriſteñ Yſervolld, ad þau hvorke þigge Mwt-

ur, nie ødrum giefe til ad spilla þar med i nock-
urn Maata Riettenum og Sanleikanum, helldur
ræke hvørttveggia i alla Stade epter þijnu Bode,
hvørt helldur giøra er um̃ Rijkan̄ edur Faatækan̄,
so alltijd meige ſaa saklauſe behallda Sakleysesins
Alyktan, og Doomendurner meige alltijd med Sá-
muel taka til goodrar Samvitsku hvad sem hvør vill
tala, 1. Sam. 22. v. 3. Aller vier meigum
riettelega reiknast Andleger Voku-Meñ og Vakt-
arar yfer Grøf vors DRottens, eñ þesse hañs
Grøf er vort Hiarta: 1. Cor. 3. v. 16. Lyn-
dwkarner i hvørium vier eigum hañ ad geyma, er
hrein og omeingud Trw, þvi Christur byr fyrer
hana i vorum Hiørtum; Eingeñ stelur hønum
wr þessu Herberge, þo hañ missest, nema vor
Svefn, vorar eigiñ Synder og Odygder, þeim
meigum vier þar um̃ kieña, og siaalfa oss þar fyr-
er skullda. Vilier þu nu hiaa þier hallda mijn Hiart-
kiæra Saal, þijnum Elsku Uñusta JEsu, þaa
maattu ecke sofa med þeim morgu aa þessa Heims
Kvollde; Andlegum Dosiñleika verdur þu fyrer
Hiaalp DRottens fra þier ad kasta, ef þu villt
ecke missa þiñ Herra, þad syniſt nu sem hañ ofri
þvi ad vijkia i burtu, af þvi ad Meñ festa nu
Svefniñ og hafa fest um̃ Stunder, hvad sem nu
hier af vill verda veit Gud, O mijn Saal, J
Guds Nafne vak þu og tak Vara aa þijnum
Herra, þvi hier er um̃ aungva Smaa-Mune ad
tefla, so mun þier virdast aa þvi sijdasta alls-

heriar Pijnge. Vak þu i Daglegum Tarum, saure Ydran og heltre Hiartans Bæn, bid Gud ad veita þier Hiaſtod og Fulltijnge, þvij ean hans formaattu ecken gott ad giora, og þar sem synast maa ad Lijk-Bonden sieu allareidu logd a þenan Heim, hefur þu Orsok stynjande (med Dwfune) so ad andvarpa sem Simeon, nu laat þu Drottenn þinn Pioon i Fride fara, Luc. 2. v. 29. Og vilie JEsus enn teigia Tijman, so ad þu siaer Fiorbrot Veralldarennar, i hvorium ad allt um kollkeyrer, so halld þu þier þo vid þinn JEsum þad maa gylda hvad gyllda vill, Lijf edur Dauda, hann vill þa allre Beiskiu i blessadann Sætleik snwa, burthrinda ollu Diofulsins Vardhallde, og afvenda allre Olucku.

Minn goode JEsu, eg veit ad sonu ad eg a ad vera eitt Vaktare þinnar Grafar, og eitt af þeim minstu Vokumonnum þijns Vijngards, aumur og Overdugur, i hvorutveggia er eg næsta svefnugur, dosinn og sofande, so mier hæfer Bligdan mijns Andlites, enn væg þu mier Goode Gud, og haf Medaumkan med mijnum Veikleika, epter þinne stooru Myskunseme hvor ed hylie og mier fyrergiefe mijn Afbrot, og vake so þitt Verndar-Auga, sem hvorke sefur nie sifiar yfer mier og ollum þijnum Bornum, Psalm. 121. v. 4. Amen.



# XVI. Capitule.

Um̃ Utgøngu Lærefveinañа til Emaus.

EN epter þad, þa er Tveir af þeim ferduduſt, Opeñberade JEſus ſig þeim i Añarlegre Lijkingu, þa er þeir geingu um̃ Þorpa-Grundernar. Þvi ad ſiaa þu, ad Tveir af þeim geingu þañ ſama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fraa Jeruſalem Sextijge Skeidarwm ad Nafne Emaus, Og þeir toludu ſijn aa mille, um̃ alla þa Hlute ſem vid høfdu bored.

SIE þad þijn Hiartans Girnd og Epterlangan mijn Saal ad naa Funde þijns aaſtrijka Brwdguma JEſu Chriſti, þa verdur þu ad ſegia lauſt vid þeñañ Heim, og ſkilia þig fraa Selſkap Ogudlegra Mañа og giora þad af fullre Alvoru, ecke med Orde einaſta, helldur med Verke og Sañleika, þvi alltijd hefur þu Illt af Verølldeñe, hun er fordiørfud i Gyrndum Villudoomſens, þvi Satan er heñar Høfdinge, epter hvørs Pijpu hun danſar, þegar hun bijdur þier Fadmeñ, og lætur ſem bliſdaſt, þa hefur hun Dalilæ Hiarta fullt Svika og ymislegra Flærda, þa vard Samſon hid Fyrſta faangeñ, er hañ laa i Faange þeirrar Svikſomu Hooru, hvøria hañ elſkade; Jud. 16. v. 19. So ſem nu þeſſe Hoora var, ſo maattu lijſa epter Verølldeñe,

olldeñe, þu ſkylldet þvi taka ſterkañ Vara a þier, og varaſt Sviken. Þo þu nu verder ad umgangs aſt i Heime þeſſum, 1. Cor. 5. v. 10. Medañ þu fær ecke ad kvittaſt vid Lijkama þeſſa Dauda, Rom. 7. v. 24. Hvor Dvøl þo ſkart mæder márgra Gudhræddra Maña Hugſkot, ſem verda i Flocke Ranglaatra ad flækiaſt ſem Loth i Sodoma, þa ſia þu til, ad ei ſamlager þu þig Ofriooſomum Verkum Myrkraña, Eph. 5. v. 11. Edur illre Breitne Gudlauſra Hyrduleiſingia, ad ei verder þu Hluttakare Glæpa þeirra, og ſijdañ eirneñ med þeim ſtraffſens og Oluckuñar. Giær þu miin Saal i Añañ Stad, hvort þu aatt ad ſtefna, ef þu villt fiña JEſum; Þeſſer Lærefveinar hugdu ſier ad fara til Emaus, hvort Kauptun lærder Meñ hallda ſitt Nafn teked hafe af Vatne, af þvi ſaa Stadur var alla Vega Vøtnum uṁgyrdtur, og var Eitt ørugt Vijge fyrer þaa er flya villdu, ef braad Oſſookn bar ad Hondum. Vort Lijf i þeſſum Heime er ein Hrakningsfull Vegferdar-Reiſa, aa hvorre marger mædaſt þwnglega, Su Harma-Kloguñ er bæde Forn og Ny. Jacob giører þvi rietta Yferſkript þeſſarar Reiſu ſeigiande; Faaer og Iller eru mijner Vegferdar-Dagar, Gen. 47. v. 9. Og David ſeiger, Eg em Gieſtur og Framande aa Jørduñe, Pſ. 119. v. 19. Þeſſarar Reiſu verdur þo goodur Ender fyrer øllum þeim ſem Stefnu hallda til þeſs Heimneſka Emaus med Huga og Hegdan, þvi þar er þad rietta

faſta

fast a Slot og Frij-Stadur, i hvorium Ohullter blijfa, þeir sem þangad komast fyrer ollum Ovina Arasum, og eingen Pijna snerter framar ÞOrottens Utvallda, þar eru Straumar lifande Vatns framfliootande af Stoole Lambsens, Apoc. 22. v. 1. Med ylmande og eilijfre Sæleiks-Svolun Inn til þess Slots flijt Hiartad og Hugurenn, nær hann mædest af þessa Heims Eymd og Hörmung, og ymsar Ovina Araser ædynia, og þad er su And legg Vegferdar-Reisa, enn hin fullkomna kiemur ar epter. O DOrottenn, veit þu mier þijna Naad og Fulltijnge til þess eg stadnæmest ecke i Raade Ogud legra, helldur burtvijke fra þeim vonda Selskap, og hafe eckert Hlutskipte med þeim, og nær mijn Vegferdar-Reisa er a Enda kliaad, þa gled þu mig i þijnu Eilijfa Dijrdar-Rijke. I Pridia Maata Hugleid þu mijn Saal, hvor og hvilijk þu skallt vera ef þu hyggur hier ad finna JEsum. Þesser Reysu-Menn voru JEsu eigenn Læresveinar, og þeir somu voru Hriggver og Harmande. Þu mætt og mijn Saal vera JEsu Læresveirn, annars verdur Bid a Fundenum, þu mætt vera þad seige eg, i Sannleika, enn ecke Eintoomu Nafne, med hvørt marger vilia nu lata sier duga: Þu ert þad i Sann leika, ef þu elskar JEsum mest allra Hluta, og virder allt Preck hiaa honum, Phil. 3. v. 8. Ef so er, þa elskar þu og hanns Ord, utbreider þad og medkienner, lætur þier stioorna af honum, og lynda sierhvad sem hann lætur vera. JEsus giefur stutta og skijra

Utskijring hier yfer og seiger, þier erud mijner Vin-
er ef þier gioreð það eg bijð ydur, Joh. 15. v. 14.
Hier a skalltu leggia alla Krapta mijn Sœal med-
añ Lijfed endest, hañs Boð hefur þu, hañs Boð
skalltu eirneñ geyma, það er, stunda það sem þau
bióða, Hata, Flya og Fordast það þau baña, og
varia ollu þvi Pùnde sem þiñ JEsus hefur þier i
Hendur feinged, þessum þijnum Uñusta til Pock-
unar og Aviñings i alla Stade, og a ollum Tij-
mum, so elskar þu JEsum, og so ertu hañs Vinur.
Eñ framar, sie þetta þijn Hiartans Gyrnd og a-
stundan bæde Hatt og i Hlioode, þa er það Eitt
Merke þar til, að þu talar þa ecke einasta vid JE-
sum i þijnum Bœnum, helldur ræder þu og uñ hañ
vid adra, vijdfræger hañs Nafn, og wtbreidez
hañs Lofstijr med þiñe Tungu, þvi það er heñe tam-
ast sem Hiartanu er kiærast, þu lætur þier þa og eirn
eñ lynda hañs Kross, og hañs Okverdur þier sætt
og Elskulegt, þvi Tryggver Meñ plaga að lijda
Liwst og Leidt med sijnum Astvin. Lijt nu til, og
skoda grant hvað þu kuñer að sia af þessu, og þvi-
lijku i Heimenum. Er nu ecke Krosseñ Christi hat-
ädur a þessare Tijd? Eru ecke hañs Boð logð til
Sijðu? Eru ecke optast Veralldleger Hluter a
Tunguñe? Hvar er Hoogværd? Hvar er Lijte-
læte? Að slijku skallt þu huga, og þvi Athugalaus-
are og verre sem Heimureñ gioreſt nu, þvi meire
Upporvan skal það giora þier i Astundan sañrar
Guðhrædslu, og meige bryna deigt Jarn so það
bijte,

bijte, so vere slijkt þier ein Skierping, vilier þu añ-
ars ecke verda Heimenum Samferda ofañ til So-
doma, og þadañ i Elldeñ sem alldrei uppbreñur.

O miñ Goode Gud, gief oss i JEsu Nafne, Stirk þijns H. Anda, so ad vier elskum þig, og stundum af Hiarta þad sem þu hefur oss boded, so vier eigum þig alltijd ad eirn Nadugañ Gud bæde i Lijfe og Dauda, Amen.

# XVII. Capitule.

Uñ þad hvørneñ Christur kom i añarlegre Lijkingu til Emaus Reisu-Mañа.

ÞEG þad skiede so þa þeir rædduſt vid, og spurduſt að sijn að millum, ad sialfur JEsus nálægdest þá, og gieck Jafnframt þeim, eñ þeirra Augu voru so hallden ad þeir þecktu hañ eige.

HJer wt af Hugleid þu eñ mijn Saal Elskurijkt Hiartalag þijns DRottens, hañ er alltijd Nálægur øllum Sañ-Gudhræddum, og ecke sijst i þeirra Astrijdu og Freistingum, so hñ Endurnære þa, og Stirke i þeirra Veikleika, hañ vidrietter þa Veik trwudu, stirker þá Vansæru, huggar þá Hrelldu, og hialpar þeim Føllnu að Fætur, þvi skalltu alldrei Efa Hialpræde og Myskun þijns Guds i nockre Neyd, hañ bæde vill og kañ øllu til Besta ad snwa. Hañ seiger, Hvar sem Tveir edur Prijr

eru til samans komner i mijnu Nafne, þar vil eg vera midt a medal þeirra: Matth. 18 v. 19. Slijkt er good Huggun fyrer alla þa er Ottast DRotten, Eñ fyrst hañ er med, Hvor kañ þa ad vera a moote? Fyrst hañ verndar, Hvor kañ þa ad granda? Pvi sem hañ geymer, hvør kañ þvi ad stela, Hañs Hønd er Ohullt Hyrdsla.

Þesser Tveir Lærefveinar, mattu seigiast ad vera sem burtvillter Sauder fra DRottens Sauda Hwse, veik Trw uñ Christi Upprisu, og Otte fyrer Ovina Araasum rak þesse Lomb a Flootta i hætta Villustigu, so ef saa goode Hyrdereñ JEsus, hefde ecke leitad ad þessum tijndu Saudum, mundu þeir hafa hitt Ulfeñ, sem þeim hefde tortijnt, eñ hañs Giæska veik þeim aptur til Sauda-Hwssens. O DRotteñ, opt hef eg aumur burt-villst fra þiñe Sauda-Hiørd, og viked a vondañ Glotunar og Glæpa-Stig ymsa Raunglætinga, og næsta hlijdeñ vered Holldsens og Diofulsens Aeggingum, sem mier hefde Eilijfs Dauda aflad, hefder þu ecke O HErra, uppleitad mig Tijndañ og Tapadañ, Luc. 15. v. 6. Og viked a rietta Leid aptur til þiñar Hiardar, soddañ Myskun hefur þu margsiñes audsyndt mier Overdugum, Lijfed mier opt giefed, og allt añad Gott a eg þier ad þacka. Epter sijna Upprisu byrtest JEsus ecke øllum, helldur alleina sijnum Lærefveinum, og þeim Gudhræddu Kviñum sem hañ Elskudu, og epter hønum leitudu, þesser feingu ad sia hañ eñ ecke adrer, hañ þecker sijna,

og

og hañ þeckest af sijnum, Joh. 10. v. 14. Hañ visse Sorg og Hormung þessara siña Astvina, er þeir bæru epter hañ, hañ kom og ad hugga þa epter siñe Lofun, þier hafed nu ad soñu Hryggd, eñ eg skal sia ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og þañ Fognud skal eingeñ af ydur taka. Eñ þessa urdu ecke hañs Oviner niootande, er ecke mintunst hañs nema til Lasts og Vanvirdu, og ei villdu af Illu lata, þvi hvorneñ kañ sa ad vænta sier JEsu Naalægdar, edur sa hana, er hañ Priootskusamlega og Prælega fra sier hrekur, nied Ydrunarlausu Framhallde Synda og Rangløtes, Ef sa Riettlaate hialpast Naumlega, hvar mun þa sa hiñ Synduge og Omillde byrtast? Ef Guds-Viner sa ad klaga yfer Sioonar-Misser sijns HErra, sem hañ þo af Hiarta gyrnast, hvad vill þa hina skie, sem hvorke hafa Leit nie Longun epter honum? Eñ hvar JEsus er olldunges burt, þar er Diosulleñ. Heyr þu Barn mitt, villtu hafa JEsum, i Filge med þier, so maatt þu Endelega locka hañ til þijn med H. Tale og Gudlegum Muñ Rædum sem þesser Læresveinar. Klaam og Keskne, Bloot og Formælingar, Baktal og Bropsle, hryggia og burt fæla hañ, Eph. 5. v. 4. Eñ iñtaka Satan til Herberges hia þier aptur, og hvorsu mun soddañ Radde vegna nema illa; Dvrf urnar hrædast Hrafna-Maaled, og Lombeñ Ulfsens Hrinur, Eins er og þessu vared, med vondum Muñ-Sosnude rekur þu DRotteñ i burtu. Sa-

mt er þesse hrædelega Synd so ydkud af nockrum, ad jafnvel Bornen sem fyrst fara ad tala, og ædur en þau kuna FADER VOR, eru epter Olldene fullfær og snidug i Eidum, Ryde, Bloote og Bane, og rekia so þanig Ogudleg Synda-Spor þeirra Satans Erindsreka, er slijkt hafa þeim kiendt og fyrer þeim haft, so vondra Forelldra, 1. Kong. B. 15. v. 3. Sem anara Samvitskulausra Mana og Synda-Præla, af hvorium Gud mun um sijder Reikning heimta, þvi ef sa mæter þwngu Straffe sem forsoomar ad leida þessa Smælingia til JEsum, med Gaalausre Stundan Christelegs Aga og Undervijsunar, þa mun hinum ei Liettbæra verda; Hygge sierhvor ad slijku, og vande Verk sina Kollunar i þessu sem hvoriu odru i Guds Nafne, anars mun Barnana Saalna Klogun, saart svijda ydar Saalum; So vondur sem sa Rijke Madur var, þa villde han þo ecke sijna Bræd ur i Helvijte, JEsu Blessadur Bloods-Kraptur, Vokve, Væge og Vardveite oss alla fraa þeim Kvala-Stad. Nær þesser Emaus Reisu-Men voru a Ferdene hriggver, talande um JEsum, kom han til þeirra i Anarlegre Lijkingu. Po eg gaange i myrkvum Dal og Daudans-Skugga, seiger David, þa hrædest eg aungva Olucku, þvi DRottenn er hiaa mier. Ps. 23. v. 4. Sliiks hafa og Gudhrædder Menn alltijd sier ad vænta, hiaa hvorium JEsus er alltijd i Neydene, han brigdar ecke sijn Ord, samt eru þeirra Taarafull Augu opt

so

so Siþondspur a soddan Tijmum, ad þeir þeckia ecke so fliootlega hans Naalægd, og þar fyrer mæ þer Ostialldan heyra soddan Harma-Klogun, O Notten, þvi geingur þu so fiarlægt og geymer þig a Hormungar-Tijmanum, Ps. 10. v. 1. Petta er allijka og þa Eirn er villtur, og þecker ecke þad sem honum er þo ædur kunugt. Anars byrtest JEsus oss med Preñu Moote.

1. Andlega i Ordenu og Sacramentunum, þar sia um vier han Einasta med Augum Trwarenar, eñ ecke odruvijse, og þvi mæ slijkt heita Ein huleñ Mynd, epter Lijkamlegre Vijsu.

2. Kiemur han til vor i eirne Framande Mynd, þegar han sender oss adskilianlegan Kross og Mootlæte, þa þeckium vier han opt ecke sem oss byriar, þvi Vanmaattur og Veikleike vor, gietur þa ecke alltijd komed þvi fyrer sig, ad han elske oss i sodd an Tilferlum, lijka sem Barned kan ecke fyrr eñ sijdar meir, þa þad er komed til Vits og Ara ad þeckia Fodursins Elsku af Hyrtingune.

3. Kiemur JEsus til vor i Eigeñlegre Mynd, nær han kiemur med sijna lifande Huggun, bæde Andlega til Saalareñar, so og eirneñ til Lijkamans med nækvæmum Bæter og Linun Eirnrar og Anarar Eymdar, Ps 91. v. 15. Þa epter a taka Hiortun vor til ad breña, edur huxa þañig, þetta hefur mijnum JEsu geinged til ad græta mig, ad han feinge þvi betra Rwm hiaa mier med sijna Huggun, Eg vil hiedan af vid soddan kañast.

Þu Sæte HErra, Kom i þeirre Aſynd til miijn ſem þier þocknaſt, þvi þiñ Tilgaangur er alldrei utañ goodur, ef þu kiemur og ert hiaa mier, hvorneñ ſem þu kiemur, þa maa allt verda mier ad Goodu, ſijka vel maa þa Helvijte ſnwaſt mier i Himnarijke, þvi hvar þu ert, þar er Himnarijke, ætla þo Sæte JEſu mier ecke meira eñ bored giet, Forþienuſtañ miijn giører mig hræddañ, þo eg vilie þig ſeigeñ eiga, og þier treyſta, þa verd eg ſamt Maattvana ſtander þu fiarlægt, Eg vil ſeigeñ allt liida med þier, Hiaalpa þu mier, og þiijn Hiaalp leide mig Lokſins af þeſſum Harma og Taara-Veige i Eiliijft Epterlæte, Þa ſæ eg fagnande og frijadur af øllum Eymdum og Haaſka þeſſa Heims, Liomande ſem Sool, i þiijnum Liooma þu Bleſſada Sool Riettlætiſins, ad ſiaa þiijna Eigeñlega Aſynd, Eiliijflega þig Loſande, AMEN.

# XVIII. Capitule.

Uñ Samtal Chriſti vid Læreſveinana aa Veigenum.

OG hañ ſagde til þeirra: Hvad er þad fyrer Rædu ſem þid høndled yckar aa mille reikande og erud hryggver þar af. Þa ſvarade eirn er Cleophas var ad Nafne og ſagde til hañs: Ert þu alleina ſo Framande til Jeruſalem ad þu veitſt ecke hvad aa þeſſum Døgum þar iñe

giørſt

giørst hefur? Hañ seiger til þeirra, hvad er þad? Þeir søgdu til hañs: Þad af JEsu af Nazareth, hver ed var Spaa-dooms Madur, Maattugur i Verkum og Ordum fyrer Gude og øllu Foolke. Hvernen ad vorer Høfud-Prestar selldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans og Kross-festu hañ, eñ vier vonudum ad hañ mun-de endurleysa Jsrael, og yfer allt þetta er nu hiñ þridie Dagur i Dag er þetta skie-de, so og hafa skielft oss nockrar Kviñur af oss til, þær ed aarla høfdu hiaa Grøfeñe vered, og fundu ecke hñs Lijkama, komu og søgdu sig eirneñ sied hafa Einglaña Sioo-ner, þeir sem seigia hañ lifa, og nockrer wt af oss geingu til Grafareñar og fundu eins lijka sem Konurnar høfdu sagt, eñ hañ saau þeir ecke.

EJrn goodur Lækner giefur ecke Lækninga Med-ol vid einu Saare, eda Siwkdoom, nema hañ faae aadur ad vita Upphaf og Orsok Saarsens edur Siwkdoomsens, i Ondverdu; Noog eru Smyrsleñ i Gilead hiaa þeim stoora Læknis-Mey-stara Jsraelis vid øllum Meinsemdum, samt vill hañ ad aller opinbere sier, med Bæn og ydrande Kvørtun, Eymder og Vesølld sijna, og sier hvad sem aangrar aa hverium Tijma, ef Boot skal gie-

efast og Huggun meddeilast, ei þad ad hañ vite ecke allar vorar Nauder, og hvad oss þiakar i hvert eitt Siñ, edur þvi skyllde hañ ecke vita hvad hañ sialfur a oss leggur? Sem veit oll Ord a vorre Tungu, oll Verk og Huganer Hiartans, Jer. 17. v. 10. So seiger hañ hier, hvad mæder ydur so miøg? Hvad þreynger ydar Hiarta? Eñ hygg ad Guds Barn, þegar JEsus syneſt þier ad laita so okuñuglega, þa vill hañ laita sialfa oss þeckia vort eiged Ystoduleyse, Vantru og Oþoleñmæde med fleiru slijku, og tilbwa sier sialfum so hiñ Hagfelldasta Aminingar og Stroffunar Veg til vor, so oss sialfer betur þeckium, ydrunist og giorum Boot, þvi nær vier hofum so berlega þeckt vora eigeñ Vanvirdu, þa fleigium vier oss med þvi heitare Taarum ad JEsu Footum, og mænum Augunum uppa hañs Myskun, leggiande Saal og Lijf honum i Valld, alijka og grated Barn hegdar sier vid sijna Moodur, i einu Orde, þetta giorer JEsus so hañ locke til sijn allt vort Hiarta, og ad þvi giordu, sundur bresture eirneñ hañs Myskunar rijka Hiarta af naakvæmre Vægd og Medaumkan, Jer. 31. v. 20. O JEsu miñ, opt blygdast eg ad seigia Moñum Mein og Angur mijns Hiarta, eñ þier þu elsku Mooder, hvoria eg vil hvorke, nie fæ, neins duled, vil eg hryggur, og þo hræddur sie, þad openbera, þu giorer vid þad allt sem næst er þijnu Hiarta, Alleg ur þijnar vil eg giarnañ lijda, ef eg er under þeim saart graatande,

ande, þa lætur þu mig ecke leinge Huggunar bijda, eg er þier fyrer þaa Trw, sem þu hefur i mier verkad, samteingdur, so ad hvad mijnu Hiarta þreynger, þad þreynger og þijnu Hiarta, og lætur þu þad ecke leinge Bootalaust, reyndur veit best soddañ Sañende skyrast ad fortelia.

Af Cleophæ Andsvare uppaa DRottens Spurs-Maal lære hier. 1. Aller JEsu Pioonar, saña Trygd og Hollustu vid siñ Herra, og þad af siaalfs hañs Dæme, ydur byriar ad vera Maattugum i Ordum, med soddañ Rædu, so Amiñingaña sem Huggunaña, er þreyngia sier iñ til Hiartans kroptuglega sem tvijeggiad Sverd; Ebr. 4. v. 12. Hvor epter þeirre Raad sem honum er giefeñ aan Afdraattar, þvi ef þier hygged grant ad, mun ydur osofande þess Þorf synast nu aa Dögum, bæde siaalfra ydar og añara vegna: Þad þarf og endelega ad vera, ad Maattur þesse auglysest og i Verkunum, so ad þeir sem þier med hvorutveggiu lysa eiged, siaæ ydur ecke lifande dauda, Apoc. 3. v. 1. Edur þau somu daudu Verk ydkande sem þier hardlega straffed og straffa eiged a ödrum, þvi ef ödruvijse er, hvad vill þvi epter fylgia? Añad eñ þad, ad þier vallded þvi, ad Gud og hañs Ord er forsmaad, og þier so siaalfer ad Makleglegleikum vanvirdter, er þo sw Vanvirda sem eckert, ef öñur kiæme ecke aa epter seirna, hverrar þeir meiga vijst vænta, sem i slijku frañfara, og nidurbriota so hrædelega og blygdunarlauslega þad med añ-

are Hendeñe, sem þeir laataſt ſo ofruglega uppbygg-
ia med aňare, hyggium ad ollum Kriingum-Stæd-
um fyrre og ſeirne hier ad lwtande, ſiñ þa fyrer oll-
um oblindum opnaſt munu. Vorer Hofud Preſtar
og Hofdingiar fielldu hñ i fyrerdæmingu Daudans
og Kroſſfeſtu haň, ſeiger Cleophas. Pilatus Kroſſ-
feſte ad ſoñu JEſum eñ þeſſer þreyngdu honum þar
til, ſaa ſem eggiar og ſtirker eirn til þeſs Jlla, ſaa
ſem, ſege eg, ecke hindrar og afrædur odrum ſem
kaň, þad Jlla, mun haň ecke vera lijkt ſekur, ef ecke
ſekare, eň hiner ſaavijſu er þad giora? Hvad gi-
orer þad ad JEſus og haňs Bod eru nu ſo af mo-
rgum Foottrodeñ? Andſvar, þetta ſtrax nefndt
er ecke hin minſta, helldur hellſta Orſok, fyrer ut-
aň þad, ad þar fiňaſt marger ſem ſtirkia Eirn i
haňs Ohlutvendne, vegna Beidne þeirrar bolvudu
Agyrndar, ſem i ſiaalfum þeim rijker, ſo eru þeir
og eirneň til ſem giora eirn og aňaň wt til illra Ver-
ka, eň þad þridia ſyneſt nu morgum lijtel Synd,
þo þeir gaume ſier ad aňara Vondſku, eň ad þei-
gia og leggia ecke til, ſkal nu heita Hoogværd og
ſtoor Heilagleike; Eñ Sooparner eru hvorke ſam-
aňbundner, og þar med marger Lim litler, og því
maa þetta gaanga ſo wt, þar til Soopur þeſs hæd-
ſta fellur yfer alla, edur og burt ſoopar olldunges
ollu ſoddaň Endeme i ſiňe Reide: O Tijd! O
Tijd! Sem nu ſyneſt ad bijda þeſſarar Tijdar.

O þu hædſte Herra JEſu, ecke ad eins Sel-
ſkapur Gydinga, helldur mijn Bloodug Jllsku-
Verk

Verk selldu þig i Kvaler og Krossens Dauda, ei-nusinñe er þad noog, o ad eg giørde ecke slijkt optar! eg vil, eg vil feigeñ bæta mig, eñ þijn Hiælp stirke mig þar til: Þu hefur med þiñe Kvøl oss alla endurleyst, þar uppa skal sig forlaata, og þvi trwa, ad Synder mijnar mune ecke kuña ad ham-la þvi, ad eg naae med þier miñ Herra Jñgaungu i þitt Dyrdar-Rijke, ad fullu saña eg þad þa, ad þu hafer mig frelsad, nær þu veiter mier vendan-lega Unadsemd Fegnud og Glede i þvi eilijfa Fød-ur Lande. Cleophas seger framar, ad Kviñurn-ar hafe skielst þær med synu Tale, er þo mætte ve-ra þeim hiñ stædste Glede-Bodskapur, hefdu þeir þañ Tijma samañbored vid JEsu Fyrersagner aadur uñ sijna Upprisu, eñ slijks giættu þeir ecke, þeirra Harmur og Trwarveike liet þeim ecke epter ad siña neinum Glede Sognum; So geingur þad og eirneñ opt til fyrer oss, vort aangraatt Hi-arta kiemur ecke alltijd fyrer sig aa soddañ Tijd ri-ettre Þeckingu Hlutarens, Esa. 38. v. 11. Þad verdur þa stundum ad Skielsingu sem añars þien-ar so til Huggunar, þvi Holldß Skilningureñ i Mootlætenu er blyndur og hindrar fyrer Trwñe, og þeim riettu Skilnings Augum, 1. Cor. 2. v. 14. Verde þa sagt til eins Krossberara, þier geingur vel, þvi þu ert Guds Vinur, þa kiemur honum þes-se Sañleikur so undarlega fyrer, sem sie þad Hard-ydge og stoort Vorkunarleyse, jafnvel þo hañ me-ige vita þessa Bevijsing þar uppa, þesse Hrygd sem

ſtundleg og liett er, wtvegar ollum þoleñmoodũm JEſu Kroſſberendum eina eilijfa og yfer allañ Maata mikla Dyrd, 2. Cor. 4. v. 17. Jaa, Mañ-ſins Tru i Hormung Freiſtingañs er næſta lijk einu Skipe, ſem hrekſt i ſtoor-Bilgium og Sterk-Vid-re, hvoriu þa og þa liggur vid Hvolfe, eñ ſteipeſt þo ecke olldunges, Pſalm. 107. v. 17. Eñ þar fyrer ſteipeſt Trweñ ecke, ad DRotteñ keinur ſo opt i Leiternar, og helldur ſiaalfur vid, nær allur Maattur og Pol vill til Gruñs gaanga, Jaa, nær fletia ætlar ſo miog, ad varla er ad fiñá eina Hn-yſs-Eggiar þickt millum Lijfs og Dauda, þa ſnijr Guds Vægdar og Naadar Hond þeſſu Hroofe aptur til riettrar Raaſar. Miñ goodẽ JEſu ſem þecker og græder ſoddañ Hættu Saar, eg trwe ad ſoñu, eñ hiaalpa þu miñe veikre Trw, og þo mig aumañ vilie nu margt mæda, og eitt Angur odru filgia, þa vona eg ad þijn Giæſka, mune ſnart ko-ma og þeſſu Vatne i Vijn ſnwa, Anien.

# XIX. Capitule.

Uñ Predikun Chriſti fyrer Læreſveinunum og Veigenum.

OG hañ ſagde til þeirra: O þler-heimſker og treger i Hiarta ad trwa þvi ollu ſem Spaameñerner hafa talad, hlaut Chriſtur ecke þetta ad lij-da og iñgaanga ſo i ſijna Dyrd, og hañ to.

ok

ok til fra Moyse og øllum Spamoñum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar, þær af hønum voru.

ÞEgar Cleophas (sem aadur er umgieted) hafde opnad og auglyst Saarin þeim Himneska Lækner JEsu Christo, þa liet hañ eige leinge undañ dragast ad giøra þeim til Gooda, fyrst heller hañ þar iñ beisku Vijne, siñar Strøffunar, og kallar þa Heimska og Trega, þvi sañlega er sa Heimskur, og næsta faavijs sem fylger Hollds Skinsemeñe i Trwareñar Efnum, 2. Cor. 2. v. 14. Þvi hiñ same er lijkur þeim Mañe sem kveiker Eitt Lioos midt i Byrtu Soolareñar, i þeirre Meiningu, ad hañ siae betur til, eins sem Liossed sie biartara eñ Sooleñ, sem þo eckert lijser i heñar Lioose: So er og sa næsta faavijs sem ecke vill trwa nema þvi Einu sem Lijkamleg Augu siaa, og Hendurnar aþreifa, þo fiñast soddañ Heimskingiar fleire eñ skyllde, og þad meira er, ad þeir vilia ecke laata sier undervijsa, og forsmaa Vitskuna, Prov. 1. v. 22. Og med þvi þeir akta ecke um hvad Guds Ord seiger þeim, verda þeir ad Vantrwudum Pusjum, Rom. 1. v. 22. Meir elskande Lijgena eñ Sañleikañ, og falla þvi opt i Ørvænting; So geingur þad þeim sem hata Typtun DRottens, og ei vilia sier til hañs snwa aa medañ DRotteñ frambijdur Naadena, Es. 65. v. 2. Þau Ord er eg tala, þau eru Ande og þau eru Lijf, seiger vor HErra: Jaa

miñ Gud', þau eru Einaſta Huggun mijns Hiarta, og Edſta Lækning allra miña Meina, J allre Aſtrijdu mitt Liif-Atker ſem alldrei forgeingur. Epter þvi ſama þijnu Orde, ſem er Jlmur Lijffsens, 2. Cor. 2. v. 16. Verdur þo ad œviita þeñañ hard hnackada og hreckviiſa Heim, i Tijma og O-Tijma, og þo hañ trwe ecke þeirre Predikun, þa hlijtur ſw ad vera Vidleitneñ, Ezech. 33. v. 2. Ef ſkie mœtte ad honum yrde ſnwed fra Helviijte.

Saal mijn, forakta ecke Typtan DRottens, og laat þier þad alldrei mislijka þo Guds Pwonar ſtraffe þijnar Synder, Elſka þa mykluframar fyrer þad Verk, þvi þeir vilia þar med leida þig fra Myrkrenu til Liooſſens, fra Diofulſens Rijke til Guds Rijkes, þvi nær þeir hafa leidt þig til Saarañ Peckingar og þeirra Tilfiñingar wt af Logmaalenu, og fiña þig ſlijkt hatande og hafnande Syndeñe, leida þeir þig i Smyrſla-Hws DRottens Naadar-Fyrerheita og JEſu Forþienuſtu, ſem þig þa græder, ſo þa kiæteſt Gud og hañs H. Einglar, Luc. 15. v. 7. 10. Pa kiæteſt þu, þa kiætaſt DRottens Erendsrekar, og aller þeir ſem a Guds Parte ſtanda; Allt ſoddañ ſier þu hier ſatt ad vera, þvi þegar JEſus hafde ſtraffad Læreſveinana, huggar hañ þa ſtrax aptur, Seigiande: Hlaut Chriſtur ecke þetta ad lijda, og iñganga ſo i ſijna Dijrd? Sem villde hañ ſeigia, þad ſem JEſus af Nazareth hefur lided, þad hefur hañ lided Mañlegu Kyne til Frelſunar, og þad af aliktudu Guds

Raade,

Raade, sem giordest aadur eñ Madureñ var skap-
adur, Eph. 1. v. 4. Þad er og allt fyrer-sagt, þvi
kuñe þad ecke ad slaa Feil. Miñ Sæte HErra,
Eingeñ naudgade þier ad lijda so beiska Kvøl og
Pijnu, Þijn Elska og Oumræðeleg Hiarta-Giæd-
ska til Mañkynsens ad þad fordæmdest ecke, kom
þier til þessa, hier fyrer gafst þu þig viliugur i sodd-
añ Pijsler og hrædelegar Kvaler; Mijn Saal,
soddañ Elsku þijns HErra laat þier alldrei gleym-
ast, Laat hana, seige eg, vera þier Eina sijfellda Upp-
vakning ad þiena med Trygd og Elsku þessum þijn-
um Uñusta, so og ad taka viliug hañs Kross uppaa
þig, sem er þier eirn Heilsusamlegur Kaleikur, Ps.
116. v. 13. Og Eitt Astar-Teikn Guds, þu kant
ecke ad faa stærre Æru hier i Heime, helldur eñ ad
bera Krosseñ epter Christo, so þu lijkest hañs Hrygd
ar-Mynd hier i Tijmanum, uppaa þad þu faaer ept-
eraa, hañs Dijrdar-Mynd ad bera Eilijflega.

Þegar nu þitt Holld, sem alltijd gyrnest i moote
Andanum, amast vid og mootþægest Krosse þijns
HErra, þa þagga þad nidur med þvi ad leida þier
i Hug þetta Prent.

1. Guds Raad sem aalyktad hefur, ad eingeñ
skule aa Himnum Coronast utañ saa, sem aadur hef-
ur Riettelega barest hier aa Jørduñe, oss byriar,
seiger Postuleñ, fyrer margar Hørmungar iñ ad
gaunga i Guds Rijke, Post. G. 14. v. 22.

2. Laat þier i Hug koma JEsu Epterdæme,
hafe hañ lided, so maattu og lijda, ef þu skallt lijkiast
hon-

honum, Fyrſt Elſkañ hañs til þijñ, þvijngade hañ ad lijda fyrer þig, So ſkal og Elſkañ þijn til hañs þvijnga þig ad lijda og giøra þad hañ þier boded hefur, 1. Cor. 4. v. 14. So ad eckert fæe þig frar honum og hañs Elſku ſkiled.

3. Laat þier i Hug koma þa Epterkomande Dijrd ſem Kroſſenum fylger, og Coronu Lijffsens ſem þu ætt ad fæ til Launa (epter Guds Naadar Loforde) fyrer þeſſa Hrygd ſem Stundleg og liett er, og ecke heñar Virde. Rom. 8. v. 18. Athuger þu Under Kroſſens Oke grant þeſſar Orſaker, muntu framar fagna Kroſſenum eñ mootþægiaſt honum; þvi þad er illt Nafn ad heita Ovinur Kroſſens Chriſti, og eiga ſijdañ fyrer Hondum Fordæmingar-eñar Efelok: Phil. 3. v. 18. 19. Hupa þu framar æ þad, ef þier er þijn Velferd kiær, ad vera ecke lijk þeim Selſkap ſem þeſſa Yferſkrift hefur, og vit ad ſæ mæ hier niðurſæ i Taarum, ſem þar ſkal med Fognude uppſkiera, Þvi hvorneñ ſkal Gud þerra þaug Taareñ ſem alldrei hafa ruñed, og hvorneñ kuña þaug ad reña hiæ Sij-glodum Sælkiera þeſſa Heims, ſem hvorke þecker Gud nie ſialfañ ſig.

Lokſens lagde JEſus wt fyrer þeſſum Læreſveinum allar Ritningar um hañ talande; Þa ſæ eg beſt ad þeckia þig miñ HErra JEſu, nær þitt bleſſad Ord undervijſar mier um þig, ſem bæde gledur og giører vijſa þa Einfolldu. Pſ. 119. v. 130. Þu Bleſſada Sarons Bloomſtur, þitt Ord eru ſem

Alldengardur, i hvorium þaug Alldin spretta, sem kiæta Mañsens Saal og Hiarta, og giefa Saalu-hialplegañ Vijsdoom þiñar soñu Kyñingar, i od-rum eñ þessum Alldengarde giefst slijkt ecke. Þu ert O JEsu sem eitt Gull-Eple i Silfur-Skaal H. Ritningar, Prov. 25. v. 11. Pad sama Edla-Hnoss er miñ Fiesioodur, hvorn mijn Saal elskar, og gyrnest af Hiarta, þvi hañ eñ eckert añad, er heñ ar Einka Unun i allre Neyd og Angist; Lattu O JEsu þijn Ord gledia mijna mædda Saal i Lijfe Dauda, og epter Daudañ, a þvi Sijdasta Alls-heriar-Þijnge, AMEN.

# XX Capitule.

Bæn Læresveinaña ad Christur være hia Þeim.

OG þeir tooku ad naalgast Kauptwn ed þad þeir geingu til, og hañ liet þa sem villde hañ leingra gaanga, þeir neyddu hañ og sogdu: Vert Þu Hia Oss HERRA, Þviad KVOLLDA tekur, og a DAGENN lijdur.

HVort Ar hefur siñ Utgang, og hvor Dagur sijna Ending, so og eirneñ þetta Auma og Vesæla Lijf, þad fer og um sijder ad sia sijna Enda-lykt, mijner Dagar, med ollum Þwnga og allre Armædu sia Lokssens sitt Kvolld, a hvoriu eg fer alfareñ wr Heimenum, i Himeneñ, Joh. 23. v. 14.

Ur Striidenu i Sigureñ, Ur Sorgeñe i Gledena, Ja, wr allre Verålldar Astriidu i Hendur Drott eñs, Spek. 3. v. 1. Pa er eg komeñ i þad Himneska Emaus, til hvörs miñ Hugur hefur hier opt hvarflad, Hiartad epter laangad og Augum mænt, og hvört eg nu til þess Tiima, þraæ marga Stund, Phil. 1. v. 23. Hier þyker Sumum gott ad vera, Eñ Hierverañ løng, er løng Plaaga, Hier plaaga Synder, hier plaagar Verølld, hier plaagar Diofull og Freistingar, fyrer utañ Hvørs-Daglega Mædu, þvi Eirn Dagur med Ødrum hefur siina Byrde, og opt er aa Einum Deige ecke Eynd Ein; Eñ i þvi Himneska Emaus er feingeñ full Boot allra Meina, EJA VERUM VJER PAR.

Pegar Læresveinarner naalægduft Kauptwned, liet JEsus sem villde hañ leingra gaanga. Christneñ Madur, Kross og Hørmungar eru ad soñu Holldenu beiskar, þvi þa klagar margur og seiger: DRotteñ hefur angrad mig, Saa hiñ Almaattuge hefur hrellt mig, ei ad siidur erum vier aa GDDañ Tiimum naalægre þvi Himneska Kauptwne at margañ Haatt, þvi Hiartad forbetrast vid Hryggdena, þad sem aadur var kalldt og dofed, verdur þa klockt og Tilfiñingarsamt, þad sem aadur ecke synte uñ DRotteñ, þad leitar þa DRottens: Eñ þad er Hørmungeñ mest, þegar DRotteñ syneft ad lata þaa, sem vilie hañ forlaata Eirn Kross-Beraraso hañ hliitur ad klaga med Job og seigia: Pu ert mier nu umsnyñeñ til eins, sem er Grøde løgur, og

audsyner þiina Reide a mier, med þeim Stirkleik-
num þinar Handar, Job. 30. v. 4. So og med
David seigiande: Þvi geingur þu so fiarlægt, og
geymer þig a Hormungar-Tijmanum. Ps. 10.
v. 1. Somuleides med Jeremia, ad DRotteñ
hegde sier sem Giestur og Framande, Jer. 14. v. 8.
Thren. 3. v. 3. Og snwe Hendeñe i moote sier, Eñ
uñ soddañ Guds Vidhondlan vid siina, skyniar
Mañ ecke alltijd, og kiemur þvi ecke fyrer sig i Hor-
munguñe hvad soddañ hafe ad þijda, helldur verd-
ur opt Oþoleñmoodur, Eñ DRotteñs Tilgang-
ur i þessu er sa, ad þessara Trw Rietteleg og miklu
Dijrmætare fundeñ verde helldur eñ forgeingelegt
Gull siñ i Ellde er reynt, til Lofs, Dijrdar og Heid-
urs, nær Jesus mun Opeñberast, 1. Pet. 1. v. 2.
Allijka er þetta Guds Barn, og nær goodur Vin-
ur siiner sig afundeñ vid þañ sem hañ elskar þo heitt,
eñ ætlar honum i Huga siinum mikla Upphefd og
Æru epter a seirna. Samt ma þvi ecke neita, ad
þessar Rauner sieu sarar og all-vidkvæmar med-
añ þær yferstanda, og hitte þær þig, er audmiwkrar
Bænar Plastur hin besta Lækning vid þessi Sar-
re, sem Dæmeñ morg siina, bæde þetta Læresvein-
aña og fleire, hun afrekar alltijd hia DRottne uñ
siider einhveria Linun og Lækning, hvorrar þu skallt
bidiande bijda þoleñmoodur; Skoda þu Dæmed
a þeirre Cananversku Konu, Matth. 15. v. 22. seq.
Sem er Eitt hid lioosasta hier uppa: So og Eck-
iuñar, hvorrar Bænar-Naudan, kom uñ siider
G þeim

þeim Rauunglaata Doomara a Stad til ad hiual-
pa heñe, hvar yfer JEsus giører soddañ Alykt an
og seiger: Skyllde Gud þa ecke giøra Frelsun siña
Utvalldra, sem Noott og Dag til hañs kalla, eñ þo
hañ hafe Poleñmæde þar yfer. Luc. 18.v.7. Þetta
er nu þad Ofrijke sem Christur seiger ad Himna-
Rijke þole, og þeir sem Ofrijked giøre, þeir hreme
þad til sijn med Magt. Matth. 11.v.12. Jaa,
Gudhræddra Bæner giøra sialfum Gude þetta
Ofrijke, hvort hañ giarnañ lijdur. Þo eirn Fad-
er være hardhiartadur, þa mætte hañ þo Frida sig,
ef Borneñ umkrijngde hañ og griete, þvi mnu þa
ecke Guds Barna Taar, viña a Myskunar-Hiar-
ta Guds, so hañ heyre og Bænheyre, sem giører
hvad þeir Gudhræddu gyrnast, heyrer þeirra And-
varp og hiaalpar þeim, Ps. 145.v.19. Eg er
viss uppaa, ad alldrei mislijkar þier þad O Drotteñ
miñ, þo eg med Bæneñe neyde þig, og hallde mier
a þier, þvi vil eg alltijd giøra þad, eg maa alldrei
missa þig, misse eg þig, þa misse eg Lijfed og allt
Gott; Eg er nu opt hwngradur epter þvi, ad faa
ad eignast þig ad fullu Leite, Ps. 42. v. 3. Og su
Dvol eykur Stundum Hiartanu Trega, og hvad
munde þad þa vilia verda, skyllda eg midt i þessu
missa þijna Andlega Naalægd, og siaa þijn a Bak,
O JEsu laat þad ecke ske, Vert þu mijn Huggun i
Hrygdeñe, mitt Lioos i Myrkrenu, mijn Hiaalp i
Neydeñe, þaangad til þu ert allt i øllum. Eg kañ
ecke med mijnum Peña, ecke med Tunguñe, og ecke
i Hüg-

i Huganum upptelia allar þær stooru Naudsyniar sem oss þrijsta meiga til ad bidia JEsum hiaa oss ad vera, Og hvad mun eg Faavijs þad kuña, sem eg helld ad eingeñ giete fullkomlega, Eñ þad veit eg, sem aller meiga vita, ad Kvolldar nu æred miøg aa marga Vegu, i þessum hætta Heime, Jer. 6. v. 4. Og fyrer utañ oñur hañs Kvolld-Rockurs Vitne, eru allar Stietter i hvorium hryggelega Kvolld ar, þad gierer morgum Guds Bornum Hræðslu og Hiartans Angur, þad er allt vel þo lijde aa þeñañ Veralldar-Vetur, þvi fagna Guds Born, og þeir aller aa medal þeirra, sem Von-gooder ordner eru uñ snart-lideñ Hormunga Vetur siñar Hiervistar med Simeone; Eñ hitt er Hormung ad vita, hvorsu allre Dygd og Daadum Kvølldar i ollum Stiettum. J þeirre Andlegu Kvolldar hreirne Kieñingu Gud Orda, eñ Fals-Lærdoomur og Villur hafa vijda Yfer-Hond, so alldrei veit nær ad JEsus er olldunges wtrekeñ, og þo hañ sie eñ aa Tunguñe, og hañs hreirn Lærdoomur, Drott nar ei ad sijdur Raanglæted, sem ei kañ ad foreinast vid þetta Lioos, utañ añadhvort sie Reyndar hatad. J þessare Stiett syneſt Bwksorgeñ opt wtreka Gudhrædsluna, og twa Stundan Embættes Verksins, Agyrndeñ teingest so vid þessa siyna Syster, Luc. 16. v. 14. Matth. 23. v. 14. Ad Riettvijse og Myskunar-Verkum verdur gleymt; Hræsneñ samlagar sig opt þessum, er sig auglijser i Talenu vid Stoor-Meñeñ, hvorium spaad verdur

Sigur-For nalega i hvoriu Verke og Athofn ſem Achab Fordum; Hier vid bæteſt Stroffunarleyſe Syndañа, Ezech. 33. v. 8. Sem nu hefur Hoog værdar-Nafn a þeſſu Kvollde. Soddañ og fleire Odygder ſem nu fara i Vopt ſkarta ſtoor-illa a ollum, eñ þo veſt a þeim ſem lijſa elga odrum, bæde med Lærdoome og Lijferne i þeſſu Rockre, og af hvorium, nær Dageñ til fulls byrter, heimtur verdur Reikningur Saalnaña. J þeirre Veralldlegu Stiett Kvolldar eirneñ ſtoorlega, þvi fyrer utañ þad, ad hvor Unglingureñ hleipur uñ añañ hverañ i þetta Sæte, og ſoddañ Joans Hofdingiar Eſ. 19. v. 11. Fæcka nu ecke, hvar ſprer Logeñ verda a Eyrunum dreigeñ; Pa hafa nu Mwtur og Fie-Giolld eitt ſtoort Geinge, hvoriar Ogudleger Meñ þiggia, og beigia ſo Veg Riettarens, Ordsk. 17. v. 23. Eſ. 1. v. 23. Peſſa ma ſia Aume og Fatæke giallda, eñ til hins Rijka er ſagt, Ydar Pienare, Fared i Fride. Pier Guds Foolks Doomendur vareſt ſoddañ, Otteſt Dkotteñ og vijked fra Illu, ad ei verded ſialfer ſijdar i Reide dæmder, þvi lijka hafe þier Reiknings ad vænta.

J Hwsſtioornar-Stietteñe Kvolldar og, þvi þar rijker Aſmodeus Hatur og Ulfbwd medal ſumra Hioona, Par ſiaſt Agalaus Born, med illra Forelldra Uñmerkium, og a þeim Akre eru margar Netlur og Pyrnar, Prov. 24. v. 3. Laſtaña, ſem giorer Hiartans Angur. Par ma ſia a ſumum Hwpum Krans Odygdaña, Svik, Ohlijd ne,

ne, Agyrne, Ulfbwd, Drambſeme, og adſkilianleg Jllſkuper, ſem nu gaanga Fiollum hærra. Og hvor kañ i ſtuttu Maale ad upptelia allar þær Sviþ virdingar ſem nu eru i fullum Proſſa at þeſſu Kvollde Veralldareñar. A Sodomæ Borgar-Kvollde, liſde hun i hrædelegum Skoñum ſem hroopudu i Himeneñ, hun foorſt og i DRotteñs Reide-Ellde, eñ hvad nu Jllſku Kvolld-Verkum Heimſins (og at medal añars þeſſa Lands) epter-fylger, veit Gud, hvor leinge heſur Poleñmoodlega beded, og eñ biidur epter Boot, Gud giæfe ad Meñ villdu þeckia ſijna Vondſku, eñ hvad ſkiedur? Þeir þurka Muñeñ med Hoor-Konuñe og ſeigia: Eg heſe eckert illa giort, fyrer hvi mun þar verda Eirn vondur Tijme. A Kvolldeñ geingur Sooleñ und-er; Eñ O JEſu, Þu Bleſſada Sool Riettlæte-ſins, haf Poleñmæde, Gack oſs ecke under, helldur lijs hverre Stiett, ſo hvor Eirn i ſiñe Stiett betre ſig og lære riett ad giora, Snw þu oſs, ſo er oſs ſnwed, Lækna þu oſs, ſo verdum vier heilbrigder; Eñ þu Hugleid O Madur, ad Kvollde þijns Lijfs, ſem kiemur uñ ſijder, og vert ecke vid þvi varbweñ, þu veitſt ecke nema þetta Kvolld verde þitt hid Sijd-aſta Kvolld. O JEſu! Eg þrae ſem Pioon-eñ, epter þeſſu miña Lijf-Daga-Kvollde, yfergief þu mig alldrei, helldur vert þu mier nalægur med þijnu Hiaalpræde i Lijfe og Dau-da, AMEN.

# XXI. Capitule.

Um̃ Peckingu Læresveinaña a Christo i Giesta Herbergenu, og Aptur-Snuning til Jerusalem.

HAñ gieck Jñ og var hiaa heim, og bad skiede þa hañ sat med þeim til Bords, ad hañ took Brauded, blessade þad og braut, og riette ad þeim, þa opnuduſt þeirra Augu so ad þeir þecktu hañ, og hañ hvarf fra þeirra Augum. Og þeir sogdu sijn aa mille, brañ ecke Ockar Hiarta i Ockur þa hañ talade vid Ockur aa Veigenum, og opnade fyrer Ockur Ritningarnar? Og þeir stoodu upp aa somu Stundu, og sneru aptur til Jerusalem, og fundu þaa Ellefu Samañsafnada, og þaa sem med þeim voru, hvorier ed sogdu, DRotteñ er sañarlega uppriseñ og hefur byrtst Simoni; Og þeir sogdu hvad giorst hefde aa Veigenum, og hvorneñ þeir hefdu þeckt hañ i þvi hañ braut Brauded. Þeim truðu þeir og eige.

ÞO ad sa Allmattuge Gud sie i Raun og Sañleika eirn Osigrande HErra, og Offervinanlegur Gud þa verdur hañ þo sigradur med Bæn

eins

eins syndugs Mañs sem mørg sañferdug Dæme saña. Nær þeir Heidnu villdu Godum sijnum hiaa sier hallda, giordu þeir sier Gullvidiur og bundu þau med, eñ so skallt þu ecke heimsklega ímynda þier Almætte DRottens, hvıad eins kant þu honum hiaa þier hallda, ad þu brwker þar til trwada Bæn ydugl ega. Eg veit og trwe HErra JEsu, ad eg er iñlæstur i þijn blessud Myskunar Ydur, i hvorium þu hefur vitiad og funded mig, eg trwe og ad eingeñ Haiske Neyd edur Sverd kañ mig ad slijta wr þiñe Hende, og alldrei yfergiefur þu mig, þegar eg hefe til þijn kallad i mijnum Bænum, þa hefur þu alltijd giegnt og hiaalpad mier, mig mun og hier epter ecke helldur neitt Gott bresta af þiñe Hende, þvi þu ert Stirkleikur Lijtelmagnans, Stirkleikur hins vesæla i Hørmunguñe, Eitt Skiool fyrer Stormvidrenu, og Eitt Skugge fyrer Of-Hitanum, nær ed Vijkingureñ Olmast, so sem Eitt Hretvidre aa moote Einum Vegg. Es. 25. v. 4. Jaa mijn Bæn til þijn i Neydeñe bindur þig betur hiaa mier eñ nockur Gull Vidia, þvi Bæn hins Faatæka heyrer þu giarnañ, og aangradañ Anda fyrerlijtur þu ecke. HErrañ blessade hier og braut Brauded, og fieck þad Læresveinunum, þetta var ein Almeñeleg Maaltijd, þvi ecke er hier (ad mijnu Vite) neitt talad uñ Sacramented, og ber slijkt øllum vel ad hugleida nær þeir medtaka Guds Gaafur edur Fædslu sijns Lijkama, þvi allt vort Upphellde þiggium.

ium vier af Myſkunar Hende Guds, hverre hañ upplijkur, og ſedur allar lifande Skiepnur med ſiñe Bleſſan: Pſalm. 145. v. 15. Pvi ſkal og ſierhvor ſyrer audmiwka þacklætes Hønd, rietta ſlijkar Gaafur Guds i JEſu Hend, eñ gleipa ecke Brauded ſem Gyrugur Hundur, helldur med Bæn og Bleſsan medtaka þaa Fædu ſem Lijkam̃añ ſkal ſedia og endurnæra; Pu ſkallt og, hvor ſem þu ert, vakta þig ad ſnara ecke dreyſſuglega fraa þier, nie under Fætur, þeim ſmaau Braud⸗Molum, hvar med Skapareñ verdur foraktadur, eñ þvi Forakte ſylger aa epter Hwngur og Olucka. Høndla þvi alltijd vel med Guds Gaafur, og nær þu ert Mettur prijſa hañ, ſo munt þu ei Skort hafa aa hñs Hiaalp; Vert ei Svijnunum lijkur er þau nidurfallande Eple af Eikunum upptijna, eñ til Triesins reña þau ecke Augunum, þeim Svijnum er þo ſaa Madur lijkur ſem þyggur og þackar ecke, ſoddañ Svijna og Hunda Art fordaſt þu. Medtaker þu nu Gaafur Guds ſem þier er ſagt, og aſter þu þeirra i Sveita þijns Andlites froomlega i þiñe Stiett, þa rietter JEſus ad þier og brytur þier þad Braud ſem hañ vill bleſſa, eñ hvør ſem ſtelur ruplar og ræner Braudenu wr añara Hende, hañ maa med riettu ſegiaſt ad medtaka ſoddañ Braud wr Satans Hende, hvoriu ad fylger Bølvan eñ ecke Bleſſan. HErrañ hafde nu ecke Porf þeſſarar Maaltijdar, og ei hirdte hañ um̃ hana, þu ſkallt þo biooda þijnum HErra til
Bords

Bords þu Guds Barn, hvad þu og giorer, so hañ er so gott sem þiñ Bord-Giestur, ef þu sedur hañs þurftuga Lime epter hañs sialfs Bode, hvoriu Myſtunar-Verke þijnu ad þa eptertylger rijkugleg Tijmanleg og eilijf Bleſſan, þvi þad þu þeſſum giorer, reiknar hañ ſier giort vera. Eſ. 58. v. 7. Matth. 25. v. 34. ſeq.

Vid hier greinda DRottens Hondlan, opnuduſt Læreſveinaña Augu, ſo ad þeir þecktu hañ. Af Bleſſan DRottens mætti og chriſteñ Madur ſkynia Guds Nadar Nalægd alltijd, þa ſkylldu þijn Augu opnaſt til ad þeckia Guds Hætign og þiñ Audvirdelegleika og Overduglegleika, Jæ Guds allt og þitt eckert, ef ſo være, munder þu audmykia þig, eñ ecke veſtna i Drambe og Odygdum ſem margur blindur nu giorer, giætande þeſs allijtt, ad Guds eru allar Eigur, eñ vier erum Rads Meñ þeirra margra, er þar af ſkulum Reikning HErranum ſtanda æ ſijnum Tijma.

Ritningeñ ſeiger, ad Adams og Evu Augu hafe opnaſt epter þad þau voru i Syndena fålleñ, þa ſau þau hrygg og hrædd ſijna Blygdan, Gen. 3. v. 7. og Miſſer þeirrar ſoñu og Bleſſudu Guds Myndar, þeynkiande einaſta a Kvolena og Daudañ, eñ ſau ongva Linun nie Harma-Boot. Og þeſſe Synda-Arfur er ſo rijkur med odru Jllu, lijka vel i morgum ſem þo eru af Gude endurfæddder, Luc. 8. v. 13. Ebr. 3. v. 14. ad þeir vilia ecke þeckia Gud af hañs Giæſku, edur audmykiaſt vid

hañs langlundar Gied, margfalldt Epterlæte og Velgiørder, ecke heyra talad uñ Syndena, þvi sijdur beckia hana, þar til þeir eru uñ Koll dottn- er, og Guds Vondur Hwdfletter þa, og sia þe- ir þa stundum so hryggver sijna Blygdan, ad þe- im verdur varla Trw taleñ uñ Guds Nad i Christo JEsu. Psalm. 38. v. 4. Ecke so christ- eñ Madur, helldur þar sem DRotteñ snijr so opt ad þier sijnum Myskunar og Velgiørda Fadme Eina Tijd epter adra, bæde Andlega og Lijkamle- ga, þa lat þier seigiast i Peckingu þijns HErra a soddañ Nadar-Tijd, sem þesser Læresveinar, hvorier hier i Emaus, vid Braudsens Brotnin- gu, þecktu hañ uppriseñ vera, og glødduft Hiart- añlega, sañande þar med, ad JEsus hefde fyrer sijna Upprisu øllum trwudum Guds Bornum andlega upprijsande afrekad eilijfa Blessan og Skrwda Riettlætesins, so þaug skylldu alldrei framar meir Nakeñ finast. Gal. 3. v. 27. Openb. 3. v. 18.

Medañ þesser Læresveinar voru a Reisuñe, og JEsus talade fyrer þeim af Ritningunum, brañ þeirra Hiarta i þeim, sem þeir hier sijdar auglijsa. So skal og sa andlege Guds Orda Elldur, hvo- rn JEsus eirneñ frambijdur þier a þessare þiñe Reisu upptendra i þier þu Guds Barn andlegañ Elld Trwareñar, Gudhrædsluñar, Fagnadar- ens og Kiærleikans, þvi þar sem Guds Ord, er Guds Ord, eñ ecke Mañaña Ord, so hefur þad og

Gudlega

Gudlega Verkun i þeim og þeirra Hiortum er þad medtaka riettelega, og er þeim sem ein Leidar-Stiarna, hvor þeim lyser, so sem hid fegursta Lioos a dim̃um Veige þessarar villugiornu Lyde-merkur, Psalm. 119. v. 105. vermande þaug Is-kolldu Hiortun; Jer. 23. v. 29. Ja þad bless-ada Orded DRottens er Sæde allra Dygda, i hvorium hellst Akre sem þad fær Rwm og Rætur.

O HErra JEsu, hvad kallt og dofed er optsin̄-es mitt Hiarta? Par eru in̄e margfolld Synda og Sorga Myrkur sem þiaa og aangra mijna Saalu, og þau andlegu Augun eru opt æred Sio-on dopur, soddan̄ Lymd mijna aalijttu i Naad min̄ Hiartans HErra, verm þu og gled mitt Is-kallda og soraande Hiarta med himneskum Astar-Ellde og Huggun þijns H. Anda, og laat so þitt Ord og Liooma þijns Andlites sem upplijser Aug-un̄ og þerrar Harmen̄, lijsa mier wr ollum nu yfer-standande Mootgaangs Bylgium og Syndaan̄a Skugga til eilijfs Lijfs, Liooss og Glede. Lære-sveinarner stoodu strax upp, fooru og kun̄giordu sijnum Med-Brædrum sier meddeilldan̄ JEsu Open̄berunar Fognud. Pegar þu snijst þa stirk þu Brædur þijna, sagde JEsus fordum til Pet-urs Luc. 22. v. 32. Pegar vier medteked hofum Sætleika DRotten̄s Naadar og Myskunarrijk-ustu Velgiorda Andlegra edur Lijkamlegra, þa eigum vier ecke ad hallda slijkt fyrer oss einsamla, helldur so sem þæg epterbreitande Born, giora

odrum

odrum hid sama gott af Elsku og Kiærleika sem vi-
er i Trwñe siñum ad JEsus hafe oss giort: Saa
sem af honum er upplijstur, upplijse eirn añañ i
Myrkrum og Villu Sitiande: Saa sem huggad-
ur er, hugge aptur i moot þaa hryggvu, og so i sier-
hvoriu, þvi hid tendrada Lioos, skal ecke setiast
under Mæle-Ask, helldur a Kierta-Hallden,
so þad lijse ollum þeim i Hwsenu eru, Matth. 5.
v. 15. og christnum Mañe byriar ad vera sem fag-
re Roos er gledur adra i þeirra Hrygdum, þvi
soddañ skartar vel. Miñ Gud gief mier þad Hi-
arta og Siñe, ad eg af þier huggadur, hugge
adra sorgande, med hvort Slag sem eg megna, og
þier er Dyrdlegt, eñ þijnum Bornum þarflegt,
so þiñ Prijs af mier wtbreidest alltijd, og i
alla Stade, AMEN.

# XXII. Capitule.

Um Tijmañ a hvorium JEsus kom til Læresveinaña, þa hañ byrtest þeim fyrst i Jerusalem.

ENN seinast er þeir Ellefu satu til Bords, byrtest hañ, og þa er þeir toludu þetta, var Kvolld þess Dags sem fyrstur er Vikuñar.

HEtta Kvolld, sem JEsus byrtest fyrst Sam-
eigenlega Læresveinunum, var þess Dags, a
hvorium hañ hafde sneṁa Morguns upprised, hv-

or Dagur nu er vor Suñudagur, sem aadur er umgieted, a þessum sama Deige hafde hañ byrt sig Mariu Magdalenu, so og Kviñunum til samans, þar næst þeim Emaus Vegfarendum, og sijdañ Petre, eñ sijdast ad Kvollde byrtest hañ hier Læresveinunum til samans, ad ei skylldu þeir hañs til Morgundagsins biida Harmþrwngner, og er slijk DRottens Adferd eingeñ Nyung, hañs Vane er ad koma hvad hellst til siña þegar þeim liggur mest a, nær i oll oñur Skiool er foked, opnast þeim þetta Skiool, þvi þess verdur þa og eirneñ hvad Hiartañlegast leitad, þegar Medlætis og FridarDyr þessa Heims eru Guds Bornum byrgdar hid Ytra, lukast þeim upp Myskunar Dyr DRottens hid Iñra, med Fride og Huggun H. Anda; Þegar Sorg og Daude strijder a Utvortis, þa er hañ med Glediñar Fortolum Iñvortes, haf þvi i Miñe, þu Guds Barn, Kvolld-Veniu Tijma Guds Hialpræðes, eñ þa er Kvolld komed nær mest a liggur. So byrtest þa Gud ad Kvollde vorum fyrstu Foreldrum, og gaf þeim i sarre Synd og Dauda stoddum þa sætustu Hugsvolun um Kviñunar Sæde, sem þaug, og oss alla siidañ endurnærer, Gen. 3. v. 15. Nu synde JEsus þetta Fyrerheit Guds uppfyllt vera, med Sigri sialfs sijns Uppriisu, a þessare Kvolld-Stund, er hañ kom til Læresveinaña, þa var Hoggormsins Hofud sundur mared, og hañ ollum sijnum Her-Klædum sviptur, samt hañs Armleggur sundur broteñ, hvar

vid

vid Saaleñ sig fagnande gledur, þvi JEsu Christi vors Herra Lijf og Sigur, er vort Lijf og vor Sigur eilijflega. A Kvolld-Tijma kom Dwfañ aptur i Orkena med eitt afbroted Oliu-Lauf Blad, af hvoriu Nooe fagnande formerkte, ad Flooded være þverrad aa Jorduñe, Gen. 8. v. 11. Frelsareñ JEsus yfer hvorn sw Himneska Dwfañ H. Ande kom fyrre i hañs Skijrn; Kom hier og aa Kvolld-Tijma til siña Læresveina og færde þeim hid ylmsætasta Oliu Lauf-Blad siñar fagnadarfullu Fridarbodunar. Saa blessade H. Ande kiemur eñ i Nafne JEsu Christi i Hiortu Guds Barna med margt eitt Oliu-Blad Guds Naadar Orda og Fyrerheita, samt Hiartans Hugsvölunar, og þad aa Kvollde Hormungaña, og synande þeim þar med ad Flood Guds grimdar Reide, sie med Floode JEsu Bloods-Kraptar og dyrmæta Sigurs af þerrad, so og ad þeirra Taara og Kross-Mædu Flood, skule hier med Gudlegre Huggun kriddast og yferdreifast, eñ sydañ til fulls af þurkast i þvi eylijfa Fodurlande. Um Kvolld edur Nætur-Tijma kom JEsus til Læresveinaña, þegar Skiped hrakteft um Bilgiurnar i mootvidrenu og huggade þa, Matth. 14. v. 24. seq. So maattu eñ þa kiæra Guds Barn vænta þijns Jesu Naalægdar, aa Noottu edur Kvollde þiña Mootlætinga, nær Bilgiur Freistingaña og Mootvidre ymsra Mañrauna mæter þier; Þegar þu nu sveima þykest i Byrleyse Luckuñar og Holldlegs

Medlætes

Medlætis a soddañ Sorgar Hafe, eñ sier adra sigla fullum Seglum, þa kiemur JEsus til þijn, huggar þig harmande og seiger: Eg em hiaa þier i Neydeñe, eg vil þier þadañ wtrickia og þig vegsamlegañ giora, Ps. 90. v. 15 Þvi ad þroteñe þessare Veralldlegu Glede, uppbyriast sw Andlega og Himnesta, sem ecke er fyrer alla Veralldar Gledemissande, þad munu þeir sijdar saña satt ad vera, sem hier hafa hleiged, eñ þar graata.

Þegar Lijfsens-Kvolld var komed fyrer hinum H. Stephano i Grioot-Hrijdeñe, þa byrte JEsus sig fyrer Opnan Himnaña, standande til Fodursens Hægre Handar, so sm wtbreidande Fadmeñ i moote hañs Saalu, hvoria saa Guds Astvinur hönum eirneñ afhendte. Eins lijka Christeñ Mad ur a þijnu Sijdasta Kvollde, byrter JEsus sig þier, so sem Reidubweñ, ecke einasta ad taka þig wr Grioot-Hrijd allra Veralldar Anauda, helldur og þaa wr dimum Daudans-Hendum iñ a Land Lifande Maña: So bijd nu þa DRotteñs sem komande kiemur og ecke tefur, Hab. 2. v. 3. Medañ hañ dvelur ad koma, er hañ ad tilreida þig ad medtaka sig, so yckar Samfunder verde þvi farsælle og bædum Gledelegre. Seint og Snemma, Jaa ad Morgne, um Middag og Kvolld Opeñberade JEsus sig a sijnum Upprisu-Deige, Hiñ same JEsus wtbreider eñ Hendur sijnar allañ Dageñ, Es. 65. v. 2. So hañ medtake alla þaa, sem sier vilia til hañs snwa; Um Kvolld, Morgna

og Middeige vil eg Kveina og Graata, þa mun Drotteñ heyra mijna Raust seiger David, Ps. 55. v. 18. Eñ O HErra JEsu, þu sem so hefur tiaad fyrre þijna Myskunseme, þeim sem að þier hafa leitad, hvad opt meiga Saaler þiña Turtil-Dwfna kvaka epter þier og bijda þijn, fra einum Deige til añars, fra Morgne til Kvollds-Rockursens, og fornema ecke þijna sætu Huggunar Raavist: O hv ad saart vill soddañ Strijd mæda Hiartad, adsiaa þig ecke, er hid þijngsta Mootkast, ofañ a adrar umkrijngiande Mootlætingar. Eñ mijn Saal, hvar fyrer forundrar þig þesse Bideñ epter þijnum Herra; Orsokeñ er hiaa þier siaalfre, hañ hefur so opt til þijn hroopad eina Tijd epter adra, fraa Morgne til Kvollds, og boded þier ad betra þig, og bæta Illverkeñ, eñ þu hefur daufheyrst, og eckert Ydrunar Andsvar giefed, hallded aafram̃ i Syndena i Glaum og Glede, og audsyndt þañig Priotsku og Fiandskap i giegn þijnum Gude og Herra, Esa. 22. v. 12. Rom. 8. v. 7. 8. Þvi er þad nu meir eñ verdskulldad, O sæte JEsu þo eg um̃ nockurn Tijma meige þijn eirneñ bijda i mijnum Hormungum, Jaa, þo þu laater mig hroopa epter þier fra einu Kvolldenu til añars, þa skal þo ei orvæntа, þvi þar med geingur þu þo ecke i fullañ Reikning miña Misgiorda, hvorn Reikning eingeñ fær stadest, Joh. 11. v. 6. Þijn Myskunseme er so miog breñheit, ad þu giorer ecke epter þiñe grimdar Reide, og snyr þier ecke til ad fordiarfa alldeiles,

hvad

hvad munde añars verda af einum Jardar Orme sem iñdrucked hefur Syndena sem Jordeñ Vatned? Ja, DRotteñ þu sem sagt hefur til vor, vidurkeñ ad eins þijnar Synder, eg vidukieñe þær miñ Gud af Hiarta, og bid uñ Naad i JEsu Nafne, þar fyrer veit eg og ad þu villt ecke leinge offækia þetta visnada Hælm-Straa, þvi þad er eingeñ Prijs þijnu Nafne nie þiñe stooru Myskun þo þvi burt feiker med Storme þiñar riettferdugu Reide i eilijfar Pijsler, þu sem svared hefur ad ei vilier Syndarans Glotun, Ezech. 33. v. 1. Þvi skal nu vona og bijda, þijn Dvöl er eingeñ Naadar Afneitun, helldur miñar Bænar og Trwar Upporvan; O ad eg kyñe þessu alltijd riettelega fyrer mig ad koma, þa munde mijn Ønd þreya audmiwk og þoleñmoodare, helldur eñ opt skiedur, epter Kvollds-Stund þiñe miñ Herra, þvi komer þu ecke fyrre, þa kiemur þu þo a heñe, þesse þiñ Tijme er og hiñ beste Tijme, beste seige eg, þvi þa verdur Mañ fegnastur, nær hañ er sem þurftugastur, þiñ Koss verdur mier þa sætastur, þegar eg er sem særdastur. Eñ O þu Mooder Myskunsamasta! þegar Kered er orded af Hormungum fullt allt a Barma, so mijnum Veikleika tekur ad ofbiooda leingur af ad swpa, lat þu mig þa ecke leinge bijda þiña Naadar-rijku Umskipta, Joh. 2. v 9. Eg vil feigeñ hier epter tilstunda fyrer þijna Hiælp, ad draga ecke leingur undañ mijna Ydran til Kvollds, helldur at medañ þar kallast eñ i Dag, vil eg hvort

Dags Kvolld væta þijna Fætur med Tarum, samanblondudum vid þitt Blood i Trwñe, og midt i þvi Verke wt af sofna, þar til eg skal um̃ sijder, hiedan af þier kalladur, til fulls sofna, og Daudeñ a mijnu sijdasta Lijfs-Kvollde stormar a þetta vesæla Bein-Hws, so hañ þad nidur brioote og Saaluñe þadañ wthyse, hugsvala mier þa O JEsu med þiñe Fridar Nalægd og dreip þa a Saalu mijna þessu Hunange, vert þu hughraustur Sonur þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, so mær Kroppureñ gaa siñ Veg i Jordena, eñ Saaleñ falle, i þiñ Fadm miñ JEsu, sem ert vort Lijf og Upprisa, Joh. 11.v. 25. Amen.

# XXIII. Capitule.

Um̃ JESU Komu ad lucktum Dyrum.

Og Dyrnar voru apturlucktar, þar ed Læresveinarner voru Samañkomner, Fyrer Hrædslu-Saker vid Gydinga.

So sem þad hefur optast vered Venia Guds Almattugs ad koma til siña a Kvolld-Tijmanum, edur ad undergeingeñe Sool Veralldlegs Medlætes, Mañlegra Urræda og Huggunar, þvi Heiler þurfa ecke Læknarans; So er þad og Eitt hañs Tijdkañlegur Hattur ad koma til þeirra ad lucktum Dyrum, lijka sem hier til Læresveinaña. Sa lifande Gud sem skapad hefur allra Hluta

Edle og Naatturu, er ecke Naatturuñe undergiefeû; edr vid hana bundeñ, honum er eckert Ord Omaattugt, og eingeñ Hlutur kañ hindra edur hamla hañs fullkomeñe Fyrerætlan, þess byriar Guds Børnum ad giæta, i hvada Oefnum sem þaug eru stodd, þa nær Gud alltijd til þeirra, þvi hañ er allstadar, og uppfyller Himen og Jørd: Pad bevijsade vor HErra med sialfu Verkenu, i þvi hañ kom hier med Ond og Lijkama i giegnum læstar Dyr, bañ sem og adur fæddest i Heimeñ af Osaurgudu og Ospiølludu Meyar-Lijfe, og uppreis af til-lucktre Grøf, med Iñsigludum Steine, hñ kañ og ad þreingia sier þar iñ, hvar Mañleg Skynseme sier øngva Vegarfærd, sim er medal añars i þær instu Hiartans Rætur, hvadañ hañs Kraptur sier vtdreiser: Slijk Thugan er alla Tijma Ein stoor Glede og Saalar-Svolun. Hier saaum vier aumer Meñ ad dragast med þvngbærañ Daudans Lijkama, medañ Saaleñ hefur þar iñe siñ Bwstad, hvor epter heñar Vidskilnad fær ad snwast i sitt fyrra Verkefne, þvi hañ er Molld, og ad Molldu skal hañ aptur verda og Madka-Fæda, hvoria Job kallar sijna Moodur og Systur, Job. 7. v. 14. Eñ þesse O-rasialege Saur verdur sijdar i Upprisuñe af Guds Almættes-Krapte, fyrer JEsu Upprisu Endurnyadur, Fegradur og Forklaradur, og Saaluñe samteingdur, til ad lifa i Gnoott Fagnadarens hia Gude Eilijflega: Matth. 13. v. 43. Soddañ meiga kallast lucktar Dyr fyrer

Mañlegre Skynseme, eñ er þö Hindrunarlaus Vegur fyrer Guds Almætte, Hvar til soñ Trw seiger sitt Amen.

Auk þessa eru margar til-lucktar Dyr ad fiña, giegnum hvoriar JEsus kiemst og kiemur þo alltijd til siña Astvina, a þægelegum Hiaalpar-Tijma, Opt virdest veikum Mañe, einkum i Freistingunum, ad Guds Hiarta-Dyr sieu hardlega apturlæstar, So þadañ fææst varla Eirn Huggunar-Drope, og seiger þvi med sijnum HErra: Gud miñ, Gud miñ, Hvar fyrer hefur þu yfergiefed mig. Eñ iñañ skams, þa minst varer, upplijkur JEsus soddañ Dyrum, so Madureñ vidlijfgadur, hrestur og Endurnærdur, seiger aptur: Pad Er Fullkomnad, Gud hefur miñ Hryggdar-Seck i sundur-slited, og Hiartañlega ad sier teked mijna Saalu; Es. 38. v. 17. Og hvorsu Ununarsamlega med Tvøfolld um Bæter epteraa, ad JEsus upplwke þessum læstu Dyrum, veit Reynslañ giørst ad seigia. Opt er Mañaña Hiarta-Dyrum i Sañleika apturlokad fyrer þeim er i Eymd, Besolld og Sorgum velkiast, so þar er ecke ad faa Eirn Vægdar nie Vorkunar-Dropa, helldur eñ Vatn af hordum Hellu-Steine, og hvorrar Vorkunar skal Mañ vænta hiaa þeim, sem meir hæda eñ vorkieña, meir bryxla eñ bæta um añara Mañ-Rauner, og giefa Mootlætingum þeirra Olucku Nafn.; Soddañ Satans Nodrur sirdtar ollum Kiærleiks-Taugum, Kiera skarara eñ nockurt Sverd, þvi þeir hafa lært

af sijnum Fodur ad Deyda og Drepa, Særa og Stijnga; Petta giora þeir Daglega sine eigen Sælu, og hælast um þad epterœ, og þvi munu þeir þa hlijfast vid adra? En med soddan Adferd þeirra, bætest opt Eitt a Anad ofan. Lijka verdur Stundum Vina og Nœunga Stoden vollt a Nootgœngs-Tijmanum, Ps. 38. v. 12. So hier er næsta fœtt sem fulltreysta meige, Ja eckert nema Blessad Myskunar-Hiarta Guds, hvors Hond ad medtekur nær Manana Hond burt hrekur; þegar Verollden hefur alyktad og sagt: Ea hefe eckert med þenan Man ad bestilla, þa seiger JEsus, Mier ert þu Velkomen, Pu ert min, Eg þecke þig med Nafne, og þu hefur funded Naad fyrer mijnum Augum: Ad þessu Skioole opnu, maa fara um hinar Dyrnar sem fara vill, JEsus hefur noog Skiool, noog Naad, lijka vel ad upplaata hvoriar Dyr sem han vill fyrer sijnum, so sa Ogudlege maa Stundum þiena Einu Guds Barne a moote sijnum Vilia, So hefur JEsus þessar Dyr upplaated. Vorar eigen Hiartans Dyr eru optsines hard-læstar bæde fyrer siaalfum Gude med Ydrunarleysenu, so þo han a þær tijtt klappe, Openb. 3. v. 20. Fær han þar ecke ine: So og fyrer hans Voludum, þvi maa Lazarus so opt Kaunum vafen liggia fyrer Dyrum wte, Luc. 16. v. 20. Ad bæde er Hiartad og Hwsed lokad: JEsus kiemur ad lucktum Dyrum, og kremur med Krossens Hamre so þad Ydrunarlausa Hiartad, ad þad

verdur ſundur-mared, og þad Medaumkunarlauſa maa læra af Svida ſiña eigeñ Saara ad kieña i Briooſte um̃ adra, og vita ſo hvad þeir hafa ad bera, Grætande ſijdañ med Grætendum. Vort Hiarta, ſeige eg eñ, er ſo hard-læſt, ad þar finſt eingeñ Taara-Drope, eingeñ Andakt, eingeñ Andvarp an, og eingeñ Huggun, þo Hugureñ Hwngradur vilie þetta ødlaſt, hier af kiemur þad þa opt, ad Vonar og Trwareñar-Dyr verda æred naumar, ſo Hiartad veit ecke hvad uppa ſkal ſlaa, edur til Bragds taka; Midt iñ i þetta Voſundar-Hws, kiemur Mein-Booteñ Bleſſadur JEſus, Myker, Vokvar, og Huggar Hiartad, ſo þad Endurnæreſt af Yl hañs Aſtar og Anda, og kiemſt ſo til Rooſegheita. Jaa miñ JEſu, þig kañ eckert ad hindra, og ecke Synder mijnar, ad koma til mijn, Rom. 8. v. 38. ſeq. Pegar eg fæ þa Naad ad eg gyrneſt þig af Hiarta, og hvoriar hellſt Dyr ſem mier opnaſt til Lijfs edur Saalar-Nota, til Tijmañlegra og Eilijfra Giæda, þa eru þær mier af þier opnadar, þu Bleſſade Lioosſens og Lijfſens Fader, hvørs Elſku-Elldur ad alltijd er breñande, hvørs Huggunar-Bruñur alldrei þrytur þeim Hryggvu, Eſ. 55. v. 1. Og þo aller adrer gleyme mier, þa gleymer þu mier alldrei, og ei muntu nockurn Tijma fyrer mier læſa þijnum Myſkunar og Naadar-Dyrum, i hvorium hellſt Preyngſlum ſem eg er ſtaddur, þa nær þijn Naadar-Hond alltijd til mijn, So hefur þad vered, ſo mun þad verda eins

a Noott sem Deige. Og so sem þu hefur marga Hiaalp og Medaumkan veitt mier, so bid eg þiñ H. Ande stioorne mier, Myskun ad veita þeim eg a og kañ ad biarga med Ord edur Verk, so hvorke fiñest Hondur, Hws, nie Hiarta, læst fyrer þijnum Vol udum Saudum, helldur hier epter alltijd oped fyrer þijnu Bode og Blessudum Vilia, eñ hard-læst fyrer Diofle og hreckviisum Heime þessum, samt Hollds og Bloods Gyrndum; Þu gafst mier þitt Myskunar-Hiarta, þier gief eg aptur mitt Hiarta, soddañ Bijte eru hin bestu, laat mier so opnar Dyr Eilijfs Lijfs a Dauda Stunduñe, ad eg med ollum Utvoldum odlest þad Himneska Dyrdareñar Heimkyñe. Þess skalltu og giæta mijn Saal, ad þa JEsus var iñkomeñ ad lucktum Dyrum til Lærisveinaña, þa stood hañ; Adur felldu hañ Synder vorar i Pijnu og Pijsler, i Daudañ og Loksens i Grofena, Nu er hañ med Veglegum Sigre uppstadeñ, og stendur sem Hetia hia þeim Hræddu, Huggareñ hia Hryggvum, Vidriettareñ hia Follnum, Lækhereñ hia Siwkum, Læremeistareñ hia Faavijsum, Verndareñ hia Offooktum, Hirdereñ hia Saudunum, og Lijfed hia Daudum. A soddañ Hatt vill JEsus eñ standa hia ollum þeim sem a hañ trwa, þvi hañ er med þeim alla Daga allt til Enda Veralldar, Matth. 28. v. 20. Falle eg nu aumur Eitthvort Siñ under Krossens-Byrde, edur (sem opt skiedur) i Syndina, Jeg skal þo gledia mig vid miñ JEsum sem hia

mier stendur og vidrietter mig, Jaa, þo Dioful og Heimur binde siin Raad samañ mig ad fella, og mier fyrerkoma, Eg vil þo samt Okvijdeñ vona aa JEsum, hañ mun mig Aumañ stirkia so eg faae sigrad i hañs Krapte. Hitt aangrar mig og hrædꝛ er optlega, ad eg hefe auked þier DRotteñ miñ, Mein og Mædu med mijnum Jllgiordum, og þad eg eñ so tijtt Stygge og hrygge þig miñ Frelsare, Eg vil feigeñ raada Boot vid slijku, eñ mijnum Veikꝛ leika og Vanmætte væge þijn Giæska, sem veit af hvoriu Verkꝛ Efne eg er, Eg vil af ollu Hiarta i Trw og Packlæte þier þioona, Eg vil gledia mig midt i mijnum Eymdum vid þiñ Sigur aa Diofꝛ linum og ollum hañs Her, hvorn þu hefur Footum troded, þar fyrer Lof sijnge þier Einglar og Meñ, og allt hvad er og heiter aa Himne og Jordu,

AMEN.

## XXIV. Capitule.

Uñ þad ad JEsus stood i Mided.

OG JEsus kom sialfur, og stood i Mided þeirra, og midt aa medal þeirra sagde hañ þeim.

MJded hefur alla Tijd veglegur Stadur vered halldeñ og hid hædsta Tignar Sæte, þañ Sess hafa opt wtvaled þeir mestu Magtar Meñ, eirneñ hafa þeir Yppurstu Hluter þar Stadar numed: A Festingarꝛ Himnenum er Sooleñ i Mided hiaa

Plaanetunum: J Mided var Lijffsens Tried i Edens Aldengarde: Alltijd er Mañdygdeñ i Mided: Hiartad Mañsens er midt i Brioostenu; Og Medalhoofed a alltijd ad aktast og vardveitast, þo oss þad næsta ersidt veite, þad hindrar Satan sem mest hañ maa, i Syndeñe leitar hañ vid ad giora oss añadhvort ofhughrausta, edur of Orvæntingar fulla, so ad a einhvorn Haatt skule Paankarner plaaga oss, lijka vel til Dauda; Petta vill hañ, añadhvort vier giora skulum ofmiked edur oflijted af flestum Hlutum. JEsus hefur ratad fyrer oss alla Medalhoofed, bætt og uppfyllt med siñe Fullkomnan allañ vorn Ofullkomlegleika, hvar sem vor Saal sier til hañs, edur skignest epter honum, þar er hañ alltijd i Mided. Ef þu skignest epter honum a Himnum þa er hañ þar Mid-Persoonañ þeirrar Haablessudu Guddoomsens Preñingar i þeim eina og eilijfa Guddoome, þvi þrijr eru þeir sem Vitnesburdeñ giefa a Himne, Fadereñ, Orded og H. Ande, og þesser þrijr eru eitt, 1. Joh. 5. v. 7. Par a Himnum er JEsus eirn Medalgangare mille Guds og Maña, 1. Tim. 2. v. 5. Par er hañ sa Himneske Aaron med Reikelses Kier siñar dyrmætrar fyrer-Boonar, vilie Gud med Reideñar Sverde, Syndaranum nidur hrinda til Helvijtis, þa fellur JEsus i Fodursens Faang med siñ Betaling og bidur Vægdar, þar med fær Syndareñ Lausn. Eñ skignest þu epter JEsu hier nidre a Jorduñe, þa sier þu

hañ þar eirneñ i Mideð. Midt a millum Betle-
hems Borgar Iñbyggiara fæddeſt hañ. A mid-
re Noottu vard Fiaarhyrdurunum bodud hañs
Fæding af einum Eingle, Luc. 2. v. 8. ſeq. Mid-
le margþuſunda Himneſkra Her-Skara, aud-
ſynande, ad hañ ſie midt i Myrkrunum Boot
Syndaña, Mær fyrer Haaſkanum, og ſaa er
Hiartanu Hæge, þvi lyſe, og þad hugge, nær þad
ſveimar a Sorgaña Hafe og Auguñ væta Sæng-
ena med Taarum: 12 Ara var hañ i Mideð hiaa
Lærefedrunum i Muſterenu hvar hañs Guddooms
Vitſka lioomade med Forundran adra uppfræd-
ande, Luc. 2. v. 46. Hvar med hñ helgade og bleſſ-
ade ſoddañ Lærdooms og Menta Samkvæme, og
ſynde ſig ad hafa aa þvi alla Velþocknan, nær þad
þienar hañs Dyrd og Uppbyggingu hañs Chriſt-
ne. Johañes ſaa og JEſum midt a medal þeirra
ſio Gullegu Liooſa-Stiaka: Apoc. 1. v. 13. So
er hañ og eñ midt i Samkundum Guds Barna,
þvi hvar tveir edur þrijr eru ſamañkomner i hañs
Nafne, þar vill hañ vera midt a medal þeirra,
Matth. 18. v. 20. Hañ ſu bleſſud Riettlætes So-
oleñ, er a þeim andlega Feſtingar Himne chriſteleg-
rar Kyrkiu midt a medal Stiarnaña, ſiña Ord-
ſens Pienara, hvorium hñ ecke ad eins helldur i ſiñe
Hægre Hende, þad er Verndar og Vardveiter, ſo
hvor þa ſnerter, ſnerter Siaalldur hañs Auga,
helldur og leggur þeim ſitt Ord i Muñ, Eſ. 51. v.
16. Og hñs Ande talar fyrer þaa, ſo Lijſſens Fo-

ur meddeilt verde hans Saudum, er afvende eilijfu Hwngre. J Pijnuñe var JEsus kvaleñ, midt a mille tveggia Ræningia, Joh. 19. v. 8. Nær hañ afskoof þa Handskriptena sem i moote oss var, og i Setningum var huleñ, og oss gagnstædeleg, og feste hana med sier a Krossen, Col. 2. v. 14. Og fañ eilijfa Endurlausn ollum þeim sem a hañ trwa.

Hier epter sijna Upprisu stood hañ midt a med al Læresveinaña, ongvum of fiærre, helldur ollum so nærre ad aller þeir mættu hafa Hlutdeild i honum og hans Forþienan, Petur hafde ad soñu mest syndgad med siñe Afneitan og Eide, eñ þess miñ test nu JEsus ecke, hañ var honum eins nalægur sem hinum Læresveinunum, so ert þu, O miñ JEsu, mier aumum eins nalægur, þo eg sie hiñ stærste Syndare ef eg ad eins sny mier til þijn, fyrer saña Ydran, so sem þeim heilagari og betri eru, þvi þu leitar giarnañ ad tyndum Saudum, og ert komeñ Saaluhoolped ad giora þad sem tapad var, þijn Vægd bregdst ecke veikum, og Myskun þijn sneider ecke hia þeim aumu, þvi þessara Glotun villt þu ecke; Pvi skal þad mijn Huggun hvar sem eg er staddur, hafe eg þig miñ DRotteñ, þa hirde eg hvorke um Himen nie Jord, eda hvad þau boda mier, Ja, þo ad eirneñ mitt Lijf og Saal vanmegnest ert þu O JEsu alla Tijma mitt Hiartans Traust og Hlutskipte, Ps. 73. v. 26. Miñ Ovinur er Syndeñ, hvoria eg (a þvi verr)

giore

giøre mier ad Vin, opt vitanlega, optar ovitan-
lega, hun vill fyrst raada ofmiog, eñ siidañ fordæ-
ma, þar geingur þu aa midle, og tekur mig wr
þessum hørdu Bondum, syner mier ad soñu Guds
Reide i giegn heñe, eñ þo strax aptur þitt Riettlæ-
te sem sie miñ Betalingur, Skyllda mijn er þad
þvi ad elska þig, þar þu hefur mier so margt og mik-
ed Jllt uppgiefed, og ecke geinged i Doomeñ, eñ nu
ad þessum Ovin yferuñum, er øll Magt añara
miña Saalar Ovina wti og endud, bæde Logmaal-
sens, þvi aa moote þess Bolvan, ert þu JEsus mi-
jn Blessan. Daudeñ er beiskur, eñ moote hañs
Beiskleika, ert þu JEsus miñ Sætleike. Diøf-
ulleñ er falskur og aasækeñ, eñ moti hønum ert þu
JEsus mijn Vernd og Vøktun. Verølldeñ er
hørd og hreckvijs, eñ moot heñe ver mig Almaatt-
ur, Vitska og Sætleike mijns JEsu, soleides er
nu JEsus millum mijn og þessara, og þo so langt
og vijdt villde koma ad eingeñ Madur villde edur
kyñe koma mier til Hiaalpar, nie hræra siñ miñsta
Fijngur mier til Adstodar, so mijn Saal og Hiar-
ta være olldunges af Hørmungaña Vatne umflot-
id, Jaa, þo Meñerner þar a ofañ, legde allt mitt
Maalefne wt a Falskañ og Rangañ Veg, so sem
Job yfer klagar, Job. 13. v. 4. Þa er þo JEs-
us mijn Hiaalp, hañ bæde kañ og vill samt vera
hiaa mier, so slijkt allt hafe ongva Neyd, þvi hvad
sem aangra vill, þad verdur þo ei ad Angre þegar
JEsus huggar. lijkasem þa Elldureñ villde breña
þar

þar þriar Sveina i Babylon, eñ gat ecke brent; Soddañ Sikur ſeter allt Mootlæte, þvi hvar Gud er med, hver kañ þar i moote? Rom. 8. v. 31. Miñ Gud, mitt Hiarta er Mid Partur mijns Lijkama, eg bid þig af þeſs Inſtu Rootum (þu veitſt þad er mijn Alvara) ad þu vilier þar bwa, þvi bwer þu þar, ottaſt eg eckert, og vil aungvu kvijda, O þu lioomanda Lioos! O þu Umuſteñ ſætaſte Saalareñar! O þu Athvarfed elſkulegaſta, oruggaſta og trwfaſtaſta i øllum Naudum! O þu bleſsada Lijſſens Eik! Lys þu oſs i þeim ſijduſtu Daudans Myrkrum, fadma oſs i þeim Fiørbrotum, hlijf og vernda oſs i þeim hætta Bardaga, lække þa Lauf-Bloden þijn, øll andar Saareñ, og leid oſs af þijnum Sætleikans Sadning endurnærda i eilijfar Tialld-Bwder Fridarens wr þeſſa Heims Her-Bwdum, Amen.

# XXV. Capitule.

## Um Chriſti Fridar-Bodan.

FRIDUR SIE MED YDUR. ÞAD Folk ſm gieck i Myrkrunum ſier Eitt mikid Lioos, og yfer þeim ſem bwa i myrkvu Lande ſkijn þad klaart ſeiger Spaamaduriñ Eſajas, Eſ. 9. v. 2. þo hañ tale hier ſierdeiles um Heidingiaña Uppbyrtingu og andlega Kallan til Trwareñar aa JEſum Chriſtum, þa meiga þo lijka þeſſe Ord naa til hier greindrar bleſſadrar Fridar-Bodunar DRottens; Hier kvikte ſaa bleſſade Lioosſens

Skap-

Skapare, og sialfst Lioosed JEsus Christur Eitt hid mesta Stoor Lioos hia sijnum Lærisveinum i Hrygdaña Myrkrum stoddum.

A JEsu pijnu Tijma, og þar epter, mattu þeir i veikleika sijnum seigia sm̃ Job, eg vonade epter Lioose, og sia þar var Myrkur, Job. 30. v. 26. hvoriu og samsiñtu þeir Emaus Reysu-Meñ seigiande, VIER VONUDUM AD HANN MUNDE ENDURLEYSA ISRAEL. Nú satu þeir i Sorga og Vantrwar Myrkrum, Ja, a þessu Kvolld-Rockurs Hwme, sveimudu þeir eirneñ i Hrædsluñar Diñu, meinande ad sier munde þa og þa Vopnlausum Vode og Oſsookn bweñ af Hende siña Ovina, þeir hofdu og adur i Natt-Myrkrenu, þa JEsus var faangeñ, hañ yfergiefed og fra honum flwed, so mattu þeir nu og i Saarum Kvijda Samvitskuñar sijta og grata, midt i ollum þessum Myrkrum, so hier voru a Ferdum Andleg og Lijkamleg Myrkur under eins, Ja Myrkur mattu hier sijnast Iñvortes og Utvortes Yfer Under og a allar Sijdur, so sem þeim sijnest opt eñ, sem vidlijka eru stadder og þeir voru nu, þvi nær so er astatt, heiter þad so sem David seiger, eingeñ Heilbrygde er i mijnu Hollde fyrer þiñe Ognan, og eige nockur Fridur i mijnum Beinum fyrer sokum Synda miña; Psalm. 38. v. 4. Hier vard og eingeñ til ad lietta þessum Myrkrum fra med neirnre Fridar-Vodan, so þeir giætte sier þad i Nyt fært vegna veikleika Trwarñar,

eñar, og Hrygdareñar Yfergnæfanlegleika, so þeir sem þar til sender voru urdu þeim Mæduſam-er Huggarar, so sem ſtundum er lijka tijtt vor a medal, so hier er (ad mijnu Vite) hiñ lioosaſte Speigell ſorgande og aumſtaddra Maña Yminda-ar.

Til þeſſara so aumſtaddra og ſæræadra Sauda kom nu Lækncreñ DRotteñ JEſus Chriſtur, ecke ſærande þad ſærda med nockrum Hardendum edur Straffe (ſem opt er tijtt i þeſſum Heime) helldur med ſætre Fridar-Bodan til þeirra Fridlauſra, af hvørre hañs Myſkunarrijkre Hondlan, vær ſem mier hun i Hug kiemur mier alltijd ſtendur ein lifande Huggun, þvi JEſus er hiñ ſame og hañ var þa, Ja hiñ ſame allt til Eylijfdar, Ebr. 13. v. 8. hañ giefur ad ſoñu allañ riettnefndañ Frid og Farſælld, so Andlegañ ſem Lijkamlegañ ſo Jardneſkañ ſem Himneſkañ, hañ lætur ſitt Fridar-Bod i Fridarens Evangelio Skiært hliooma, og framberaſt af fiollda ſiña Fridar-Bodara, hvørt (ad ſoñu) alla chriſtna ſnerter, eñ þo ſierdeiles hrwngrada, edur ſturladar Samvitſkur i þeirra Sorgar-Bondum, eñ ſamt hrijfur þeim þad ecke nema JEſus predike Jñvortis i Hiartanu, nema hañ bode þar Frideñ, og hugge ſiaalfur þad ſorgande Hiarta; 1. Joh. 3. v. 20. Þeſſu er ælijka vared og fyrer Jacob, þegar Syner hañs ſogdu honum ad Joſeph lifde, hañ hugade allt añad, og kom þvi ecke fyrer ſig ad þad være ſvo, þar til

hañ

hañ heyrde Joſephs Ord og Sat Vagnána, þa lifnade hañs Ønd ſo hañ ſagde, þad er mier noog ad miñ Son Joſeph lifer. Gen. 45. v. 28. So og vid JEſu Iñvortis Fridar Bodan fierdeilis, gledſt Hiartad og Sæleñ Endurlifnar. JEſu Fridur er ſw Hyrdſla ſem oll Himneſk Audæfe hef ur ad geima, hañ lietter af oſs Syndaña Byrde, hañ ſtiller Orooſeme Samvitſkuñar, hañ dyrker oſs ad forakta Dioſuleñ, hañ gledur oſs i Hormungunum og Offooknum Heimſins, hañ giorer Daudañ Sætt ſmackande, hañ flitur Hiartad medañ þetta Liif varer til JEſum i Hædena eñ Saalena ſiidañ Iñ i Land lifendra. Þegar nu þar fyrer þeſſe Tvo Hioon, Sturlan Hugarens, og Fridur DRottens, ſænga ſamañ, þa verdur þar næſta Fagnadarſom Hioona-Sæng, þvi JEſu bleſſadur Bloods Kraptur, ſm er allra Meina og Mædu Boot, laugar, bleſſar og hreſſer þa þeſſe Hioon, hvor hañ hefur ſamañ viigt med þeſſare ægiætu Viigſlu-Predikun, Sæler eru þeir ſem harma, þvi þeir ſkulu huggader verda. Matth. 5. v. 4.

Þad Sorglega Synda-Brot vors Fyrſta Fodurs Adams ſirdte oſs ollum Fride, Blydu og bleſſadre Vingan þeſs eyliifa Guds, þar af hafa ſiidañ ſprotted oll Synda og Sorga-Myrkur, Ytra og Iñra yfer oſs diniande, þad Dauda-Mein mætte eingeñ bæta, neina bleſſadur Fridar Hofdingeñ JEſus, Eſ. 9. v. 6. af hvors Fyllin-

gu vier høfum feinged Lausn, Naad og Frid vid Gud aptur, Rom. 5. v. 1. Eñ þad mætte hañ so dijrt kosta, ad hañ vard siælfur þar fyrer Fridlaus ad verda, og af Gude Yfergiefeñ, Marc. 15. v. 34. so vier nædum i hønum og fyrer hañ þvi Eylijfa Fridar-Hnosse, Eph. 2. v. 14. þar fyrer veitest oss eirneñ hier i Heime so margur Aftar-Koss lifanda Guds, og so mørg Hægd og Stilling æ Samvitskuñar Hugar-Vijle og ymsum Sorga-Myrkrum. Jæ fyrer oss afrekadañ Frid vors Frelsara, er nu Gud vordeñ vor æstrijkur Fader, og kañ ecke framar ad fortæra oss i Loga siñar Reide, edur Fridlausa Synda Ressing æ oss ad leggia, þvi hañ Reideñar Blossa, hefur hañs Elskulegur Sonur JEsus slockt med þvi Bloode og Vatne sem Ut-rañ af hañs Hiarta. So skal þa slijkt Fridstilla vorar Samvitskur; þvi seig mier Guds Barn, hvijlijkur er þesse JEsu Fridur? Hañ er Olijkur Veralldareñar Fride, Joh. 14. v. 27. þvi heñar Fridar-Bodan skal eingeñ Madur trwa, edur lijst nockrum þad Fridur, ad kyssa og bijta under eins, so sem heñar er Vane til? Eñ JEsu Fridur er eirn Stadfastur Fridur, þar er ecke Eitt i Dag, Añad æ Morgun, þvi Jafnvel þo hñ laute þig i Dag, siña til þess Himneska Sætleika, eñ æ Morgun til Beyskiu Helvijtes Angistar, þa er þo þad Sijdara eingeñ Fridar-Roskun, helldur Stadfesting hañs Fridar yfer þier: Med añ vier erum i þessum Ofullkomlegleika, þa gierer

Sætleiken oss yfred glada, af hvorre Glede vier giørunst stundum hofmooduger, og meinum oss øllum sælle, og Gude þægelegre, en so ad þesse andlega Drambseme fære ecke Osdiwpar Rætur oss til skada og Fordiørfunar, þa sender Gud oss hitt til Handa, uppa þad vier sieum Lytelæter og Otasleigner, þvi þa verdur betur verkud Sæluhialpen. Po St. Paall være i Pridia Himen Uppnumen, 2. Cor. 12. v. 4. þa mætte han þo þar hia sleigen verda af Andskotans Eingle, v. 7. og so hefur þetta geinged og geingur en optsinnes Guds Vinum, þvi sagde Eg ad þetta være DRottens Fridar Stadfesting en ecke Roskun. Verolld' en helldur þad Frid, þegar hvørke er Siwkdoomur, Fatækt, Olaan, edur Utvortis Ovinur, og allt leikur i Lynde; En Christi Fridur er þar i Jnnefalen, ad nær Madur er umkriingdur af Syndenne, Daudanum, Dioflenum, Verolldenne, samt ymsum Ovinum og Mootkaste, en er þo samt fyrer allt þetta i Christo JEsu gladur, Hughraustur og Oruggur i Hiartanu; 2. Cor. 6. v. 9. 10. Þan Man kalla eg i Hædeges Stad. En christen Madur, vilier þu verda JEsu Fridar, hier og Siidar eilijflega niootande, þa varastu han af þier ad briota med vijsvitande Ydkun Syndanna, edur Ydrunarleyse og Vantrw, helldur stunda þu ad hafa daglega Frid vid Gud, fyrer hreina daglega Ydran, so og Frid vid þinn Samchristen svo myked sem mögulegt er, þvi hvørier hellst Friden

hata

þata, og þyker liett og lijted hønum ad raska, þeir eru aa Veige Gløtunareñar, og eru riett kallader Her-Meñ Andskotans, þvi þad er Art Oguðlegra, hvorier ad hafa øngvañ Frid, so sem DRottøñ seiger hiaa Spaamañenum. Es. 57. v. 21. Eg hefe mijnum trwfasta JEsu þvi optlega lofad, eg vil þad og fyrer hañs Hialp Hughraustur efna, sem er ad strijda vid Synd Dioful og allt hañs Herlid; Eñ, O JEsu, laat oss alla þijns Fridar og Frelses niotande verda fyrer Saal og Lijf, og leid sijdañ hier fraa med Fride i eilijfañ Frid, AMEN.

# XXVI. Capitule.

Um̃ þad ad JEsus synde Læresveinunum sijnar Hendur Fætur og Sijdu.

EÑ þeir skielfdust og urdu hrædder, meinande sig siaa Anda nockurn, og hañ sagde til þeirra: "Þvi erud þier so skielfder, og þvi uppstijga sooðañ Þaankar i ydar Hiørtum? Siaaed mijnar Hendur og mijna Fætur: Þad eg em þad siaalfur, þreifed aa mier og siaaed: Þvi Ande hefur hvørke Holld nie Bein, so sem þier siaaed mig hafa. Og þa hañ hafde þetta sagt: Synde hañ þeim Hendur og Fætur og sijna Sijdu; Þa

urdu Lærefveinarner glader ad þeir ſaau Herrañ.

AF þeſſu Dæme Lærefveinaña er auglioost, ad Mañeſkiañ ſie af Natturuñe Ottafull og Hræ-dſlugiorn, og er þad ſem hvor añar Veikleike, eirn Arfur fra Adam komeñ, hvor lijka vel heimſookt he-fur þa froomu og Gudhræddu, hvorium þo Sam-vitſkañ good er daglegt Sælgiæte og Hugar-Hreſſ ing, ſamt hefur þeim þad tilfalled optlega, eñ þo la-ngt odruvijſe eñ ogudlegum Moñum, hvorra Ott-aſeme ad velldur ecke einaſta Yſtodulenſe Nattur-uñar, helldur og þad, ad þeir eru ſier ſo margrar Vondſku og Glæpa medvitande, hvarfyrer Salo-mon ſeiger ad þeir flye þo eingeñ ellte þaa, Prov. 28. v. 1. Jaa, þeir hrædaſt hvert þiootanda Lauf-Bl-ad, Lev. 26. v. 17. Gudhræddra og froomra Ma-ña Otte er þar i moot eirn Sonarlegur Otte, og ſo ſem David ſeiger: Þiooned DRottne med Otta, og gledied ydur med Skialfta, Pſ. 2. v. 11. Vid þeñañ Hrædſluñar Veikleika, maa þo kañſkie mar-gur beriaſt lijka ſem hvoria adra Saara Freiſtinga Aſtrijdu, ſem maſkie virdeſt ad vera lijtelvæg epter Maña Doome, eñ er þo reyndar mikel, þvi þad er miked ad forgleima Gude og vantreyſta honum, hvad þo opt ſkiedur ofhræddañ Mañ, þvi ſeiger DRotteñ hiaa Eſajam, Eg, Eg er ydar Hugſv-alare, hvor ert þu þa ad þu hrædeſt fyrer Moñum þeir ed þo deyia, og Mañaña Bornum ſem fortæraſt ſem Hey, og forgleima DRottne þe-

um sem þig hefur giort, Esa. 51. v. 7. Jaa, þad maa satt kalla sem Seneca seiger hier um̃, ad eckert sie vesællanie heimskulegra en̄ siiselldur Otte, og þad oruggasta sie ad hrædast eckert nema Gud. Eitt veit eg, og þvi trwe eg, ad so framt eg leitast vid ad fordast oskickanlega Hrædslu, þa reiknar Guds mijns Myskun mier ecke mijna Hrædslu fyrer Synd, helldur giefur mier Hluttoku i þessu Orde, sæll er saa sem alltijd er uggande, en̄ sa sem hardsvijradur er mun falla i Olucku, Prov. 28. v. 14. Læresveinan̄a Otte orsakadest þar af, ad þeir meintu sig ad siaa Anda nockurn. Þar af er merkiande ad Andarner edur þvilijkar Siooner, eru til, hvad og vijdar ma siaa af Skriften̄e, og eru þa þesser Andar an̄adhvert gooder edur vonder. Þar af eru gooder Andar þeckianleger, ad þeir aamin̄a og upphvetia til Gudlegra, leifelegra og Soomasamlegra Hluta, er þiena Gudhræddum Mon̄um til Huggunar og Saaluhiaalpar. Þeir vondu þar a moote, upphvetia a einhvorn Haatt til Ogudleika, Hiaatrwar, Villu, Lyge, Vanheidurs og an̄ars þvilijks Ills. Marger in̄birla sier, ad Siooner og Fyrerburder, sieu daudra Man̄a Saaler edur Lijkamer, þar mæler þo Guds Ord i moote. Gudhræddra Saaler kun̄a þad ecke ad vera, þvi þær vid Lijkamena skilldar, eru i Hende DRottens, Ps. 31. v. 16. Sap. 3. v. 1. Ei helldur vondra Man̄a Saaler, hvi þær sara til Helvijtis, Ps. 55. v. 16. Ps. 49. v. 15. Hvar Dauden̄ nagar þær;

og hvort hellſt ad Eikeñ fellur þar liggur hun, Eccle. 11. v. 3. Ecke helldur kuña þad ad vera Lijkamer Gudhræddra, þvi þeir hvijla i ſijnum Svefn-Hwſum, Eſ. 26. v. 20. Apoc. 14. v. 13. Ei helldur Lijkamer Ogudlegra, þvi þeir koma ei aptur i ſitt Hws, og þeirra Stadur þecker þaa ecke framar; Job. 7. v. 10. Og Madkar og Ormar fortæra hvorutveggium, Syr. 10. v. 12. Þvi maa hier af ſiaaſt, ad þeir giete ecke vered hier reikande. Og ſkillde þad ſo vera, þa yrde þad ad ſkie, añadhvort af Guds Skipan; Edur þeirra eigeñ Fyrertekt. Af Guds Skipan ſkiedur þad ecke, þvi þad kieñer oſs hvørge Ritningeñ, miklu helldur er hun þvi moótſtædeleg. Ecke helldur af eigeñ Vilia: Ad hvorttveggia ſie ſatt, ſyna oſs Ord Abrahams til þeſs rijka, a medal vor og ydar, ſeiger hañ: Er miked Diwp ſtadfeſt, ſo ad þeir ſem hiedañ vilia fara nidur til ydar, gieta þad ecke, og þeir ecke fraa ydur upp til vor komeſt, Luc. 16. v. 26. Vier meigum ecke kaſta þwngum Steine aa Læreſveinana, fyrer þad þeir hræddust hier hiñ beſta Vin og bleſſadañ Fridarbodara JEſum, þvi þeir hræddust ad ſeñu hañ ecke, helldur ſyna rongu Jñbirling. Kome JEſus til vor med Kroſſeñ; þa ſkielfuñſt vier opt næſta, og hvor af oſs tekur gladur og fagnande i moote ſoddañ? Samt verdur þvi ecke neitad, ad ſoddañ Hrædſla kemur af Vanþecking og Trwar-Veike. JEſus a alltijd ad vera oſs velkomeñ, um hvoriar hellſt Dyr

sem hañ kiemur, hvort helldur um̃ apturluktar Sorgar Dyr, edur opnar Glede Dyr, vier eigum ad varast ad rietta oß of miøg epter vorra eigeñ Jñbirlingum, edur hallda fast uppa vora eigeñ Pæanka, a hvoriu Skere þo margañ flæder, so ad þeir trwa þeim opt framar eñ siælfum Gude, fyrer slijkt ævijtar Lausnareñ hier sijna Læresveina, og under eins ææmiñer alla oß ad vier stunda skulum Andlega Hug-Dyrsku, i þvi ad biooda Traaß Hollde, Heime og Diøfle, vitande ad hañ er dæmdur, og med oß hefur hañ eckert, helldur eñ med vort Høfud JEsum Christum, hvar fyrer hañ seiger til vor: Ottast ecke, eg em med þier, vijk þu ecke þvi eg em þiñ Gud, eg stirke þig, hiælpa þier, og helld þier vid fyrer þa Hægre Hondena mijns Riettlætes, Esa. 41. v. 10. Eñ fyrst hañ er med oß, hvør kañ þa ad vera a moote oß, Rom. 8. v. 31. Vier eigum sem hlijdeñ Børn ad læta oß seigiast i þvi ad trwa ecke of miøg Hollds Skilninge og Jñbirlingum vorum, og høfum þær ecke fyrer vort Evangelium, svikular og æ kalldañ Klaka leidande.

Herra JEsu forlæt mier mijna otierlega Hrædslu og lykna miñe Trwar-Veike, gief ad eg trwe þier og þijnu Orde, græte mijn Synda Sæar, og glediest af þeim Grædslu Medolum er þu þar vid leggur, hvørt þau Holldenu swr edur sæt siñast, so mun þijn Miskun a hagkvæmum Tijma, hugga og endurnæra mitt hryggva og Nædþyrsta Hiarta, er Tijdum længar epter þier DRottеñ mitt Hiælp-

ræde. Nu O JEsu barst Saaren a þijnum fot-klarada Lijkama, til þess ad næra þijn veiktrwud Born med þeim og þeirra A-Dreifingu; Eñ eg mun fyrer þiña saara Skulld ecke bera mijn Saar leingur eñ til Daudans, þa veit eg þaug læknast ad ollu leite, þar vid gled eg mig opt, Jaa, so opt sem eg sie, hvorsu ad hier vill ein Sorg, eitt Saar odru filgia. Eg fæ og midt i þessa Heims Mootgangs Bilgium, ad þreifa Andlega a þijnum blessudu Saara Orum. Nær Hollded vill hafa siñ Vilia i Syndeñe, byrtast opt Hiartanu þijn Saar og seigia til mijn, hugleid þu þesse Saar, villt þu nu ysa þaug upp aptur, er so saart eitt Siñ svidu þiña vegna? Villt þu nu krossfesta þiñ JEsum ad nyu? Af soddañ Sioon og Tillite, gie'st mier opt Orsök af uppbyriudum og aformudum Synda Veige, grætande aptur snwa. Ad giordre Syndeñe midt i kvalning Hugarens, hefe eg feinged mier til Heilsubootar, ad siaa eirneñ þesse þijn Saar miñ Herra ysred opt, einkanlega þitt Hiarta Saar, er þu hefur þessu ad mier hvijsslad, laat af, og vert Hughraustur Sonur, eg vil ecke þijna Glotun, eg man til þijn, mijn Elska og Myskun er so breñheit, ad eg vil ecke giora vid þig epter miñe Grimdar Reide, eg hlyt ad vægia þier og vera þier Myskunsamur, til þess þreinger mier mijn breñande Hiarta Elska.

J Freistingunum skyna og þesse Saaren skiært fyrer Augunum, Openb. 3. v. 10. Nær eg i

Ong-

# XXXII. Capitule.

Um Trwar-Stirking Thomæ Postula.

THomas svarade og sagde til hans: DROTTENN MINN OG GUD MINN. JEsus sagde til hañs: Af Pvi Pu Sæist Mig Thoma Trwder Pu, Sæler Eru Peir Sem Ecke Siaa Eñ Trwa Po. Morg oñur Teikn giorde JEsus i Augsyn siña Læresveina, hvør ad ei eru skrifud i þessare Book, Eñ þetta er þvi skrifad, ad þier trwed, þad JEsus sie Christur Sonur Guds, og ad þier so Trwader hefdud Lijf i hañs Nafne.

NÆR ed þitt Ord DRottiñ þad Opeñberast, þa gledur þad og giorer viisa þa Einfolldu, seiger hiñ H. David Riettelega um þad lifanda Guds Ord, so þad sem hier er framsett, sem oll oñur, þvi ad i þessu Lijfsens Orde medal añara, fiñur þu Sala mijn, Ef þu þad grant skodar Eirn fagrañ Lærdoom, þu sier hier Fyrst nærsta vel uppfyllast a Thoma Postula, so sem og opt a sialfre þier, Villt um og Veik-Trwudum Saud JEsu Haglendes, þetta sem DRottiñ seiger fyrer Muñ Esajæ: Peg ar eg var reidur uppa Odygd þeirra Agyrndar, sloo þa og geymda mig fyrer þeim, og vard reidur, þa raafudu þeir hijngad og þangad a Veigenum sijns Hiarta, eñ þa ed eg aaleit þeirra Vegu, græd-

da eg þar, og leidde þar, og huggade þar aptur, og þar sem grietu yfer þeim. Es. 57. v. 17. 18. Pad meiga kallast herd Slog, þegar DRottenn tekur af Hendena, og lætur oss raafa Sialfkrafa a Hollds Villdarennar Vegum, og i Blindleika Huskotsens, 1. Pet. 5. v. 22. Pad skiedur þo opt, þegar vier laatum oss ecke annad þocknast, Enn þad sem vond Naattura uppæst af Diofle og Heime vill hafa, enn fyrerlijtum Guds og goodra Manna Raad og Fortolur, Jer. 7. v. 24. Pa dregur Gud Reidennar-Sky yfer sijna Hiaalp og Stioornan, soddann er megn Hyrting, og ad þvi Leite megnare, sem blyndum Manne finst minna til hennar, þad er þo tijtt Einum Trilltum Syndara; Hvad mun þvi þa vallda, þegar soddann Villudyr aptur snwa a rietta Leid? Annad enn Til-lit DRottens Astar og Myskunar, sem tekur i Taumenn og aptrar Ferdenne til Helvijtes, Jer. 31. v. 18. 19. Og Onijter oll Kaupenn sem saamenn hafa vered vid Diofulenn og Verolldena, so sem þa hann rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterenu, Luc. 19. v. 45. Hreinsar sijdann Saarenn med Myrru beiskrar Tilfinningar, græder þar epter Saar med Saare, Es. 53. v. 5. Og gledur so Hiartannlega bæde Saal þess Umvenda, Es. 38. v. 17. Luc. 15. v. 7. 32. Og hinna sem bormudu sier, og aadur grietu yfer hanns Hardydge og Umvendunarleyse. Skal þier nu ecke virdast mijn Saal, ad Milldenn DRottens fare Naakvæmlega ad Græslu so Daudlegs Saars? Soddann sijner saa

Myskunar-Meistareñ Daglega bæde a hier og morgum odrum, so sem og eirneñ a Thoma, hvor hier Alliteñ, Græddur, Leiddur og Huggadur af Myskunar-Hond JEsu Christi, giorde eina stutta, eñ þo skijra og Vafalausa Jaatning um JEsu Persoonu og Embætte, ad hañ være sañur Gud og sañur Madur; Mañ med Aþreifinguñe, og Gud DRotteñ med Trwadre Vidurkieñingu, medkiende Thomas JEsum, og so under eins Tvær Naatturur i Eirne Persoonu. Ad standa i Mided, Tala, Syna, og laata þreifa a Saara-Orum Lijkamans, voru Obrigdañleg, Anglioos, og Omootmælañleg Teikn sañarlegs Mañdooms, i hvorium bygge Skilningsfull Saal; Eñ þesse Nofneñ Gud og DRotteñ, bevijsudu Guddoomeñ Sierdeileslega (þo þad meige eirneñ seigiast um Mañdoomeñ i Tillite til þeirrar Persoonulegu Einingar) hvor nu so alldunges og Einfalldlega kallast Fyrre og Seirne i Skripteñe, hañ er Gud og DRotteñ, og þesse Gud og DRotteñ er JEsus Christur Blessadur ad Eilijfu, Rom. 9. v. 5. Hvors ad er Heidureñ og Rijked, Pioonkan allra Piooda og Tungumaala, og eitt Eilijft Vellde. Dan. 7. v. 15. Soddañ medkieñer nu Thomas af Naad sijns Guds Trwadur giordur af Vantrwudum, af Særdum Mañe Heilbrigdur, af Daudum Lifande. Eg og eirneñ, med honum þañig læknadur, Jaa hreinsadur i Saal og Samvitsku af Daudlegum Verkum, fyrer þitt Blood O JEsu, Ebr. 9. v. 14. Þier

til

til Pioonustu, Jaata þig og medkieñe, og vil þig alltijd Jaata medañ þar er nockur Lijfs-Ꜵd heit i mijnu Hiarta, og um sijder, fyrer þiñ Krapt, huxande, þa Megned er þroted ad jaata þad talande; Eg vil og jaata þig med Hlijdneñe og Pioonustuñe; Eg vil jaata þig, Krossen þiñ uppa mig takande, og lijda allt hvad þier þocknast a mig ad leggia, Ps. 68. v. 20. Eñ lꜳt þu miñ Goode JEsu þiñ Tilstyrk hiꜳlpa mier i þessu ollu samañ allt til Enda, Matth. 11. v 29. Bænheyr þad, þvi þu veitst ad eg bid þig hier um af ollu Hiarta, og vona vijst ad ei vilier þu mier hꝛngrudum Saud þessa synia, sem riette a moote þier Maattlijteñ Fadm, þu miñ Gud og DRotteñ, so sem grꜳtande og veikt Barn a moote siñe Moodur. Mijn Ósk er og su Óñur, ad aller villdu þess giæta, epter Megne og Skylldugñe, ad þu, O JEsu, siert sa sañe HErra, sem hvorium og einum Mañe hæfer ad veita saña Tign, Heidur og Lotning, þvi af þier og fyrer þig medtokum vier aller allt Gott, Joh. 3. v. 27. Og i þier Lifum vier og Hrærumst vier, Post. G. 17. v. 28. Eñ sa Eirn medkieñer þig Riettelega siñ HErra, sem er þier hlijdeñ, og lætur sier af þier stioorna, og hvor anægdur er med allt þad þu lætur vera, So Mootlæte sem Medlæte, Lijf sem Dauda, Ja, Lifer þier og Deyr þier, Rom. 14. v. 8. Þetta fær ad soñu Guds Barna Ande giort; þo Hollded vilie añad, og møgle i moote. Cap. 7. v. 25. Þad er oss ollum stoor Æra, og þad vil eg fyrer mig kioo-

sa,

ſa, ad heita og vera þiñ Prœll miñ Sæte HErra, Einga Veralldar-Vegſemd, nie Stundleg Metord, edur faafeinga Æru-Titla, nu einaſta aa Vorunum brwkada, eñ Rentu og Eiſkulitla, ackta eg hiar þeſſu Nafne, fare þeir ſiñ Veg aller, Blijfe þetta; Eg ſie ad Heimureñ hræſnar noog med þeſſu, kyſſande opt aa þa Hondena, ſem hañ vill þo af-ſnijda, Virder og Hæder aa ſomu Stundu, Lijka vel þaa, ſem Vielalauſrar Virdingar eru verder af honum, og ecke hafa til Hædnes uñed, Pſ. 12. v. 3. Jer. 7. v. 4. Hvada Hiegoome er þad þa, ad ſækia epter ſlijkre Gull-Rodeñe Eyr-Mynt, og Veſællre Vegſemd aa Vax-Spiolldum? Pad ſkyllde og Heimureñ þeckia, ad þu DRotteñ JEſus ſiert eirn ſañur Gud, Jaa, ſaa Gud ſem allſtadar er naalægur, Joſ. 2. v. 11. 1. Kong. 8. v. 27. Miked Lijdur og Poler, leinge Bijdur og Eptervænter, 2. B. Moſ. 34. v. 6. Og allt kañ ad wtrietta med ſijnu Almætte, Gen. 18. v. 14. Luc. 1. v. 37. Eg Oſka hañ kyñe ad þeckia þetta riett, eñ jaata þad ecke ad eins, ſem morgum er nu tijtt. Eg Oſka og ad Sorgmædd Guds Born, aaſamt aller Sañ-Ydrande Meñ, þecke ad JEſus ſie Gud, Trwr og Giæſkurijkur, Blijdur og Bleſſadur, ſem bæde hefur Huggad, Huggar, og vill Hugga ſijna, og oll Hormunga-Vatne aa þæaum Tijma i Vijn venda; Fyrer ſoddañ Eirn Gud, hefe eg maatt þeckia þig alltijd miñ Goode HErra, hvad eg nu jaata, og vil alltijd jaata, þvi eg mun þad og eirn-

ſiñ

eñ hier epter i øllum Vidløgum faa ad þeckia, og þvi ert þu nu faa Gud, sem alls Heidurs er verdugur, framar, Jaa, eñ framar eñ veitast kañ, Saa Gud sem tilbidiast skal, Saa Gud sem var, Saa Gud sem er, og Saa Gud sem vera mun um̃ alla Eilijfd. Openb. 1. v. 8. Af Pvi Pu Saast Mig Thoma Trwder Pu, Sagde JEsus; Joh. 20. v. 29. Jaa miñ HErra, So ad eins trwum vier aumer best, ad þu Opeñberer þig oss, þitt Ord og Tyrerheit eiga og meiga verka i oss Trwna, og þad er ein þijñ auglioos Naadar-Opeñberan, ad þu veiter oss þad hreint med riettre Tijdkan Sacramentaña, þvi þar med forklaarar þiñ H. Ande vor Skilnings-Augu, Ps. 19. v. 8. Eñ med Holldsens-Augum giefst oss nu ecke ad siaa þig, hvad og i ongvu hindrar vora Velferd, þvi þu vitnar hier, ad þeir sieu Sæler, Sem Ecke Siaa, Eñ Trwe Po, Joh. 20. v. 29. 1. Pet. 1. v. 8. Eñ þijn Undrunarleg Leidsla um̃ Heimeñ, þijn sierleg og flioot Hiaalp i Neydeñe, þijn Ylm-sæt Huggun i Freistinguñe og Hrygdeñe, þijn Hulning, Lof-K. 2. v. 9. Piñ Naadar-Doomur, þijn Vægd og Fyrergiefning aa Syndeñe, og Hiartans Forsmeckur þiñar Elsku og eilijfs Lijfs; Med soddañ og þvilijkre lifande Auglysingu aa þier og þiñe Naalægd O JEsu, giorer þu mest ad þvi, aasamt hinu, ad Trwañ og Elskañ þiña, vefur þig so ad sier med heitum Taarum Optsiñes, og er þad þvi þiñe Sierlegre Opeñberan ad þacka; Eg vil alltijd gledia mig vid þessa Sioon

hier i Lijfe, og hier þreigiande, so gladur sem eg kañ, fullviss vænta þiñar eilijfu Dijrdar-Sioonar, hvar eg med þessum Augum, þa þo forklarüdum, siё þig fagnande gladur, i Endalausum Fognude og Fride, Job. 19. v. 27. Þangad til vil eg una mier vid þad, þo Hiartad huxe opt i Himeneñ, ad þu hefur læted allt þad mier uppteiknad verda fyrer þijn Verkfære, sem eg þarf ad vita mier til Sæluhiaalpar. Joh. 20. v. 31. So er eg nu Sañfærdur uñ þad, af þijnu Orde, ad þu miñ JEsus siert Christur, og Sonur Lifanda Guds, hijngad i Heimeñ komeñ, Synduga Meñ Sæluhoolpna ad giora, so og ad aller þeir sem a þig trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf. Joh. 3. v. 16. So er nu øll mijn Von og Trw, bygd og Grundvollud a þier, fyrer hvoria Trw eg Sañlega frelsast, Þar uppa vil eg Lifa og sijdañ Deyia i þijnu Nafne O JEsu, Amen.

# XXXIII. Capitule

Uñ Opeñberan CHRISTI vid Siooeñ Tyberiadis.

Pter þad Opeñberade JEsus sig Lærесveinunum aptur vid Siooeñ Tyberiadis. Eñ hañ Opeñberade sig so, þar voru til samans Simon Petrus, og Thomas sem kallast Tvijbure, og Nathanael, sa er var af Cana Galilea,

og Syner Zebedei, og adrer Tveir af hañs Læresveinum. Simon Petrus seiger þeim: Eg fer ad Fiska, þeir seigia hønum: Vier komum og med þier. Þeir geingu út, og stigu strax a Skip, og a þeirre Noottu feingu þeir eckert. Eñ ad Morgne komnum stood JEsus i Fioruñe, Eñ Læresveinarner vissu ei ad JEsus var þad. JEsus sagde til þeirra: Børn, hafe þier ECKERT AD ETA?

OPT vitiar good Mooder eins veiks Barns, so vilde og JEsus opt byrtast sijnum Veiktrwude um Læresveinum, epter sijna Upprisu, laatande oll sijn Børn vita, sem hier eru Hrygdum vafeñ, og epter hønum bijdande, ad hañ vilie ecke laata þaug leinge Hugaunarlaus þreygia, Es. 41. v. 10. Þvi hañ er alltijd naalægur sundurknosudum. Anda og mordu Hiarta; Ps. 51. v. 19. Þegar Hormungeñ þreynger, syneft ofs JEsus laangt burtu, eñ þa er hañ þo nærstur, þegar þijn Taar reña, vill hañ þig snart med Huggun umspeña, þig gledia, fadma og ad sier vefia, Matth. 5. v. 4. 2. Cor. 7. v. 10.

Hier voru Sio DRotteñs Læresveinar vid Siooeñ Tyberiadis i Fiska Epterleitun, eñ feingu þo eckert a þeirre Noottu. Siooreñ edur Vatned merker opt stoora Hormung i Skripteñe, DRotteñ hiaalpa þu mier, seiger David, þviad Vatned geingur allt iñ ad miñe Saalu, Ps. 69. v.

1. Nootteñ i sama Maata tekst og fyrer Hrygd optlega, Landed er myrkt af Sorgum, seiger Esajas: Es. 5. v. 30. Og Job seiger: Eg vonade ept er Ljose, og siaa, þar var Myrkur; Jaa, so sem þad diṁa Laangnætte er Einslegt vakande Mañe, hvor ed þraaer epter Degenum, Job. 7. v. 3. 4. 13. 14. So er og þetta Lijf þeim Laangsamt og leidt, hvorium Sool Heilsuñar, Tungl Velgeingneñar, og Stiornur Astvina Huggunar og Epterlætes, med añare fleire Virleysu, og mootdrægum Vinde, hafnar og skijn skialldañ gladt; Þeim sem soddañ opt reyna, giefur til ad draga wt aa Diwped, i Mædu Sorg og Andvarpe Hugskotsens, þar meiga opt koma aa þeirra Vaanga sallter Taara-Dropar, Stundum meir Heimuglega eñ Opeñberlega, hvorier ei verda þo alltijd Medaumkunarsamlega aalitner, og Stundum sijst af þeim, sem hellst er Von vite ad þeim boded er ad graata med Graatendum; J þessu sem i fleyra Goodu, brestur nu aa Dogum Kiærleikañ, og Tilfiñingar Mykinde til ad harma Josephs Skada, miklu framar eñ hier þessa DRotteñs Læresveina. J soddañ solltum Hormunga-Sioo Veralldareñar leinge ad hrekiast, helld eg þurfe Mañ aa moote sier, ecke sijst ef DRotteñ siaalfur syneſt eirneñ dvelia ad koma med sijna Huggun, þetta giorer Sorgena stædsta, þvi hvad mikell sem Moot-Byreñ er Utvortes, Ef þar er Logn Jñvortes, og Hlyvidre DRotteñs Hugsvalanga, So er oll ytre Sorg og Moot-

Mǫot-Vindur ecke utan Ydel Glede ad reikna. 2. Cor. 6. v. 10. Nu þo þad sie viijst og Obrygdanlegt, ad JEsus sie hiaa siijnum sorgande Bornum alltijd, þvi hañ er med þeim alla Daga, allt til Enda Veralldar, Matth. 28. v. 20. Eñ þar epter allt i ollum, Pa eru þeirra Augu so hallden sem Læresveinaña, ad þaug þeckia þad ecke glogglega medañ Sorga-Nootteñ er sem dimmust, fyrr eñ byrter og afbreaaer, hañ lætur og Sorga-Noottena vera Sorga-Noott i Tilfiñinguñe, so þvi betur þeckest og verde teked i moote Hugguneñe, og ei verde añad sagt eñ JEsus hafe hana veitt. Jaa, JEsus lætur sum siijn Born og kiærustu Astvine vera opt i þessu Lijfe aa Vindasamre Sioo-Reysu Hormungaña, so þaug faa skialldañ Laangvint Logn, uppfyllande so þesse siijn Ord; J Heimenum hafe þier Hrygd, Eñ hefur þo sialfur so naakvæmt Valld aa Stioornuneñe, ad alldrei Kollkastast, og giefur vidnærande Huggun i hvorre Hrygd, samt vidriettande Adstod i hvorskins Þorf og Bole. Hvorneñ sem nu Bylgiur og Vindar yfa sig, þa eru þad makleg Synda-Laun, Eg hefe faad i Synd, þvi er mier makleg Sorgaña Uppskiera, Eg bid þig þo audmiwklega Vægdar miñ Goode JEsu, ad ei refser mier epter Maklegleikum, helldur stiller Stormeñ og lægier Bylgiurnar, eg veit ad eitt Siñ fær Enda miñ Sioo-Hrakningur, eg veit ad epter þessa dimmu Lijffens Vetrar-Noott byrter, og kiemur Dagur goodra Umskipta, aa hvorium JEsus

lætur mig med ödrum sijnum Elskendum skipta um̃ Bwningen̄, og flitiast in̄ a Sælu-Hofn eilijfs Fagnadar, hvar eg fæ ad þeckia han̄ til fulls, og sia Auglite til Auglites. Ad Morgne leidde Gud Ifrael Klackiaust yfer þad Rauda Haf, Exod. 14. v. 22. A Efsta Deige leider og JEsus sijna Sioo-Hrockiu Vesælinga, wr þessarar Veralldar allre Hafs-Naud, og verdur þa Lendingen̄ i Hofn eilijfrar Paradysar, hvxum hier til glader, þvi þar mun þa Frelsaren̄ JEsus Synelega nalægur, burt taka vort hvernad Holld, wr Daudans Brim-Garde, og leida vorar Saaler samteingdar Forklarudum Lijkomum i Hoop og Selskap Utvalldra, Pa er oll Nöött wte, en̄ feingen̄ eilijfur Glede og Fagnadar Dagur utan̄ Enda, Preyum hier epter Polen̄mooder. JEsus spyr hier Læresveinana, hvort þeir hafe eckert ad eta? Hvar til þeir svorudu Nei. Pad giefur mier þa Epterteckt, ad hier hafe matt nockur Skortur a Ferdum vera, Hvor Kiegu-Maal en̄ þa opt maa heyra hia Guds Bornum, þvi soddan̄ Reynslu hefur Gud laated Optsin̄ es fram̄ koma vid sijna Elskulega Astvine, medal hvorra ad var Forfaderen̄ Abraham, þar fyrer vard han̄ ad flya i Egyptaland, Gen. 12. v. 10. Vegna Hallæres vard Isaac ad flya i Land Philistinorum: Gen. 26. v. 1. Og Jacob ad senda, Gen. 42. v. 1. Og so ad flya i Egyptaland, Gen. 46. v. 1. Sa goode Guds Madur David vard og var vid þenan̄ Vond, 2. Sam. 21. v. 1. Og flei-

re

re Otal marger; þvi kañ ofs eirneñ ad tilfalla slijkt hid sama; Eñ þad er so um þetta Mootlæte sem allt añad, ad Poleñmæðeñ er þad Sikur, er sæter þessa beisku Jurt, þvi hun er Mooder Dygdaña, Eirn Edla Fiesioodur, og hiñ dyrmætaste Geymsteirn, sem hefur Natturu Glede og Farsælldar: Gleðeñar Natturu hefur hun, þvi hvar hun bygger fastlega, þa gledur sig heñar Hwsverdt alltijd Jñvortes yfer Hormungunum, 2. Cor. 4. v. 17. Og reiknar hær sier fyrer Medlæte hvert i moot Holldsens Doome. Farsælldareñar Natturu hefur hun, þvi sa er Sæll sem Freistinguna Poleñmoodlega lijdur, þvi epter þad hañ hefur reyndur vered, mun hañ odlast Lijfsens Coronu, hvorre DRotteñ fyrerheiter þeim sem hañ Elska. Jac. 1. v. 12. Vert þvi ecke Opoleñmoodur, þu Guds Barn, þo þiñ Goode Gud og Giæsku-Fader læte þier ecke allt þad i Tie, sm̃ þu villt edur þyk̃est þurfa med til Holldsens Naudþurftar, hañ veit best hvad ofs hentar, hañ sier best fyrer voru giorvollu Raade, þvi er og best ad hañ Raade; Þegar vier erum Ohugsiwkaster fyrer Lijkamanum, þa ber hañ Um̃sorgunena, eñ af ofmikille Hugsijke forgleymum vier Saaleñe, og fær þa Hws-Mooðureñ ad sitia a Skoreñe, eñ Ambaatteñe er troded upp i Beckeñ, og er þad ill Nidur-Radan, hvoria Gud vill ecke hafa, Gen. 21. v. 10. Gal. 4. v. 30. Þo hañ meige þad optsiñes siaa hiaa morgum af ofs, og er i þvi audsien Glæpur Vantrwareñar, þvi ef vier trwdum Gude

fyrer oss, so sem Born goodum Forelldrum, þa legdum vier oss mest epter hañs Befalningum, af hvorium ad þesse er ecke hin sydsta, Leited fyrst Gu-ds Rijkes og hañs Riettlætes, Matth. 6. v. 33. Eñ Barn mitt, hvad seiger Gud þar strax epter? Pad ad þier skule þa allt Gott til-leggiast, Nu fyrst Gud seiger þad skule so vera, þa stendur þad stødugt, ef þu sialfur hindrar ecke fyrer Gude, og leitar hellst og mest epter Naudþurft Sælareñar, Ef giorer þu þetta af Alwd, og Ottast DRotteñ af Hiarta, Trw mier, hañ sender þier Hialp, so i þesslare sem allre añare Naud, þvi aungva tekur hañ undañ, þegar hañ seiger: Akalla þu mig i Neydeñe, þa vil eg Bænheyra þig, og þu skallt aptur heidra mig. Ps. 91. v. 15. Hier er þad þo øngvañveigeñ med meint, ad þu kasta skuler fraa þier allre Christelegre Umhyggiu Lijkamans, þvi þad er og so moote Guds Bode, Forsoomun Embættes-Verksens, Leteñ, Ohrifnadureñ, Bænræktarleysed, og þvilijkt, er þier af Gude streingelega fyrerboded, og hootad þrongu Straffe, Bidia skalltu og Erfida i Otta DRotteñs, so fær þu Blessan og Braud af DRottne. Miñ Goode Gud, eg vil feigeñ lijda allt þad sem þu villt ꝏ mig leggia, og þier þocknast, þu hiælpar alltijd þijnum, þu hefur noog Raad, þijn Myskun bæte allañ vorn Brest, og uppfylle vora Naudþurft, sijdañ sed þu oss alla vor Gud med Fagnadarens Braude i Dijrdeñe fyrer JEsum Christum, Amen.

# XXXIV. Capitule.

Uñ sialft Krapta-Verked sem JEsus giørde vid Siooeñ Tyberiadis.

ENN hañ sagde til þeirra: Kasted wt Netenu aa Hægre Sijdu Skipsens, og munud þier fiña nockud. Þeir vorpudu wt, og gaatu ei dreiged fyrer Fiolda Saker Fiskaña. Þa sagde sa Læresveirn til Peturs sem JEsus elskade, Herrañ er þad, eñ þa Simon Petur heyrde þad ad JEsus være þad, vafde hañ uñ sig Skirtuñe, þviad hañ var nakeñ, og varpade sier wt aa Siooeñ. Eñ adrer Læresveinarner komu aa Skipenu, þviad þeir voru ei laangt fraa Lande, helldur nær tvø hundrud Alna, og droou Neted med Fiskunum, og er þeir stigu aa Land, saau þeir Ellds-Glædur, og Fisk yfer lagdañ og Braud: JEsus sagde til þeirra: Færed hijngad af þeim Fiskum er þier feingud nu. Simon Petrus stood upp, og droo Neted a Land fullt af stoorum Fiskum, hundrad þremur og Fimtyge: Og þo þeir være so marger, þa rifnade þo ei Neted. JEsus sagde til þeirra: Komed hier, og Snæded. Eingeñ Læresveinaña þorde ad spyr-

la hañ, hvor ertu? þriad þeir vissu ad þad var Herrañ. þa kom JEsus og took Brauded, gaf þeim þad, og lijka eirneñ Fiskeñ, þetta er nu hid þridia Siñ sem JEsus openberade sig sijnum Lærisveinum epter þad hañ var uppriseñ af Dauda.

Hlijdne er betre eñ Offur, 1. Sam. 15. v. 21. Eitt hlijded Barn elskar Fadereñ, þegar þad þocknast honum i ollu þvi þad kañ, tekur hañ Viliañ fyrer Verked. Eitt hlijded Guds Barn, brestur alldrei Guds Elsku, Guds Hialp, Guds Blessan. Lærisveinarner kostudu wt Netenu til hægre Hlidar Skipsins, epter JEsu Bode, og fengu mikla Blessan; þu kastar þijnu Nete wt, Luc. 5. v. 5. a hægre Hlid, ef þu lagar allañ þiñ Verknad epter Guds Orda Skipun, so ad hvort þu etur edur dreckur, eda hvad þu gierer, þa gierer þu þad i þeim Asetninge, ad Gud hafe Heidureñ, Col. 3. v. 17. Kaster þu wt Bænar-Netenu audmiwkur i Trwñe til Guds, og Undergiefne hañs Vilia, so kemur hvorugt toomt, Barned huxar, lijtande a Fodursens Elsku, og seiger: Po eingeñ aumke mig, þa aumkar þo miñ Fader mig, þetta er Barnsens Huggun, og fost Von; Sama huxar eitt Elskande Guds Barn, og þa huxar JEsus aptur, þetta Barn vill hlijda mier, og treyster mier, þvi maa eg reynast þvi so sem þad ætlar til mijn. So er

þar er eingen̄ Vafe, ad Gud elſkar þa ſem han̄ elſka, og hiælpar alltijd þeim ſem honum treyſta. Hier fiſkudu Poſtularner; Fiſke-Men̄ Guds eru Ordſens Þienarar; Eg vil wtſenda ſeiger DRotten̄ allmarga Fiſke-Men̄, þeir ſkulu veida þa, Jere. 16. v. 16. Þeirra Net er Ordſens edur Gudſpiallan̄a Ken̄ing, þetta Net hefur Gud læted, og lætur en̄ draga i Sioo þeſſarar Veralldar, hvort Fiſke-Ver þo er og reineſt næſta Hættuſamt, þvi ad i ſoddan̄ Fiſke-Roodre hefur margur Guds Þienare læteſt, fleſter ſliteſt, mœdſt og tæraſt, þeir meiga wtſtanda marga harma-Rodd, og afla þo ſtundum færra Fiſka, Luc. 5. v. 5. So ſynaſt mæ þeir fare opt ſlipper til Lands, þeir Vondu Veralldar Fiſkar, ſem ydugléga ſvelgia Glæpa Straum̄ þeſſa Heims, eru varer, hata Neted, hafna þvi og vilia ecke til Lifoſſens, helldur ſynda æfram̄ i ſijnu Ydrunarleyſe og Hardydge, ſo Guds Þioonar meiga opt klaga og ſeigia med Job: Eg hefe heila Mæanudena erfidad til forgiefens, og haft margar Eymdafullar Nætur, Job. 7. v. 3. Þad er þo Haadviiſt þeſſum vondu Fiſkum ſem ei læta ſier næ i þeſſu DRottens Nete allt til Enda, ad þeir fæ Sæte a ſijdan̄ vid JEſu Vinſtre Hond, og verda þadan̄ i Elldſens Dyke wtſnarader, þvi ſa ſem hier med Hardwd og Hreckian̄a Ydne þioonar Dioflenum ſijfelldlega, han̄ verdur han̄s Eigen̄doomur ſeirna. Samt meiga Guds Þioonar hvorke letiaſt nie uppgiefaſt,

þo lijtt vilie tiltakast um̃ Veideskapen̄, helldur for-
soomunarlaust wtkasta Ordsens Nete i Tijma og
O-Tijma, kaste þeir þvi wt til Hægre Hlidar,
þad er, vande þeir sitt Verk i Polen̄mæde, Hoog-
værd, Arvekne, Bæn og Andvarpan, Post. G.
B. 20. v. 31. Leitande af Hiarta Guds og
Saalnan̄a Abata, sitt Gagn einkes þar hia akt-
ande, þa fiska þeir alltijd nockud, alldrei kemur
þa Guds Orda Net toomt aptur, leitest þeir ecke
vid þetta af Alwd nockre, og hræsnislaust, hvernen̄
kun̄a þeir þa ad fiska? Hvernen̄ meiga þeir aun
þess hafa gooda Samvitsku? Hvernen̄ meiga
þeir aan þess ætla sier ad deya i Fride? Fyrst þar
skal Saal fyrer Saal, ef illa er med Neted fared,
og ydil Svik vallda. J Saun̄leika er hier ecke ad
giora um̃ Smaa-Mune, hier verdur alla Kapps-
Mune aa ad leggia ef vel skal fara; og tydka bæde
Alvoru og Lag-Kiænsku: Gud væge oss ollum i
JEsu Nafne; Vilian̄ hefe eg, en̄ ad fullkomna þad
gooda fin̄ eg ecke, seiger St. Paall, Eg veit ad son̄u
ad aller Utvallder veidast, Jaa, aller Riett-trw-
ader, en̄ hvernen̄ hyrdulausum Veide-Mon̄um
vegnar, veit Gud, sijna Utvallda Fiska og Fiske-
Men̄, færer Gud wr þessum Harma-Sioo um̃
sijder, Jaa, alla þaa sem hier af Anda og Orde
DRottens laata sier stioorna, setur JEsus vid
sijna Hægre Hond, hvad glader munu þeir þa ver-
da sem hier hafa vel fiskad, og aflad JEsu til
Handa margra Saal, þa verdur ecke leingur minst
þessa

þessa Heims Vosbwdar, þvi JEsus vor þurkar þar, þaug wthelltu Taaren hier, med sine miklu Myskunar Hond af þeirra Kinnum, þa fagna Fiskarner sijnum Veide-Mokinm, og Veide-Meñerner Fiskunum, eñ JEsus best øllum samañ; og tekur so alla þessa i eilijfar Tialld-Bwder, gott er til þess ad huxa fyrer þa sem hier trwlega erfida, af hvorium ecke meira heimtast. Vegna þess mikla Fiskedraattar sem Postulunum kom o-vorum, sagde Johañes (hvor opt sier giefur þess Lææresveins Nafn, sem JEsus hafe elskad, þvi þar hefur Elskañ sialf, elskad Elskandañ, og Elskandeñ alltijd funded til Elskuñar Elsku) Herrañ er þad, Jaa Herrañ er med. so ad seigia synelega, þegar stoorar Velgiorder veitast, þegar Offred kemur, þad er, Hugguniñ, Hiaalpeñ, einu Abrahams Barne O-forvarandes, Jaa, a þvi Neydareñar Augnablike sem sijst var epter vonad, þa verdur opt meir graated af Hiartans Fagnadar Mykendum, eñ fyrre af Neydareñar Preingslum, þa mæter Fadmur Fadme, taaradur elsku Fadmur Piggiandans, miwkum Elsku Fadme Veitandans, þa sier Madur, Guds allt, eñ sitt eckert, þa verda ylmsæter Kossar, og fagnadar Elsku Funder, so Mañ veit ecke hvad hañ skal af sier giora, so gieck þad hier og Petre ad hañ eyrde ecke kir, þegar hañ heyrde ad JEsus være þad, maaske varla vitad hvad hañ giorde, helldur eñ hvad hañ a Tabor Fialle sagde, af Kiæte og Kiærleikans Ofur-Huga, Matth. 17.

v. 4. JEsus synde og añad Millde-Verked i hvi ad Petur sock ecke nær hũ fleigde sier wtbyrdes, belld ur komst gangande a Sioonum til Lands, þegar einlægur Kiærleike til Guds, hvadar Mañenum afram, þa maa Klwngred verda ad Sliettlende, og Torfæran ad alfærum Veige, Vænger Guds Elsku og Almættis flytia eirn Guds Vin yfer þad allt samañ. Soddañ nær ecke til ogudlegra vogunar Hoalsa Veralldareñar, sem freista Guds og vilia af Forvitne reina hañs Almætte. Hier hia, skalltu þess giæta Guds Barn, ad dramba ecke af Velgiordum Guds, epter Hætte sumra Maña: Fasthelldne og Ofugleika vid Naudsyn og Bænastad hiña þurfande, brwka þu og alldrei, Matth. 5. v. 42. Og sijst á soddañ Tijmum. Petur var hier nakeñ, so ser eg og tijdum a Fund þiñ miñ goode JEsu, snaudur af ollu Goodu, og flettur Fatnade Riettlætesins, fære eg ad þykiast nockud edur hallde eg mig nockud klæddañ af Meinleyses og Dygdaña Fatnade, þa fara Fot þesse svijvirdelega i þijnu Auglite, þvi skrijd eg orfaatækur Ormur, kalldur og alls nakeñ Betlare þier ad Fotum, þu eirn midlar mier Elskañ ylmsætasta ollum Riettlætis Skrwda, Saareñ þijn hylia Saareñ mijn, Myrkuneñ þijn Meinsemder allar mijnar, Ja, þiin Forþienusta alla mijna Blygdan, hier vid skal eg mig hugga i allre miñe Eimd og Orbirgd Saalareñar, med þad er eg noogu riikur, eis þu Heimur fyrer mier þitt Skart og þitt Rijkedæme,

nie, eñ sia þu þo vel til ad þu farer hvorke snaudur nie Fatlaus af Herbergium þijnum seinast, þegar ferdast alfareñ wt hiedañ. Net Læresveinaña var fullt af stoorum Fiskum, hundrad þremur og fim-tyge, og þo rifnade ei Neted, þad var ad soñu Fur-da, eñ þo hefur DRottens Almætte margtfleira og stærra wtriett, hañ orkar øllu, hañs Wallde eru aller Hluter undergiefner, Madureñ ad eins, er hiñ veste og ohlijdnaste, sem ecke vill lata sier seigiast af soddañ Almættis Verkum, hvorke ad oittast Gud trwa honum nie elska hañ, slijkt er ein stoor Hormung: Eñ Barn Guds, þu sem matt sia vidlijkt optlega, Ja, þu hvørs Net ad Gud fyller opt med Blessan, og giefur Lucku og Framgang i þvi og þvi Verke og Aforme, Stun-da þu þar fyrer ad audgast æ meir og meir af Guds Otta, og lat DRotteñ sa dreiged þitt Hiarta ad þvi fasta Lande i Himiñ, fullt Elsku til hañs og ydulegs Packlætes, so snijst þier øll Tijmanleg Blessan, i eilijfa Blessan; Eñ hinum vondu, sem vesnande fara vid slijkt, i wtteckeñ Laun þessa Heims, fra hvøriu Gud oss vardveite i JEsu Nafne. Lokfsons mettade JEsus sijna hwng-rada Læresveina, so mettar og Milldeñ DRottens oss eñ sijn Born, Læresveinarner settu fyrer hañ audur Sticke af steiktum Fiske og Hunangs Seim, þad borgar hañ þeim nu aptur twofolldu, gott er honum ad laana, hañ er sa ohættaste Skulldu-Nautur (ef mier leisdist so ad kalla hañ) hañ lætur

eck-

eckert Myskunar-Verk o-launad, og ei kalldañ sv-ala-Dryck i Læresveins Nafne, Matth. 10. v. 42. Nu sedur hañ þig og mig Lijkamlega, þad þockum hañs Naad, og forum lijka so vel med Myslana, þvieirn Mole er lijka so Guds Gaafa sem añad meira, og hañ sem ryr er hiaa sumum i Nægteñe verdur opt dyr i Hwngurs Tijdeñe. JEsu Hond sedur oss og andlega nu i Naadeñe, med Sælgiætes Riettum sijns Himna Brauds, Ordenu, Sacramentunum, Huggun Saalareñar og fleyra slijku, uppfyllande sitt Tilbod hiaa Esajam, hvar hañ bijdur þyrstum, mæddum og Peningalausum o-keipes Vijn og Mioolk: Esa. 55. v. 1. Gud giæfe ad aungvañ velgde af DRottens Bods-Moñum vid slijkum Kræsingum. Eñ framar mun JEsus alla sijna sedia, gledia, og i eilijfum Fognude endurnæra, epter lideñ Lijfs-Hrakning þeñañ i Himneskre Dyrdar-Vist, Eya værum vier þar, þar munum vier fullfrooder i þeirre eilijfu Speke, fullkomlega þeckia og siaa vorn JEsum Auglite til Auglites, og þar af eilijfañ Sadning og Svolun hliota med ollum Utvolldum, hvad oss veite Guds Naad fyrer JEsum Christum, Amen.

# XXXV. Capitule.

### Ufn Samtal Christi vid Petur.

DA þeir høfdu nu Snædt, seiger JEsus til Simonar Peturs, Simon Jona ELSKAR ÞU MIG meir

meir eñ þesser? Hañ seiger hønum, Jaa HErra, Þu Veitst Ad Eg Elska Þig, hañ seiger þa til hañs, Fæd Þu Lømb Mijn. Eñ seiger hañ aptur i Añad Siñ til hañs, Simon Jona ELSKAR ÞU MIG? hañ seiger hønum: Jaa HErra, Þu Veitst Eg Elska Þig, hañ seiger til hañs, Fæd Þu Saude Mijna. Hañ seiger eñ aptur i Þridia Siñ til hañs, Simon Jona ELSKAR ÞU MIG? Þa Hryggdest Petur vid, þvi hañ sagde i Þridia Siñ til hañs, ELSKAR ÞU MIG. Og hañ sagde til hañs, HErra, Þu Veitst Alla Hlute, Þu Veitst Ad Eg Elska Þig. JEsus sagde til hañs, Al Þu Saude Mijna.

ÞEtta Vigtuga Samtal færum vid giør ad skoda mijn Saal, sem fullt er af Lærdoomum. DRotteñ spyr Petur hier fyrst hvort hañ Elske sig meir eñ þesser. Vel visse JEsus hvorneñ hættad var Elsku hañs til sijn, þvi hañ veit allt hvad med oss er, og Reñer allra Hiortu, Jer. 17. v. 10. eñ af þvi Petur synde sig ødrum Læresveinunum nøckud diarfare og Dirfsku meire i Orde og Andsvørum vid DRotteñ a Leideñe wt af Jerusalem til Oliu Fiallsens fyrrum, seigiande, þo aller hne-

irle sig ä þier, þá skal eg þo alldrei hneixlast, Matth. 26. v. 33. þar fyrer maa synast ad HErr-añ hafe viliad so. miked meina med þessare fyrstu Spurningu, sem nockud Fiolordare er eñ hinar Seirne, hvad hefur þier nu framfared i Audmykt-eñe siidañ þu hiellst þig Sterkare þessum, hefur þu nu reynt og lært hvad þad gillder ad metnast, þyk-iast vel standa, og treista Ofmiøg uppaa siaalfañ sig? Petur nu lijtelæckadur i Hiartanu svarar, Jaa HErra, hañ seiger ecke Jaa, Eg Elska þig, þvi þad var nockur diarfleg Jaatning fyrer þañ sem stoorlega hafde syndgad og JEsum Afsvared, helldur seiger hañ, Jaa HErra Þu veitst ad eg Elska þig; Joh. 21. v. 15. Hañ jaatar þvi ecke ad hañ Elske JEsum meir eñ þesser, þad þorer hañ nu ecke ad seigia, þo hañ hafe añars maatt seigia: Ad Eg Elske þig ei siidur eñ þesser, þad maatter þu siaa miñ HErra aa þvi ad eg eyrde ecke, nær eg visse þu varst komeñ, helldur fleigde mier Utbyrdes, so eg kiæmest sem fyrst til þijn, eñ hiner adrer lietu Skip-ed bera sig til þijn; Eñ Petur þeiger um þetta, og seiger þu veitst, sem villde hañ seigia, þu HErra þecker betur eñ eg siaalfur hvorsu riettelega eg El-ska þig. O hvad undarlega, eñ þo ysred dað-samlega hagar Gud sier vid Mañeskiuna, hañ gi-órer stundum eitt Framande Verk, til þess hañ framkome þvi betur sijnu eigeñlegu Verke; Vid Petur sagde JEsus fyrre, Andskoteñ hefur girnst ad Sigta ydur sem Hveite; Jaa hañ vill alla for-

diarfa

diarfa, eñ eirna mest setur hañ sig wt til þess vid þaa, sem mestañ Hug leggia vilia aa ad þioona Gude, og honum eru eitt fyrer sig hvad Handgeingnaster, hverium og Gud veiter opt miked, og ser hañ þa ecke Olijka og þeir, er misuña einum Yfer-Mañe Elsku og Daalætes, og vilia þvi af Ósund forraada hñ; Kome Diofulleñ þvi ecke odruvijse heim, þa sender hañ þessum Pijlu Hofmoodsens og Hiartans Stærelætes þa hrædeleguſtu og skadsomuſtu Andstigd i Guds Auglite er fordiarfar øll Goodverk, og giorer þaug vidurstiggeleg, sem þo añars mættu vera þægeleg, so ef sw Synd skal ecke giora fullañ Adskilnad midlum Guds og Mañsens, maa Gud stundum læcka þaa, añadhvort med þwngum Krosse, saarre Freistingu, edur miñelegu Falle so Þvijnguneñ giefe Skilningeñ: Es.26.v.16. Cap.28.v.26. Saur reid JEsus aa mijn Augu, sagde saa sem JEsus giorde af Blindum siaande, vid þetta fieck hañ Synena, og hier lærde Petur Audmykt og Varwd af Niðurlæginguñe. Allt giorer JEsus vel, vel giorer hañ þegar hañ lætur Lioos verda af Myrkre, og af Helvijte Eitt Himna-Rijke. So voru nu St. Peturs Ord hier sañlega Teikn Hoogklætes, breñande Kiærleika og sañrar Trwar, hvor hañ i heilar Priaar Reisur frambar, moot JEsu Þrefallda Spurs-Maale, Jafnvel þo Petur (ecke Ominñugur sijns hryggelega Falls) aangradest vid þad Sijdasta, ad hvorre hañs Heil-Hiartadre

Jatning giörðre, JEsus Staðfeste hañ i þvi Kieñemañlega Embætte, og minnst ecke hañs Und añfareñar Syndar, þvi hvor sijna Synd af Hiarta syrger, fra heñe viikur, og forlætur sig uppa JEsum, honum verdur hun ecke framar Tilreikñud, Ezech. 18 v. 21. 22. blessadur JEsu Bloods Kraptur byrger hana, so hun er olldunges af Guds Reikníngs Book Utskafeñ; Eñ hvad giörer þa Heimureñ þegar hañ brytlar Sañydrande Moñum uñ Brot sijn, og vill ecke añad eñ þau skule til Æfeñlegrar Miñingar Uppteiknast? Sañlega giörer hañ þa eitt Diöfuls Verk, neme þeir somu hvad þetta er, med þeim sama Mæler sem þier mæled Ut, skal ydur Jñmællt verda, Luc. 6. v. 38. og Otal fleyra hier ad lwtande, þo nu sie ad litlu hast, hia þeim sem einasta haga sier epter þeim Ordum sem framgaanga af þeirra eigeñ Muñe. Hvoriu munder þu nu vilia svara mijn Saal, ef þu værer adspurd hvort þu Elskader JEsum riettelega? Þad er Vandasom Spurning fyrer þig sem mörgum Syndum ert hladeñ, þier mun sijnast nærst ad græta og þagna, þvi þad verdur i so saau sem ongvu bevijsad þo vid villdum seigia Ja, eñ hitt kañ þier eingeñ Meina, ad mæna Hiartanu til DRottens, hañ væger, og veit Viliañ hvor sie. Ja HErra JEsu Eg vil Elska þig, Eg vil lijda þad þu villt aaleggia, Job. 14. v. 14. Eg vil Elska þig einlæglega og Staðfastlega, ecke ad eins i Orde, helldur i Verke og Sañleika; Eñ þad maa

angra mig sárt, ad þetta vill ecke verkast sem skyllde. Þad er vijst ad Allmarger Elska þig betur eñ eg, og vil eg i øngvañ Máta þeim þess Misuña, helldur Ofta Hiartanlega, ad þad giæte hvør eirn giort sem best og heitast, Eñ bid audmiwkur ad þijn Giæska forlaate mier aumum mitt Elskuleyse, þvi þeirre Skulld giet eg ecke loked hier O JEsu sem eg villde og skyllde, þvi velldur Lijkame þessa Dauda, hvørn eg villde (þo so sem þu villt) meiga sem fyrst afleggia, Rom. 7. v. 24. Þar er eingeñ Vita-Skulld auglioosare eñ þesse, þvi hvad má heita skylldara eñ hafa þañ ødlum Hlutum kiærare, sem bæde giefur allt Gott, hefur giefed, og vill giefa, og er sá ædste Goode; Og so sem JEsus sagde til Martham, sagde eg þier ecke, ad ef þu trydder, þa munder þu siá Guds Dyrd, Joh. 11. v. 40. So er þar og eckert Verk so Abatasamt sem þetta Verk, þad ávinur lijkamleg, andleg og eilijf Giæde, og Hiartanu iñdælasta Eyterlæte. Auk þessa hefur JEsus Elskad oss fyrre, hañ Elskade ad Upphafe, hñ Elskar og nu i Tijmanum, hañ Elskar oss i Daudanum; Elskañ JEsu til vor droo hañ Ofañ af Himnum hijngad á Jordena, af Elskuñe til vor framkomu øll hañs Ord og Verk; Elskañ þreyngde honum til ad lijda allskonar Kvaler Hørmungar og Daudañ; So á nu þa þesse Ylmsæta Elskañ JEsus af oss aptur i moot ad Elskast alla Tijma, øllum Hlutum framar, og af øllum Kroptum, 2. Cor. 5. v. 14. Hvør honum

sliikrar Elsku syniar ad þvi Leite sem mogulegt er, hañ Tilbyrger fyrer siaalfum sier Bruñ hañs Ast-ar, og giører sig heñar Overdugañ; Jaa, saa sem JEsum ecke Elskar, hañ er Bølvaneñe Underorp-eñ, og þeirre strøngu Guds Riettlætes Reide sem breñur til hins Nedsta Helviites. 1. Cor. 16. v. 22. Eñ þu kant christeñ Madur ad raada þad nockud af Høgum þijnum hvilijka Elsku þu hafer til JEsum: Af Elsku þiñe til Naaungans sier þu þad fyrst, og þiñe Vidhøndlan vid hañ, Elsker þu ecke lifande Lime þijns HErra, og syner þu þeim ecke Myskun og Medaumkan nær þu sier þaa i nockru naumstadda, og þad af einlægne Hiartans, so Elskar þu ecke helldur JEsum, eñ Elsker þu hañ ecke, so ertu og ecke hañs Barn, 1. Joh. 4. v. 20. ertu ecke hañs Barn, so ert þu Diofulsens Barn. Joh. 8. v. 39. 44. Þar næst, ef þu Elskar Holld sens Girnder, og vonda Veralldar Haattseme sem JEsum hrella, so hatar þu JEsum, hater þu hañ, so hatar þu Lijfed og Saaluhiaalpena, eñ Elskar Daudañ og Fyrerdæmingena. Ef þad er satt þu Elsker JEsum, so Elskar þu hañs Bod, Joh. 14. v. 13. og sierhvad sem honum er kiært, og hon-um tilheyrer og fær þu þa hañs Elsku hier og Siid-ar eiliiflega.

Ad heyrdre Prefalldre Jaatningu Peturs um JEsu Elsku, bijfalade JEsus honum ad fæda Lømb sijn og Saude i heilar þriaar Reisur, þu sier þar af, hvad Hiartgroona Elsku og Umhyggiu ad

JEsus hafe t'l siña Sauda, hañ hefur keypt þaa dyrt, hañ vill og laata vanda þeirra Umhyggiu, dyrendis Peningar eru JEsu Blood-Dropar, og dyrar eru Saalernar þar med keyptar, 1. Pet. 1. v. 19. so betra er Lijfed ad missa, eñ Lijf eirnrar Saalar fyrer Hyrdulausa Voktun farest. Med Lærdome, Lijfe og Lifnade Gudlegum, maa endelega foodra Christi Hiord, og þad med soddañ Elsku sem hærra stijge eñ sijns, siña, og sialfs sijns Elska, þwngt þyker Hollldenu þetta Erfide, eñ þo skyllde þess giæta ad meire eru Launeñ aa Himnum, þesse Hrygd og Piaaning aflar Coronu 2. Tim. 4 v. 28.

HErra JEsu, þu ert saa Goode Hyrder, sem sedur oss hwngrada med Lijfsens Braude, þu tekur þijn Lomb aa þiñ Arm, ber þaug i þiñe Kiolltu, og leider Lamba-Mædurnar, Es. 40. v. 11. Þu leitar þeirra glotudu Sauda, leider þaa aptur sem villast, græder þaa Lemstrudu, giæter þeirra Vanfæru, geimer þaa sem velfærer eru, Ezech. 34. v. 11. 12. og hefur hina bestu Umhyggiu fyrer þeim, hvar wti þijner Under-Hirdarar eiga þier ad lijkiast, hvar til þu send þeim þiñ H. Anda.

Eg er O JEsu miñ Hirder, eirn þiñ Saudur, hrumur, vesæll og haalfdaudur, siaa þu aumur aa mier, vægdu og vertu miñ Stirkur, leid þu mig villtañ aa þañ rietta Veigeñ, hallt mier aa þeirre Braut allt til Enda, og leid sijdañ i þitt eilijfa Sauda-Hws, og oll þijn Born, Amen.

# XXXVI. Capitule.

Um̃ Þodan St. Peturs Piiſlar-Vættes, og Biſalning JEſu ad Petur filgde hønum epter.

SAnnlega, Sañlega ſeige eg þier, þa þu varſt ungur, gyrdter þu ſialf ur þig, og gieckſt hvørt þu villder, eñ þa þu Elldeſt, muntu þijnar Hendur wt breida, og añar mun þa gyrda þig, og þann gad leida ſem þu villt ei. Eñ þetta ſagde hañ, Teiknande med hvørium Dauda hañ ſkyllde Gud dyrka. Og þa hañ hafde þetta ſagt, Seiger Hañ Til Hañs: FILG ÞU MIER EPTER.

SO ſem ad Siooreñ er ecke ꝏn Bylgna, ſo er og Chriſtens Mañs Liif ecke ꝏn Mootlætinga. Og ſaa ſem ecke er Kroſs-Barn, hañ er ecke Chriſts Barn. Fyrer utañ þad ad þeſſe alkuña Guds Orda Regla nær til allra Sañ-Chriſteña, ad fyrer margar Hørmungar byrie oſs iñ ad gꝏnga i Guds Rijke, Act. 14. v. 22. Þa er þad þo ecke ſyſt Hlutſkipte Chriſti Sendeboda, hvørier af hønum wtſendaſt ſo ſem Lomb ꝏ medal Varga, Matth. 10. v. 16. Og ſumer meiga taka til Packa, Utlead, Fiotur og Fꝏngelſe, lijka ſtundum Daudañ, verda af morgum hatader, ſꝏ opt ad lijda Bølvan og Brygl-Yrde. Matth. 5. v. 11.

Sliijkt wtviiſar Epterdæme St. Peturs, um hvørs

hvers Afdrif Lausnareñ hier spaaer, og hønum fyrerseiger aa hañs Alldurdooms-Tijd, so sem og Histoꝛiu-Skrifarar Christelegrar Kyrkiu vitna, ad vid hañ framkomed hafe aa Attrædes Alldre (edur so sem sumer skrifa aa hañs 72. Alldurs Are, Embættesens 37. Christi 70. Neronis Keysara Rijkis-Stioornar 14.) Og ad hañ hafe þa i Rom under Keysara Nerone (þeim Ogudlega Tyraña) Krossfestur vered med soddañ Moote, ad Fætur hañs hafe horft upp, eñ Hofud nidur. So hefur nu Gud taled Stunder, Daga, Maanude og Ar vor, hañ skickar oss Einum þetta, Odrum hitt til Handa, hañs Fodurlegre Forsioon sie þad allt befalad. Þegar þu varst ungur, gyrdter þu siaalfur þig, og gieckst hvort þu villder, seiger JEsus til Peturs. J Ungdæmenu geingur þad so til, ad Giaalijfe og Glaumur er noogur, þa er faatt fyrer sier virdt ad fremia, sem Hollded vill hafa og Heimureñ rædur, þess meiga Stundum hin Efre Areñ kieña; Hlaatur Æskuñar velldur opt Taarum Elleñar: Þess er þa ecke giætt hvad epter mune koma, Þeir oss þa heillt raada, meiga eiga sijn Raad siaalfer, Þeir horfa, seiger Job, aa þañ Veigeñ til Thema, og hyggia ad þeim Ferle til Rijkes Arabia, eñ þeir munu skamast sijn um sijder, Job. 6. v. 19.20. Þegar þaa velger vid þeim fyrre Kræsingunum, og verda Daudsiwker af þvi sem þeir hafa aadur eted. Ps. 107. v. 18. Soddañ maa eg eirneñ saña i Sañleika, þvi eg medkieñe audmiwklega fyrer þier

miñ Gud, ad eg hefe i Æskuñe fared stoorlegá Afskeides, og vafed mig morgum Syndum, Saurgun, Raanglæte og Svijvirdingum, sem þa epter Holldsens Giedþeckne og Vilia hofdu Yfer-Raad eñ; Soddañ Ferel maa nu Hugureñ opt Harmande rekia, og neyta nidursaadra Verka, so noog er Orsok ad bidia þig Fader Myskunsemdaña ad fyrergiefa mier Synder mijns Ungdooms, og refsa mier ecke i þiñe Reide, Ps. 38. v. 1. Og ei laata adra giallda miña Glæpa, þvi eg vil nu af Hiarta ydrast og giora saña Yferboot, i soñu Trwar Til-lite til þiñar Naadar, og Forþienustu Betalings þijns Sonar mijns Endurlausnara JEsu Christi, og þacka þier so Hugarlaatlega sem eg megna, ad þijn Myskun hefur so geinged i Berg vid mig Syndugañ alltijd, ad eg er ecke upprættur Illur og Avartarlaus Fauskur med Oxe þiñar Reide, epter Maklegleikum, helldur lideñ af Nægd Poleñmædeñar, vegna Frelsarans JEsu Fyrerboonar. Framar virdstu miñ Gud og DRotteñ, af Nægd Naadar þiñar, ad giefa mier nu hier epter hlijded Hiarta, sem bunded sie fastlega vid þijn Blessud Bodord og Vilia, og nær sem eg fell edur rasa, þa vef þu uñ mig O JEsu, i mijnu saara Synda-Stande, lioomande Lynda þijns Riettlætes, so eg Hugsvalest, og Diofulleñ faae mig alldrei hiedañ af fraa þier dreiged epter siñe Villd, med nockru Orvæntingar-Helse, edur fest i nockrum Flærdar-Moskvum; Stattu alltijd hiaa mier, þu sem ert

mitt einka Hiartans Traust og Hlutskipte, Ps. 73. v. 26. So vil eg med þier gaanga þaangad sem þu villt leida mig, hvort helldur saa Vegur liggur til Tabor edur Golgatha, Lijfs edur Dauda, þvi siert þu hiaa mier, so verd eg i ongvu skamadur, helldur lijtur þa allt mier til Hiaalpræded, so verdur þu þa og eirnen sialfur heidradur aa mijnum Lijkama, hvort þad skiedur fyrer Lijf edur Dauda, Post. G. 20. v. 24. Cap. 21. v. 13. Og nær þad geingur so, geingur allt ad Oskum. Þa Lausnaren hafde fyrersagt St. Petre sitt Pijslarvætte, bijfalade han honum ad fylgia sier epter. Soddan Bodord vors HErra, er stoor Þorf hvor vor athuge i sierhvorre Stiett og Kallan; Hvor sem ferdast vill Torsooktan og Hættusaman Veg, han wtvelur sier giarnan Leidtoga, þan honum sie Ohætt epter ad fylgia, og rata kune þa bestu Leid.

Þegar Tobias Yngre sagdest Okunnur Leid þeirre er han aatte ad fara, sagde Faderen: Leita þier ad trwum Fylgiara, Tob. 5. v. 4. Ongvan Leidtoga finnum vier jafngoodan sem JEsum Christum, hvor honum epterfylger, geingur ei i Myrkrunum, helldur hefur han Lioos eilijfs Lijfs. Joh. 8. v. 12. Fyrst skulu aller Ordsens Þienarar fylgia JEsu epter med hreirne Kienningu hans Orda, og breita sem Guds Ande giefur Raad til fyrer Mun St. Paals, Seigiande: Predika Orded, hallt ad, hvort þad skiedur i Haglegan Tijma edur Ohagleg an, Straffa, Ogna, og Amin, med allre Þolenmæde

mæde og Kieñingu, 2. Tim. 4. v. 2. Og vefie sig
ecke i ofmykelle Syslan þessarar Lijfs-Næringar,
ad þeir misþockneft þeim ecke sem þaa hefur kallad
til Strijdsens, 2.Tim.2.v.4. Hafe þeir nu Gaat
a sialfum sier og Lærdoomenum, munu þeir sialfa
sig hiaalplega giøra, og þaa sem þeim heyra. 2. Tim.
4. v. 16. Par næst skulu Ordsens Tilheyrendur,
Kostgiæfa Ordsins Heyrn, medtaka þad med Hog
være, og fylgia þvi sijdañ epter, so sem þvi Lioose sem
skyn i myrkvum Stad, þar til Dagureñ uppreñur
og Morgun-Stiarnañ byrteft i Hiørtunum, 2.
Pet. 1. v. 19. So fylgia þesser Christo epter, þvi
hvør Trwlyndum Ordsens Pienurum heyrer, hañ
heyrer Christo, eñ þeir, hvørier ei heyra nie fylgia
Ordenu, eru ecke i For med Christo. Slijks giæ-
te eins saa Ædste sem saa Lægste Ordsins Tilheyr-
are, er añars vill ad Orded verde sier Ylmur Lijf-
sins til Lijffens. 2. Cor. 2. v. 16. J Lifnade og
Frañferde skal og sierhvør saa, sem ei vill laata sier
nægia ad hafa ad eins Yfer-Lit Gudlegs Nafns,
fylgia epter Dygda-Footsporum Lausnarans JE-
su, stundande Hoogværd, Trw, Elsku, Hreinlijfe,
Myskunseme, Riettvijse, Hlijdne, Poleñmæde,
Lijtelæte, Sparseme, og Heilagleik, J þessu og øllu
ødru Goodu hefur JEsus undañ oss geinged, og
slijkt eru Andans Avexter, er auglijsa sig a hañs
Soñum Epterfylgiurum, med Kostgiæfelegre Upp
byrian hier i Naadeñe, so þeir verde i Tolu þeirra
skijrlijfu Meya, sem honum epterfylgia i Dijrdeñe,
Matth.

Matth. 25. v. 10. Sa vonde Villu og Lijgenar Ande Diöfullen, bijdst hier til Leidsagnar, og lofar stoorum Hoppum og Heilindum, Seigiande: Allt þetta vil eg giefa þier, ef þu frámfellur og tilbidur mig. Matth. 4. v. 9. En hvort mun han vijsa sijn um Epterfylginurum, er ei i Tijma aptursnwa, Andsvar: Þangad sem han a heima i Helvijte og Kvalernar. Lær þu þar fyrer Christen Saala, ad slaa alltijd fraa þier þenan Bölvada Höggorm, sem ecke a Raad eins Vatns-Dropa hvorke fyrer sig nie sijna Luc. 16 v. 24 Hans Hoora Heimurenn, fullur Flærda og Svikseme, vill ad þu skuler eirn en stunda sitt Gied, og seiger, Nu Brosande, nu Bölvande: Fylg Þu Mier Epter. En O Guds Barn, vara þig vid hene, acktadu hvorke henar Klapp nie Kloor, halla þier alltijd ad þijnum Sæta JEsu, i öllu þvi þu adhefst: Fylg Honum Epter, Joh. 21. v. 10. Ad sönu syneft Holldenu þad örd ug Sorgar-Leid ad feta hier epter JEsu, beyst synest hun i Uppbyriuneñe, en hun sætnar ætijd meir og meir i Framkvæmdeñe, allra sætust verdur hun i Fullkomnaneñe; Þetta er þo sa Eine Lijssens og Saaluhiaalpareñar Vegur, Ad Fylgia JEsu epter, hvort þad skal hier vera til Lijfs edur Dauda, þar lender þad þo vid, Añar Vegur giesst eingen til Himnarijkes, Joh. 14. v. 6. Hvor fra honum snijr, fellur i eilijfa Fyrerdæming: Hvornen sem þesse Eymda-Vegur vill falla, er Brauten greid, edur er hun Torvelld, þad er þo allt gott nær JEsus

er i Ferdeñe, þa kañ hvorke Medlæte nie Mootlæte ad skada. Rom. 8. v. 24. Eñ med þvi ad bæde Guds Ord og Reynslañ kieñer, ad faaer af Guds Vinum gaange hier a Roosum, fleyre af þeim hafa maatt feta þraungvañ og Þyrnum vaxeñ Veg, þa skal mier miñ JEsu lynda hañ eirneñ epter þiñe Villd, Eg er þo ecke Eirn a þessum Veige, þar eru og marger af þijnum Astvinum, sem hroosa sier af Hormungunum, 2. Cor. 12. v. 9. Eñ þu ert med oss øllum, þvi skal eg medtaka þiñ Sorgar-Bikar, þier epterfylgia, og yfer sierhvorre Sorgar-Skaal i þijnu Nafne seigia: Eg em þess Fulløruggur, ad hvorke Daude nie Lijf, Eingell nie Hofdingia-Stietter edur Magt, Eige hid Naalæga nie hid Okomna, Hæd, Dypt, nie nockur oñur Skiepna, fær mig skiled fraa þeim Kiærleika Guds sem er i mijnum JEsu Christo, Rom. 8. v. 38. 39. AMEN.

# XXXVII. Capitule.

Uñ Forvitne St. Peturs og Eptergreñslan uñ Æfe Johañis.

Þa snere Petur sier vid, og leit þañ Læresvein epterfylgianda sem Jesus elskade, sa er og uñ Kvølldmaaltijdena hafde a hañs Briooste leiged og sagt, Herra hvør er sa er þig mun forraada? Þa Petur leit þeñañ seiger hañ til JEsu, Herra,

Herra hvad skal þa þesse? JEsus sagde til hañs, ef eg vil hañ blijfe til þess ad eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Pa gieck su Ord-Ræda wt a medal Brædraña, þesse Læresveirn deyr eige, og JEsus sagde eige til hañs, hañ deyr eige, helldur ef eg vil hañ blijfe til þess eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Þesse er sa Læresveirn sem um̃ þessa Hlute ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

ÞAd besta Hlutskipte sem Madur kañ ad æskia sier og ødlast, er Roo og Hvijld, þvi nær hañ hefur þad feinged er hañ aanægdur. Med ongvañ Jardneskañ Hlut kañ Saaleñ Mañsens aanægd ad vera: Þa er hvør Hlutur til Frids, ef hañ hefur þad og fær, sem best a vid hañs Natturu-Far. Saaleñ er odaudleg og oforgeingeleg þvi kañ hun alldrei ad nægiast med neina Forgeingelega Hlute sem eckert eru añad eñ fallvollt Svik og Hiegoome, heñe aanæger eckert neina Gud alleina, nær hun hvijler a þvi blessada Moodur-Briooste sijns Uñusta JEsu, hefur hun ødlast þa riettu Roo og Hvijld, þar epter laangar hana, añarstadar hefur hun eckert Ynde, þa er hun ordeñ eirn andlegur Johañes, um̃ hvorn hier seigest ad hañ leiged hafe a JEsu Briooste, O hid gledelegasta Epterlæte! O

þu

þa roosømustu Ununar Hvijld ! sem i Sañleika maa kallast vered hafe Forsmeckur Eilijfs Lijfs, þar hefur þeim Guds Vin ei þøott laangsøm Tijdeñ, um̃ þañ sama Stad hafde hañ Orsøk ad seigia, Herra hier er oss gott ad vera; Eñ mijn Saal hygg þu ad, þig hefur JEsus eirneñ lagt a sitt Brioost. So opt sem þu aangrud i ymsu Mootlæte og Synda Sorgum, ødlast hefur Huggun og Hugsvølun af þijnum JEsu, so opt hefur hañ lagt þig a sitt Brioost, so sem ein Mooder sitt harmande og siwkt Barn, Jaa hañ hefur lagt sitt Hiarta vid þitt Hiarta, hvar fyrer þu maatt med Sañe segiast ad vera sa Læresveirn sem Jesus hafe elskad. J þvi Haaverduga Kvølldmaaltijdareñar Sacramento, maa þad og med øllum Riette seigiast ad JEsus legge oss aa sitt Brioost, þvi þar sedur hañ hwngradar Saaler vorar med þeirre Himnesku Vellystingu, þar dryckiar hañ oss med Lijffsens Vatne, hvør hier af riettrwadur neyter, lifer eilijflega. Þar sem nu mijn Saal, ad JEsus sedur þig med þessu odaudleikans Gestabode, og Hugsvalar þier med so margre Huggun, og veiter þier allskonar Astwdlegt Epterlæte, hvar med hañ þig vissa giører um̃ sijna elskurijka Naalægd, Jaa lætur þig hvijla a sijnu Briooste, þa hefur þu ødlast þad Gooda Hlutskipte, og þa Arfleifd sem eingeñ Veralldar Metord Audur nie Agiæte er samjafnande, laat þier þar med nægiast, þad mun og ecke fra þier takast, hvør nu i þessum Fadme hvijler, hañ bygger i øruggu

Slote,

Slote, i hvoriu hañ vardveittur verdur til eilijfs Lijfs, þesse JEsu Hond glatar aungvu sijnu, hvar hañ er, þar verda hañs Pioonar eirneñ, þessu hefur hañ lofad, þad brigdar hañ ecke. Sem Petur sa nu þeñañ Lærefvein epterfylgiande seiger hañ til JEsu, hvad skal þesse? Edur hvad a hañ ad lijda fyrer þijns Nafns Saker, A hañ ecke ad dyrka þig med sama Dauddaga og eg? Mier einum seiger þu þetta fyrer ad eg Skule mijnar Hendur wtbreida; edur Krossfestur verda, en hañ þa ekkert Pijslarvætte ad lijda? Þesse Forvitnis Synd sem miøg er Almeñ i Heimenum, hefur og lijka komed i Veg fyrer þaa sañgudhræddu Astvine DRottens, þvi hier er ongvañ so heilagañ ad fiña i þessare Verølldu ad ecke hafe hrasad a einhvorn Hatt, hier hefur eingeñ einunges Madur Syndlaust afkomest, þvi þeir eru aller fraavikner, og aller hafa Skort a þeirre Hroosan sem gyllder fyrer Gude, þeir bestu Meñ hafa stundum hrædelega falled, sem Skrifteñ vottar, so hier sem añars Stadar, og þvi er nu allur Heimureñ vid Gud Sakadur, og ei gyllder neinn sier ad hroosa, þvi aller vier hofum æred miked til Guds Reide og Refsijngar uñed, eñ hafe nu þau sterku Mættar Trien skolsed so hætt, hvors mun þa riwkande Reyr meiga sier vænta, edur þad blacktande Fis, og Kraptalausa Reyr-Straa; Jaa, fare so uñ þau Grænu Trie, hvad mun þa skie þau þurru, þvi ber oss mesta Naudsyn til ad verka vora Sæluhiaalp

 med

med Ugg og Otta, og kasta fra oss þui skelfelega Athugaleyse, og þad þui helldur sem sia͡um og vitum, ad Tijmarner eru nu Hættusamare. Nu med þvi ad Forvitneñar Synd er þad Eitur, sem mörgum syneſt nu lijted Skada þo brwkad sie, eñ er þo a margañ Hatt næsta skadsamlegt þa straffar Herrañ þad hier eirneñ a Petre, bvfalande honum ad fylgia sier epter, eñ hvad um̃ Johañem verda skule varde hañ eckert. Þvi skyllde sierhvor læra ad hnysa ecke ofsmaſinuglega i Guds Heimuglegt Raad og Leinda Dooma sem oss eru of-hafer og oransakanleger. Komer þu of-nærre þvi leiptrande Lioose hiñar eilijfu Guds Speke, maatt þu giæta þijn ad ei breñer þu sialfañ þig, þvi hvor hafa Hlute ransakar, honum verdur þad of-þwngt, Rom. 11.v.33. Con fer, Esa. 40. v. 13.. Þad er ei vid vort Hæfe ad hallda i Haf hiña stooru DRottens Leyndardooma, oss maa þar maklega Sunded bresta, þvi hvad er þad ad vilia stundum upp i Himeneñ klifrast, eñ stundum nidur til Helvijtis, og hyggia sier ad ransaka hvad Gude hafe til þess og þess geinged? Añad eñ afla sier Ohamingiu og verda jafnvel ad Puss og Gudlastara. O Madur hvad ertu? Þecker þu ecke sialfañ þig? Þu ert eirn aumur brothættur Leyr, þvi villtu þa troda þier hærra eñ þiñ Smidur hefur leyft þier, hvar fyrer villt þu þratta vid hiñ Almaattuga, edur seiger nockud Efned til Smidsens hvar fyrer giorder þu mig so? Soddañ Ofdyrfd hefur alldrei good-

añ

añ Enda. Par fyrer mijn Sæl, hvad Gud hefur þier boded þad tak þu þier jafnañ til, og vertu sem hlijded Barn, vitande ad hvad sem þiñ Herra lætur vid þig framkoma, og þier hlotnast, þad verdur þier allt fyrer goodu, þvi hañ sem vill þier allt vel, hañ sier best fyrer þijnu Raade, ef virdest þier ad þitt Hlutskipte sie rijngara eñ sumra añara, til hvorra þu i eitt Siñ og añad Augum reñer, þa misuñ þo aungvum sijns Laans og Lucku, a hvorre þo kañ meiga siña einhvoria Hrucku, þvi ad hliota og niota fer ecke alltijd samañ, og hvad miøg sem eitt Smaa-Meñe vill illa af berast vegna sijns litla Vaxtar, þa lender þad vid sama, nema ad plaaga sialfañ sig. Laat þier þvi o Madur lynda þijns Guds Nidur-Radan, skipe hañ þier i eitt Sorgar-Sæte, so kañ hañ þo og vill giora Vijn af Vatne, og giefa þreittum Krapt, og noogañ Styrk þeim Vanmaattuga, Esa. 40. v. 29. Þvi þar gieta og ecke aller i einum og hinum sama Sesse seted, Þeim eina Joseps Kirtle kuña ei aller hier ad klædast, hitt næger ad aller froomer Guds Viner munu fyrer Hørmungar Sess og Sorgar Klæde hier boreñ, faa Dijrdar Sess og fagrañ Glede Skrwda i þvi eilijfa Lambsens Brwdkaupe. Auk þessa sieaum vier hier ad naalega verde eckert so vel talad nie giort, ad þvi verde ecke snwed a añañ Veg eñ meint og talad er, og siallдañ a betra, hier voru Herrans Ord afbokud af sialfum Læresveinunum, og hvørs Meiga þa adrer vænta sier af Heim-

enum? Hvar af hafa allskonar Villu-Lærdoom-
ar orſakaſt ſem vered hafa, og eñ nu eru? Sañ-
lega af þvi, ad Guds Ordum er umſnwed, og þau
verda af ymſum Villu-Ondum hrædelega afbok-
ud, hvorier lygeſamer Lærendur afneita DRott-
ne ſem þa hefur endurleyſt, leidande yfer ſig ſnøgga
Fyrerdæming, og þeirra Epterfilgiarar fyrer hvor
ia Sañleiks Vegureñ laſtadur verdur, hvorra
Afelle mun ei leinge Dvelia og þeirra Fyrerdæmings
ſefur ecke, 2. Pet. 2. v. 3. Trwum þar fyrer
ecke hvorium ſem einum Anda, helldur ranſokum
þa ædur, hvort þeir ſieu af Gude, og vitum ad
Dioſulleñ kañ lijka vel ad umbreita ſier i Lioſſ-
ens Eingels Lijke, eñ ef vier erum faſthelldner þeſs
ſañarlega Ords og blijfum einfalldlega vid Ord
og Rædu JEſu Chriſti, þa erum vier hañs ſañer
Læreſveinar, og hvor hañs Ord geimer mun ecke
Daudañ ſmacka ad eilijfu. Auk þeſſa þa giætum
þeſs Attunda Bodords vors Guds, og vörunſt ad
færa nockurs Mañs Ord edur Verk a verra Veg,
breſti Mañ Dædina ad færa þau til betra Vegar,
þa ſkyllde þo Eingeñ vera Satans Epterfilgiare i
þinu, helldur ad miñſta Koſte, læta þau ſtanda i
ſijnu Gyllde, ſo hvad vier vilium ad Meñerner gio-
re oſs, þad ſie þeim giort af Hiarta, þvi haſtarleg-
er Urſkurder, og ræingar Utleggingar leida optaſt
Illt epter ſig, og hvor ſiñ Muñ vardveiter, vard-
veiter ſitt Lijf, eñ hiñ Framhleipne kemur i Ognañ
ſem Salomon vitnar. Ef eg vil hañ blijfe til þeſs

eg

og kem, seiger Christur hier um̃ Johañem. Tilko-mu-Dagur DRottens er ecke ad eins hañs sijd-asta Tilkoma til Doomsens, (so sem Læresveinar-ner hier þad wtløgdu) helldur ma og Tilkomu-Dagur hañs riettelega kallast farsæl Lausn og Frelse Guds Barna af þessum Heime, þvi þa ke-mur JEsus og tekur þau til sialfs sijns wr Har-ma-Dal þessum i Himneska Sælu, og so sem þaug hafa honum hier lifad, so deya þaug honum, Jaa, hvort þaug lifa edur deya, eru þaug hañs Eign og Eigeñdoomur, Rom. 14. v. 8. Þa hef-ur øll vor Anaud feinged farsælañ Enda, nær vier sætt sofnader i DRottne wtgeingner erum fraa all-re Astrijdu þessa Heims, og Saaleñ verdur um̃-foomud af sijnum sætasta Uñusta JEsu um̃ alla Eilijfd, hvad oss veite Gud fyrer JEsum Christum Hæst lofadur um̃ Allder, Amen.

# XXXVIII. Capitule.

Um̃ Opeñberan Christi aa Fiallenu i Galilæa, og hañs Skickan ad Postularner Ut fære um̃ allañ Heimeñ.

ENN þeir Ellefu Læresveinar geingu i Galilæam aa Eitt Fiall, þader JEsus hafde þeim fyrer skipad, og er þeir saau hañ, tilbaadu þeir hañ, eñ nockrer efudu þad. Og JEsus gieck til þeirra, talade vid þaa og sag-

de, Allt Valld Er Mier Giefed aa Him̃num Og aa Jordu, fyrer þvi gaange þier Ut um̃ allañ Heimeñ, Prediked Evangelium Allre Skiepnu, Og Kleñed Øllum Þioodum, Og Skijred Þær J NAFNE FØDURS OG SONAR OG HEJLAGS ANDA, og kieñed þeim ad hallda allt þad Eg baud ydur, Hvør Hañ Trwer Og Verdur Skijrdur, Skal Hoolpeñ Verda, Eñ Hvør Ecke Trwer Skal Fordæmast. Eñ Teikneñ sem þeim munu fylgia er trwa, eru þesse: J Mijnu Nafne Munu Þeir Dioﬂa Utreka, Nyar Twngur Tala, Høggorma Upptaka, og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, skal þad þeim ecke granda, yfer Siwka munu þeir Hendur leggia, og þa mun þeim batna. Og sïaaed Eg em med ydur alla Daga, allt til Enda Veralldar. Þar epter var hañ siedur af Jacobo. (1. Cor. 15.)

ÞO hier sieu ecke tilteknar nema þeir Ellefu DRottens Postular, sem hier geingu epter hañs Skipan i Galilæam aa Eitt Fiall, þa er þo ad raada, ad þar hafe fleyre vered med þeim i þessare For af Christi Skoola Bornum, edur Fim̃ Hundrud Brædur,

Brædur, so sem St. Paall giefur ad merkia 1. Cor. 15. hvar hañ þessa tiltekur næst Postulunum. Aller þesser tilbaadu JEsum, eñ þo þeß sie gieted ad nockrer hafe þad Efad hvort þeir hañ tilbidia skylldu edur ecke, þa hvarf strax sw Efasemd wr þeirra Hiortum epter þad þeir hofdu sied hañ, og glogt athugad. Vier þeckium og JEsum Ogi-orla i Krossenum, sem þo er añadhvort hans Fyr-erreñare edur Epterfylgiare, eñ sem hañ kiemur til vor, og talar vid oß fyrer sijna sætu Huggun og Hugsvolun i Hiartanu, lijka sem hier vid hina, og endurlijfgar vorn mæddañ Anda, þa saaum vier glader fulla Þeckingu um̃ þad ad hañ sie þad sialf-fur sem særer og græder, og allt vel giorer og giort hefur, þa verdur og ecke long Bid aa eirnre trwad-re Bæn og Packargiørd epter adra, so ad uppfyll-ast Ord Brwdareñar er seiger, eg hiellt honum og villde ecke sleppa honum. Cant. 3. v. 4. Þvi trw mier, aunger Samfunder erú sætare helldur eñ Sorgmæddrar Saalar og Grædarans JEsu, hvorre hañ hefur þessu lofad og ender þad eirneñ, Eg em hiaa þier i Neydeñe, eg vil þier wtryckia, og þig Vegsamlegañ giora, eda er þad ecke stoor Vegsemd ad eitt Haalm-Straa skule Diofuleñ med allre siñe Magt yfirvińa? Er þad ecke Utry-cking ad giora hina sætustu Saalar-Kiæte og Hi-artans Fognud, af beiskre Sorg og Taara-Foll-um? Er þad ecke naakvæm Hiaavera þegar gior-est Himna-Rijke af Helvijte? Hvor er saa af rei-

ndum Guds Börnum er ecke þecke, þacke og med-
kieñe ſlijka Vidhondlan JEſu vid ſig, og ender a
adurſøgdu Loforde? Þvi hañ helldur öll ſijn
Fyrerheit, hañ hiet Læreſveinunum ad þeir ſkylldu
ſia ad ſia ſig i Galilæa, hier ender hañ þad nu, ſo
ſem allt añad er hañ lofar, þvi hañ er ſiaalfſt Lijfed
og Sañleikureñ, hier i er alltijd Hugfrooe fyrer
allar Trwadar Saaler, og þad meira er, þegar
JEſus ſyneſt leingſt burtu, er hañ næſtur.

A Eitt Fiall ſafnade JEſus ſijnum Læreſvein-
um, þad meina marger Lærder Meñ vered hafe
Fialled Helga edur Tabor, og draga þar til viſs
Rok, einkum þad JEſus aadur fyrer ſijna Pijnu
og Fullnægiu Boot fyrer Synder vorar forklaar-
adeſt a þvi ſama Fialle. Sw Borg ſm a Fiall-
enu liggur fær ei foolgeſt, ſeiger Endurlauſnareñ.
Matth. 5. v. 14. Borg þeſſe er Guds chriſtne,
i þeſſa Borg hefur JEſus þig Jñleidt mijn Saal,
þar fær þu ad ſia þiñ Uñuſta ſem þier veiter alla
Hiartans Gladværd Lijf og Endurnæring, hañ
nærer þig þar, Synda og Sorgmædda med ſijnum
Anda og Orde ſamt Himneſkre Kvolldmaaltijd
ſijns Hollds og Bloods, þar reineſt i þvi Gieſta-
bode, mijn Saal, ſætur Vina-Koſſeñ, þegar hv-
ert yckar kyſſer þar añad, hañ þig i Elſkuñe, þu
hañ i Trwñe, eñ ſo ſætur ſem hañ er nu i þeſſu Gi-
eſtabode, þa verdur hañ eñ þo ſætare þegar þu Lof-
ſens hiedañ uppleyſer og helldur þijna Himna-For
af þeſſu Fialle Upp til þeſs Himneſka Zions Fi-
alls,

alls, og ingeingur i Giesta-Bod Dyrdareñar at Hædum, og fær ad sia þeñañ þiñ. Uñusta so sem hañ er Auglite til Auglites med ollum Utvolldum; Þa mæner þu til þijns JEsu mijn Saal i þiñs Sijdustu Ut-Før af þessu þijnu Hreyse, eñ hañ riætter siinar Hendur a moote, O þeñañ Edla Samsund og sætustu Sam-Veru uñ alla Eilijfd.

A Synai Fialle Utgaf Gud fordum sitt Heilaga Logmaal, er bodade oss Bolvan og eilijfañ Dauda, af þvi þad kuñe eingeñ vor uppfylla, þvi var þad, þad Ok sem oss þvijngade. Eñ af ædurnefndu Tabor Fialle Utsende JEsus sijna Postula uñ Heimeñ ad boda oss sem stoodum i Logmaalsens Bañe þañ saña Fridar Bodskap sem Trwudum ollum tilseiger Kvittun og Fyrergiefning Syndaña. Framar seiger JEsus, allt Valld er mier giefed a Himne og Jordu: Vilier þu þetta riett skilia þa mættu og ættu þad ad wtleggia uppa Christi Mañdoom: Af þvi nu JEsu epter Mañdoomenum er eilijft Einvalld giefed, þa er þad giefed mijnum Broodur, hvør sijnum og mijnum Gude og Fodur greidt hefur fullañ og gilldañ Betaling fyrer mig sekañ og Syndugañ; Jaa fyrst eg er þessum rijka HErra og Konunge so nærskylldur, þa gioerest eg voladur, Snaudur og vesæll uppa hañ til Framfæres, hañ hefur og alldrei fært sig undañ þvi, helldur alltijd vid mier þurfande teked, og mun eirneñ hier epter taka, eirna hellst og best þegar eg fæ ecke leingur iñe i þessum Heime,

verde mier þvi hiedañ wthyst þa HErrañ vill, og ea viist Heimile ai Himnum hiai mijnum HErra JEsu, hañ hefur sialfur dæmt mig uppa sig, eg hefe þañ hañs Doom med hañs eigeñ Bloode skrifadañ, med Stadfestingar Jñsigle H. Anda, i mijnu Hiarta geymdañ. Þar gietur og eingeñ reyngt ockar Skylldseme, þvi eg er hañs Limur, Hollld af hañs Hollde, og Beiñ af hañs Beinum, Eph. 5. v. 30. Þesse Skylldseme hneiger þvi allt-ijd og beiger hañs blessada Hiarta til ad hialpa mier, þar er og eingeñ so sterkur ad mijna Ond slited faae wr hañs Hende, Joh. 10. v. 28. hier uppa vil eg lifa, og sijdañ gladur deyia, hreke mig hvor sem kañ og vill, JEsus medtekur mig. Eñ seig mier mijn Saal, hvar af veitst þu allt þetta? Hvar af veitst þu seige eg ad þu attt þetta framsære viist i allre þiñe Þorf, og seinast i Daudanum? Andsvar, af sialfs JEsu Sañleiks Muñe hefe eg þetta, hañs eigeñ Handskript vitnar þetta, sem er hañs H. Evangelium fullt allmargra Raadar Fyrerheyta hier uppa hliodande, sem oll Sorgfull Hiortu endurnæra, hvort ad predika allre Skiepnu, JEsus hier af sijnu Guddooms Vallde wtsende sijna Postula um allañ Heimeñ, og bryniode þaa med Astgiofum H. Anda, so þeir gengu glader til þessa Verks, Jafnvel þo soddañ Embættes Vegur være næsta Torsooktur, þvi þesse Heimur er riett kalladur eitt Diosla Heimkyñe, sem jafnañ færer eitt sijfelldt Strijd i moote Gud-
og

og hañs Piodrum, elskar Myrkureñ, eñ hatar Li-
osed, samt hafa þesser Guds Pioonar predikad
Evangelium, þad er, ad Meñ skylldu elska JEsum
og trwa aa hañ, og af Trwñe og Elskuñe til hañs
giora hid Gooda, soddañ hafa þeir predikad, og
þad predikast eñ allre Skiepnu, þad er Moñunum
sem skynia kuña Ord DRottens, þvi so sem JEs-
us hefur ollu Mañkyne afrekad Saaluhiaalpena,
so vill hañ hun skule ollum frambioodast, hvar af
auglioost er hañ vilie einkis Mañs Glotun, og
aungvañ Syndara vilie hañ wtelykia, nema hañ
sem sialfur sig med Oendanlegre Vantrw wtelyk-
ur: Medtak þad þvi mijn Saal med Trwareñar
Hende, sem þiñ JEsus rietter ad þier med siñe
Naadar-Hende.

Auk þessa bydur JEsus ad skijra i Nafne FO-
DURS, SONAR, og ANDA HEIL-
AGS, hier er eñ þa eitt lioost Vitne uppaa adur-
nefndt, þvi þar sem þu mijn Saal hefur þeñañ Gu-
ds Naadar Saattmaala medteked, þa ert þu vord-
eñ Oska-Barn lifanda Guds, og allra Himnesk-
ra Giæda Erfinge fyrer Trwna aa JEsum Christ
um hvorium þu Iklædd ert, hafande H. Anda i
Pant, sem verkar Riettlæte Frid og Fognud i þij-
nu Hiarta, og giorer ad þar verdur Guds Rijke
Iñe; Eñ siaa verdur þu vandlega epter ad ei med
taker þu þessa Guds Naad til Onijtes, helldur fyr-
er Hiaalp og Helgun Andans auglyser þijna Trw
med goodum Verkum, til hvorra þu ert skopud i
Christo

Christo JEsu, ad þu gaanger i þeim, Eph. 2. v. 10. Þvi hvorneñ kant þu ad hroosa þier af Trwñe, nema hun sie verkande fyrer Kiærleikañ, þa kuña Meñ ad siaa þetta Lioos og ad þu geymer JEsu Ord, og hallder þau soñ, ef þu lifer epter þeim, giører þu so, þa ertu JEsu Vinur, hvorneñ mattu seigia eg er Mustere H. Anda sem verkar Trwna, nema Andans Avexter auglijsest aa þier, sem eru þesser: Kiærleike, Fognudur Fridur, Poleñmæde, Blijdleike, Goodgyrne, Trw, Hoogværd Bindinde, Gal. 5. v. 22. og soddañ meira; Ef þu lifer alltijd i sañre Ydran og Aflaate Syndaña, lof ar Gud, bidur og þackar honum jafnlega, ert þoleñmoodur og hoogvær i añara Areitne og Meingiørdum, blessar og bidur fyrer þijnum Naunga, so auglijser þu þig ad vera riettttrwadañ Mañ, og ert morgum Krapta-Verka Moñum betre, þvi ad lifa Gudrækelega i christelegre Kyrkiu er meira verdt eñ Kraptaverk ad giora; Guds Ord hvørium þu aatt ad trwa, og þar epter ad giora, eru þier so breitande, vijst Teikn eilijfrar Saalu hiaalpar. Jaa, þar sem þu so hefur JEsu Ord, og helldur þau, þa elskar þu JEsum og elskast af honum, so hañ er med þier og þvilijkum alla Daga allt til Enda Veralldar, ecke ad eins Almeñelega, helldur sierlega, med Elsku Jbwd, Vernd, og Velgiørdum, hañ er med, ei sem Jardneskur Vinur sem kiemur, og fer Jñañ Skams aptur, so ad Einsleg-leike Skilnadarens verdur þa opt ecke miñe eñ Fognud-

Fögnudur Samveruñar, helldur er þesse elskuleg-aste Vinur JEsus med sijnum alltijd i Sorg og Glede, Hvijld og Erfide, Nott og Dag, Lijfe og Dauda. Mijn Sæl, þetta er þiñ fegursta Fögnudur, þetta er þijn einka Rooseme, Ja eitt Himneskt Epterlæte ad þiñ JEsus er hier nalægur, og fyrst hañ er med þier, hvor kañ þa ad vera a moote þier? Fyrst hañ stidur þig, hvor kañ þa ad fella þig? Fyrst hañ huggar þig, hvor kañ þa ad hrygg-ia þig? Af hañs Medveru þiena þier aller Hluter til hins besta; Þar fyrer vil eg þetta þitt Loford, O HErra JEsu, Umfadma med Trwñe, og mi-er vid þad hallda i hvoriu sem ad Höndum kiemur; J mijnum Veikindum Besölld og Breiskleika ert þu miñ Stirkur, mijn Nægd i Skortenum, mijn Hiælp i Neydeñe; Miñ Skiolldur og Veria i Strijdenu; Mijn Vernd i Hafkanum; Mijn Huggun i Sorgunum, mitt Frelse af öllu Fang-else og Snorum; Mitt Lioos i Myrkreuu; Mitt Lijf i þessu Lijfe, mitt Lijf i Daudanum, mitt Lijf i Upprisuñe og mitt Lijf i eilijfu Lijfe. O JEsu miñ Gud og HErra, miñ Brooder og Brwdgume, miñ Emanuel, eg bid, vert þu med mier, so geing-ur mier allt vel, so verdur allt beiskt Vatn i þessare Mara ad sætu Vijne, vertu alltijd med mier hier Tijmañlega, so eg meige þar sijdañ vera med þier, þig lofande, Eilijflega med öllum Utvölldum, A M E N.

# XXXIX. Capitule.

Um̃ Underwijsning Christi Uppstigningar.

ENN han̄ var uppnumen̄, Epter þad han̄ hafde Postulunum Byfalning giefed, hvoria han̄ hafde Utvaled fyrer Heilagan̄ Anda, hvorium han̄ tiede og siaalfan̄ sig Lifande epter Pijsl sijna i marghaattudum Bevijsingum, og liet þaa siaa sig um̃ Fioorutijge Daga, Talande fyrer þeim af Guds Rijke. Og sem han̄ hafde þeim saman̄safnad, baud han̄ þeim ad þeir vike eige wt af Jerusalem, helldur ad þeir skylldu bijda epter Fodursins Fyrerheite, og sagde: Siaaed ad eg vil senda yfer ydur Fyrerheit mijns Fodurs, sem þier hafed af mier heyrt, En̄ þier skulud vera kyrrer i Borgen̄e Jerusalem, þar til þier J-klædest Krapte af Hædum, þviad Johan̄es skijrde med Vatne, en̄ þier skulud med Heilogum Anda skijrder verda, eige laangt epter þessa Daga. En̄ þeir sem þar voru til samans komner, spurdu han̄ ad og sogdu: HErra, villt þu nu aa þessum Tijma upprietta aptur Jsraels Rijke? En̄ han̄ sagde til þeirra: Ydur ber ei-

ad vita Tijma edur Stunder, hvoriar Fad
ereñ sette i sialfs sijns Valde, helldur mu
nu þier edlast Krapt Heilags Anda, þess
er yfer ydur mun koma, og þier skulud mij-
ner Vottar vera til Jerusalem, og i allre
Judæa og Samaria, og allt til Jardar-
cñar Enda. Eñ hañ hafde þaa wt allt til
Bethaniam, og hoef upp sijnar Hendur,
og BLESSADE þaa.

SO sem þad eirn goodur Hws Fader under sij-
na Burtfor og Vidskilnad, samañkallar sitt
Heimilis-Foolk og Vine, og Raadstafar sierhvør-
iu, sem hönum þyker best henta, Kvediande sijdañ
med Blessan og goodum Oskum. So hefur og
eirna best soo mykle Hws-Fader, og Ædste Bisk-
up sijns Hwss, Ebr. 10. v. 21. JEsus Christur,
Hofundur og Fullkomnare vorrar Saaluhiaalp-
ar, Allre Skipan sijns Hwss Nidur-radad, ei
ad eins aadur hañ gieck til siñar Pijnu, helldur og
epter sijna Uppristu, aadur hañ uppstie til Himna,
um hvorn siñ Hierveru Tijma hañ samañsafnade
sijnum Sundurtvijstrudu Saudum, styrkte þaa i
Trwñe um sijna Uppristu, med sialfs sijns lifande
Opeñberan, med Syningu Saara Orana, med
Matar-Neytinguñe, med Samrædum aastwdleg-
um vid þaa, med Opeñberan Guds Raads af Rit-
ningunum og þeirra Utleggingum, og þetta i marg-

ar Reisur, so og ytrekande fyrer þeim sijnar Byfalningar, og stadfestande þaa i adur tilkiornu Embætte ; Til ad koma þessu og þvilijku ollu vel til Rietta, dvalde hañ, fullur Elsku og Mysknunar hiaa Sijnum hier a Jordu epter Upprisuna i Fioorutijge Daga, betalande so sijnum Astvinum þær Fiorutijge Sorga og Sʍta Stunder sem þeir þreyia maattu epter hañs Andlaat, medañ hañ hvijllde i Grofeñe, og þad med eins morgum edur Fiorutijge Medveru Dogum, þañig bætte JEsus þeim Sorg þessa, med meir eñ Tvofolldum Bootum. So maatt þu eñ bwast vid hñs Millde og Myskunseme, þu Guds Barn, þegar hañ hefur grætt þig, so gledur hañ þig aptur, tekur hañ nockud fraa þier, þad þo sem hañs er, eñ ecke þitt, þa giefur hañ þier Tvofalldt aptur, so hefur hañ alltijd breitt vid sijna, so breiter hañ og vid þig: Nu telur hier hijna Sorgar-Daga, þar veitast þier epteraa Otolulega marger Fagnadar fuller Glede-Dagar; Margar eru hier þijnar Erfides-Stunder, Oteliande verda þijnar Hvijlldar-Stunder, Apoc. 14. v. 13. Hier vid skallt þu þig hugga i ollum þijnum Eymdum og Erfide, huxa af-fram i Nijngd þessa Lijfs Hormunga aa ysergnæfañlega Nijngd Epterkomande Eilijfrar Dijrdar. Eñ vilier þu nu þessa bijda, þa maattu ecke vijkia wt af Jerusalem, þad er, þu verdur þa ad vera Eirn Andlegur Borgare og Heima-Madur i þessare strijdande Guds Christne hier aa Jorduñe: Jaa, þitt Hiarta maa vera þa ein And-

leg

leg Fridar-Sioon, hvar iñe Gud hafe siñ Ofn og Elld, sitt Rijke, sijnar Verkaner, þitt Hiarta skal vera, seige eg, eitt Simeonis Hiarta, sem Hiartañlega sæker og bijdur epter Huggun Guds Lifanda, eñ aktar alla Veralldar-Glede faafeinga, sem leidest Utlegd sijn vid þesse Babylons-Votn, eñ laangar i Himeneñ til þeirrar Sigre-hroosande Christne; Þitt Hiarta maa opt med heimuglegum Taarum, Andvarpa yfer Trodning og sijfelldre Onaadan Ovinaña; Holldsens, sem gyrnest i moote Andanum; Diofulsens, sem allt vill uppsvelgia; Heimsins, sem med siñe aahvetiande Lyst vill locka, edur med sijnu Ofbellde þreyngia, hræda og hæda; Þvi þad Hiarta, sem hier verdur opt laugad i Vatne Taraña aa slijkañ Hatt, og iñþreynger sier so med heitre Andvarpan i Undernar JEsu Christi, verdur aptur laugad og yferdreift med Hugsvolun Heilags Anda, hañs Fride og Forsmeck eilijfs Lijfs, og fær uñ sijder ad upphefia Hofuded, nær þad eilijfa Iubil-Ar uppbyriast. Þvi skallt þu nu med Kyrd og Poleñmæde bijda aa þessum Utlegdar-Arum Fagnadar-Arsens, þad kiemur iñañ skams epter þessa Daga, þvi ecke seinkar Gud sijnu Fyrerheite, þo nockrer hallde þad fyrer Seinkan, helldur bijdur hañ epter oss næsta þoleñmoodur, hañ hefur longu aadur bætt þad nidur-fallna Davids-Hreise, eñ nær hañ vill Endurbæta þad ad fullu Lite med siñe Komu til Doomsens, og Uppbyrian sijns eilijfa Dijrdar-Rijkes, þar uñ hæfer oss hvorke

ke nie vardar ad grenslast, þvi þad veit eingeñ, nema Fadereñ eirn, ecke Einglar Guds a Himnum, og ei Sonureñ, Marc. 13. v. 23. Þvi hañ var ecke sendur oss þad ad Opeñbera, þo hañ, Fodursins Kraptur, og Eitt med honum, epter siñe Guddooms Alvitsku visse þad sañarlega, þvi aller Hluter eru nakter og Ohulder fyrer hañs Augum, Ebr. 4. v. 13. Lijka vel epter Mañdoomenum, þar i honum bijr oll Fylling Guddoomsens Lijkamlega, Col. 2. v. 9. Og sa sem hefur allt i sijnu Vallde, hañ hefur allt i siñe Vitund. Vit þu Christeñ Madur, ad hwa þig vel aa Metnadar og Dofeñleika med Ugg og Otta, under þad Ovissa, so Daudans sem Doomsens Takmark, sem hastarlega mun koma, og þa sijst varer, hvar til ef þu stundar, muntu Kraptodlast af Hædum, Jaa, sa mikle Guds Kraptur, sem Ædre er ollum Mañlegum Skilninge, mun vardveita þitt Hugskot, Siñe og Skilningar-Vit i Christo JEsu þijnum HErra, so þu verder aa hañs Tilkomu Deige, nær hañ til fulls upprietter Israels Rijke, verdugur ad standa frame fyrer honum, so sem sa, er hier hefur vardveitt hañs Vitnisburd, og iñleidast sijdañ i eilijft Lijf. Þar fyrer Guds Barn, so sem nu JEsus hier utleidde sijna Læresveina allt til Bethaniam, hvad ed þijder Eitt Sorgar-Hws og Hrygda-Heimkyñe, so leider hañ sijna Astvine eñ, Fyrst til þeirrar Mædusomu Bethaniæ þessa Lijfs, i hvorre þeir drecka meiga Eirn swrañ Sorgar-Bikar epter Añañ, adur hañ tekur

tekur þa iñ a Sal eilijfrar Dijrdar a Himnum, hañ tilſkickar oſs Rijke, lijka ſem Faderen tilſkickade honum, Hañ hlaut fyrer Forſmaan Kvaler og Daudañ iñ ad gaanga i ſijna Dijrd, vier og eirneñ fyrer margar Hormungar i Guds Rijke. Act. 14, v. 22. JEſus ſtie af Oliu-Fiallenu upp til Himens, a hvoriu hañ fyr hade hañ hardaſta Bardaga vid Daudañ, Dioflum og Helvijte, og vañ a þeim eirn agiætañ Sigur, þad ſem hañ þar i Strijdenu afrekade oſs, þad ſynde hañ hier nu Opeñberlega, ſem var, Himnafør allra þeirra ſem a hañs Nafn trwa, hvoria þeir hallda ſijdarſt, nær þeir ſkilia vid þeñañ Heim, So ſem hañ og ſiaalfur vitnar med ſiñe Bæn til Fodurſens, Seigiande: Fader, hvoria þu gafſt mier, vil eg ad hvar ſem eg er, þar ſieu þeir og med mier, ſo þeir ſiae mijna Dijrd. Joh. 17. v. 24. A þeſſu Fialle hafde Frelſareñ opt haft adur ſiñ Natt-Stad, ſm Lucas vitnar: Cap. 21. v. 37 Og giørt þar ſijnar Hiartnæmar Bæner til Fodurſens adur hñ leid ſijna Pijnu, og hefur hañ þa eirneñ ſañarlega minſt under eins ſiñar Himna-Farar, og þvi fwslegar uppbyriad ſiñ ſtraanga Bardaga, og ſaruſtu Pijnu i þeſſum ſama Stad, fra hvorium hañ nu i ſtoorre Vegſemd og Sætum Sigre uppſtie til ſiñar Eilijfu Dijrdar.

Allt þetta ſkallt þu nu vel Rootfeſta Chriſteñ Madur, Þar til iñleider JEſus þig i Bethaniam Hormungaña, hvar hañ ſender þier marga Sorg

ar-Noott, so þu skuler temia þier þar iñe Andlega Himna-For, og verda þvi betur tilreiddur til þiñar Siidustu og Fullkomnu Himna-Farar; Eñ þesse Andlega Himna-For maa Bæneñ Riettelega kall ast, nær hun er alvarleg, þvi þo Auguñ sveime þa i heitu Taara-Floode, er Hiartad allt a Himnum hia siinum HErra, liggiande þar sem Faatækur og Saarum vafeñ Lazarus fyrer Veitarans Foot um, og klagar fyrer honum sem Barn fyrer siñe Moodur; siina Neyd og Angist, ad bidia so, maa seigiast ad deyia i Bæneñe, þad maa nalega seigiast uñ so bidiande Mañ, var hañ i Liikama edur utañ Liikama, Veit eg eige, Gud veit þad, hañs Hiarta er a medañ Sañlega vorded eitt Himna-Riike, hvar JEsus hefur sier Herberge teked, þvi-ad Bænareñar alvarlegrar heitrar og Sañ-Trw-adrar Kraptur er þvilijkur, ad hun giorer so sem ein Andleg Fadmlog millum Guds og Mañsens, Madureñ fadmar þar og vefur Gud ad sier i Trw-ñe og Andvarpaneñe, eñ Gud aptur Mañeñ i Mys kun og Medaumkan siñe, þar af sprettur Hiartans Endurnæring, og Hægd Hugarens, so ad sa sem fyrer stuttu gieck nidurlwtur af Sorg til þessarar Bænar-Ydiu, snijr gladur til Baka med uppriettu Hofde, soddañ Madur kiemur ecke Toomhendtur aptur wr þessare Reisu; Eñ til soddañ Himna-Farar brwkar Gud optast Kross og Mootlæte, so sem eirn Andlegañ Jacobs Stiga, þvi skal nu su Gata, þo hun sie Holldenu þrongsær, vera þier vel-

komeñ

komeñ þu Guds Barn, þesse Skoole er Kieñars margra Dygda, sem ææn hañs verda all-lijtt stundadar, Petta er seige eg, Vagneñ til þeirrar Eilijfu Vegsemdar, hvor hañ hatar, hañ hatar sitt eiged Lijf og Velferd.

Ad Sijdustu hoof JEsus upp sijnar Hendur og Blessade sijna Læresveina; Þesse Bruñur allrar Blessunar, byrte þad hier med Verkunum, sem hañ hefur oss befalad med Ordunum, sem er ad Blessa eñ Bølva ecke, hañ Eirn bijter oss allre Blessan, Andlegre og Lijkamlegre, Tijmañlegre og Eilijfre, eñ þeir Uppsprettu-Læker, hvadañ Straumar allrar Blessunar til vor reña, eru hañs Signud Saar og Under, so Handaña sem añara hañs Lima, Þessar Hendur hiwka oss i Lijfe og Dauda, Þessar Hendur hugga oss i Lijfe og Dauda, J þessum Hondum stendur allt vort Hiaalpræde, þvi skal til þessara Handa flyia i allre Neyd i Lijfe og Dauda; Þijnar Hendur O JEsu geyme oss hier breygiande, og medtake oss hiedañ farande, So skal þitt Lof þar i moot af oss hlioома, hier uppbyriad med Taara-Raust, eñ þar framñsærast med sætt-klijngiande Glede-Raust. Blessadur sie Gud og Fader DRottens vors JEsu Christi, sa oss hefur blessad med allshattadre Andlegre Blessan i Himneskum Giædum fyrer JEsum Christum, AMEN.

* * *
** ** **

# XL. Capitule.

Um̃ Sioalfa Uppstigninguna og Setu JEsu til Guds Hægre Handar.

OG þad giørdest, ad epter þad Drottenn hafde talad vid þaa, þa hañ blessade yfer þaa, og sagde þetta: Ad hñ skillde vid þaa, og vard þeim aasiaaendum uppnumeñ, og Eitt Sky took hañ upp i burt fraa þeirra Augum. Og hañ foor upp i Himeneñ, og situr til Guds Hægre Handar, Eñ þeir Tilbaadu hañ.

AF þessum Hofud-Greinum vorrar Trwar, hefur þu Saal mijn, Þetta Epterfylgiande ad athuga.

1. Epter hvørre Naatturuñe þiñ Lausnare sie til Himna uppfareñ, sem er epter siñe Mañdoomlegu Naatturu, þvi epter Til-lite til heñar, er hañ Læckadur, Gieteñ, Fæddur, Pijndur, Krossfestur, Deyddur og Grafeñ, lijka og epter heñe upphafeñ, so sem Skrifteñ allvijda vitnar; Mañsens Syne var giefed eilijft Valld seiger Daniel, Dan. 7. v. 14. Mañsens Syne var giefed Valld til ad hallda Doom, Joh. 5. v. 27. Mañsens Syne er Magt giefeñ ad fyrergiefa Syndernar, Matth. 9. v. 6. Mañsens Sonur mun sitia til Kraptarens Hægre Handar. Matth. 26. v. 64. Allt þetta skilst uppaa Mañdoomeñ Christi, þvi er hañ epter

Mañ/

Mañdoomenum uppstijgeñ, þvi Gude kañ eckert ad giefast, hañs eru aller Hluter, hañ kañ ecke fram ar ad upphefiast eñ hñ er, hñ var, er og mun vera, hiñ Hæðste HErra DRotteñ Zebaoth. Þetta er hiñ stæðste Fognudur fyrer oß aumar Mañeskiur, ad vier vitum og trwum fyrer viist, ad vort Holld sie i Christo til Himneskrar Hætignar uppha sed, þetta er þad sim Paulus seiger ad Gud af Naad siñe hafe oß sialfum sier backnæma giort i Sijnum Elskulega. Eph. 1. v. 6. Være þitt Barn edur Bro oder eirn Kongur, þa munder þu þo Fatækur vær er, þar af þier hroosa, og nockud þykiast, þo samt er eirn Kongur eins Molld sem þu, Þid veiged bæder eins myked fyrer Gude, hiaa hvorium ad er eckert Persoonu Alit. Skal þier þad þa ecke vera Eitt Fagnadar-Efne, ad sa Eilijfe, Fullriike, Almaatt uge, Myskunsame og Goodgiarne Guds Sonur, Kongur Kongaña og DRotteñ DRottnaña er þiñ Brooder, þad er Heidur yfer allañ Heidur, Ja, O-wtseigiañleg Virding, og þesse Virding heyrer þier so vel til þu Umkomulause Vesælingur aa Jorduñe, so sem einum Stoor-Herra og Kon unge. Þetta þitt og mitt Blessad Hofud og Herra, er ecke ad eins sialfur uppstijgeñ til Eilijfrar Dijrdar, helldur og eirneñ mun hañ oß sijna veiku Lime og fatæka Ættingia þaangad til sijn hefia, so vier sieum þar sem hañ er Eilijflega. Vier mænum nu epter þeim Vagne, Ps. 104. v. 3. Sem þaangad flitie oß sem fyrst, þvi hier er margfallde

O-Ynde, þar eiliijst Epterlæte, þo skulum þessa bij-
da vakande og þoleñmooder. Eitt Sky flutte vo-
rn Hiartans HErra i Himeneñ; Þesse-Vagn
auglijste hañs Vellde, hañ ha‿ar þessu a lijkañ
Hautt vid oss; Skyeñ Hormungaña og ymsra
Þreinginga i Utlegd þessare, ætla eg ad flytie best
vorn Hug og Hiarta i Himeneñ, Þar til lætur
DRotteñ þau hier yfer oss dragast, so Foreñ su
alfarna sijdast verde þvi greidare, og eingeñ Ver-
alldleg Umsvif skule þa tefia fyrer þeim, sem eru ad-
ur dauder vordner Verolldeñe med sogdu Moote,
ædur eñ þeir deyia, Sie þad þaangad til þijn og
mijn Dægra-Stytting þu Guds Barn, nær sem
vid lijtum til Skyaña, sem opt skiedur, ad miñast
a, og hugsa Hug-glader til þess eilijfa Heimkyñes
og JEsu Tilkomu a Efsta Deige; nær hañ kiem-
ur med sijnum Einglum med Magt og myklu Vell-
de, Matth. 25. v. 3. Til ad giora fullkomna Lausn
siña Utvalldra, ad vier meigum þa vera vel vidbw-
nær og vakande fundner, Þar til hiaalpa þu oss miñ
Sæte HErra JEsu, og laat oss þar til styrkia þiñ
Heilaga Anda, so Eilijfañ Sigur odlast mættum.

Þegar vor Frelsare stie hijngad nidur i Hollded,
skiede þad i hiñe diwpustu Fatækt, hañ umgieckst
oghier a Jorduñe i Þioons-Mynd, Phil. 2. v. 7.
8. Hafande ei hvar hañ kyñe sijnu Hofde ad ad
halla; Eñ nær hañ foor hiedañ til Himens aptur,
skiede þad i hiñe Vegleguſtu Majestatis Dijrd og
Æru. A lijkañ Hautt hegdar hañ eñ Hlutskipte

siña Ast-Vina, hañ Liitelæckar þaa fyrst og upphefur sijdañ, hañ Hryggèr, og sijdañ Gledur, hañ Piaæer og Piakar, Hiwkar sijdañ og Endurnærer, hañ lætur alltijd Swrt gaanga undañ Sætu, þad Fyrra er Underbwningur til þess Sijdara, hañ byriar margt Barndomslega fyrer Heimsens Augum, Jaa, undarlega, eñ endar þad næsta Wijsdomslega, hañ uppbyriar Veiklega, eñ endar þad Vollduglega; Seig þui ecke i þiñe Neyd þu Guds Barn, eg geing til Gruña, helldur so, O Notteñ, hañ giorer mier til Gooda, þesse hañs Smyrsl, eru mier til Lækningar, þui skialldañ er Upphafed lijkt Endinguñe, þu sem aiest hefur upp aa JEsu Briostum, maatt vel þeckia Haatt hañs Rijkes og Hegdunar, vert þu ecke saa sem jafnlega lærer, og kiemst þo ecke til Peckingar Sañleikssens, þui þad er illur Lostur, og framar Um̃merke Fordæmdra, eñ Eilijfs Lijfs Erfingia: O HErra JEsu, hondla vid mig sem þier lijst, þijn Widhondlan hefur alltijd goodañ Enda, Eñ nær hañ er goodur, er allt gott.

2. Skalltu Hugleida hier mijn Saal, hvert þiñ Herra sie uppstijgeñ; Til Himens seiger Textiñ. Postuleñ Paull seiger ad JEsus sie hærre eñ Himeneñ, Ebr. 7. v. 26. Og eñ seiger hañ, ad JEsus sie uppfareñ yfer alla Himna, Eph. 4. v. 10. Himen kallast fyrst Lopted edur Skyeñ er vier siaaum, til hvors Christur meinar segiande, lijted a Fugla Himensens, Matth. 6. v. 26. Af þessum Himne giefur Gud Regn og Grooda,

 Devt.

Devt. 28. v. 12. Þar er og Festingar Himeneñ, edur sa stirnde, uñ hvorn Gud talade so til Abrahams, lyt upp til Himens og tel Stiornurnar, Gen. 15. v. 5. Hier i þessare Hofud-Grein meinast ecke sa skapade Himen edur Himnar, helldur Tignareñar Himen, þad Hws, Lioos, Vellde, Dyrd og Lioome sem eingeñ Madur kañ wt seigia, hvar Guds allra kroptugasta ollu stioornande, og allstadar nærverande Dyrd og Majestatis Vellde bygger, þangad er JEsus uppstijgeñ, so hañ uppfylle alla Hlute, Eph. 4. v. 10. Soddañ Dijrdar-Vist og Himneska Jerusalem med eilijfum Fognude og Glede Omælañlegre eiga Utvallder eller fyrer Hondum, og munu þar hia DRottne vera eilijflega, og liooma þar sem Sool i Rijke Fodurs þeirra, slijkt hefur oss Jesus afrekad. Adam lokade fyrer oss þessu Heimkyñe, i sijnu hriggelega Falle, eñ sa añar Adam JEsus upplauk þvi fyrer oss aptur, nær hñ þangad stie i siñe miklu Dyrd, so ad lijka sm̃ vier hofum bored Lijking þess Jardneska Adams, so munum vier og bera Lijking hins Himneska, og ei hefur þad nockurt Auga sied nie Eyra heyrt, hvad Gud hefur fyrerbwed þeim sm̃ hñ elska, 1. Cor. 2. v. 9. Þar afþerrar Hond DRottens oll vor Augna Taar, þar er eingeñ Kveinan framar, eige Daudeñ nie nockur Pijna, þetta hid fyrsta er þa forgeinged, Apoc. 21. v. 4. Hier til O JEsu langar mijna Saal, og alla þijna elskulega, er so seigia: Kom þu DRotteñ JEsu; Kom þu snarlega,

lega , þar til þesse Osk fullkomnast, erum vier þar uppe hiaa þier miñ Herra, i Voneñe og Trwñe, eg er þess fullviss af þier, ad þad Samband hverre ecke helldur aukest, og fullkomnest um̃ siider.

3. Skallt þu huafesta þad mijn Sæl, ad þiñ Herra situr til Guds Hægre Handar, þad ættu og ad skilia epter hañs Mañdoome; Og fyrer Guds Hond, Hond Guds Fodurs; Eñ med þvi Gud er eirn Ande, Joh. 4. v. 24. Ha hefur hañ hvorke Holld nie Bein, Hond edur Foot, þo so sie ad Orde kveded, epter Mañlegre Vijsu, vegna vors veika Skilnings, þvi skilst nu fyrer hañs Hond, hañs Almætte, Luc. 22. v. 69. Hañs Kraptur og Yferburder yfer ollu, Ps. 118. v. 15. og 77. v. 11. Hañs allstadar Nærvera, Psalm. 139. v. 10. Hañs Alvitska, Ebr. 4. v. 13. Hañs Tign og Majestatis Dijrd, Ebr. 1. v. 3 Og so sem þetta er nu sa riette Skilningur epter Skripteñe um̃ Merking Guds Handar, so er og Frelsarans Seta a sama Veg Skiliande, edur ad hañ sie epter Mañdoomenum næstur Gude ad allre Makt, Krapte, Yferburdum, Nær-Veru, Alvitsku, Dyrd, Vellde og Stioornan allra Hluta æ Himne og Jordu, og þar sie eingeñ Munur Christi Guddoomlegrar og Mañdoomlegrar Nattúru, nema hvad su Guddoomlega hefur af sier sialfre fyrer alla Eilijfd, þad hefur su Mañdoomlega odlast i Tijmanum, fyrer Guddoomsens Ibwd, so nu er þad ekkert sem honum sie ecke undergiefed,

Ebr. 2. v. 8. Gled þig nu Sæl mijn, gled þig seige eg yfer.slijku, Phile. 4. v. 4. 5. Ad þiñ Bræder JEsus, Stioornar bæde og rædur ollu at Himne og Jordu, er og allstadar med þier og hiar þier, hañ bidur fyrer þier, hañ er þijn Huggun moot Syndeñe, hañs Blood hroopar Naad og Myskun yfer þier, hvør kañ þig þa ad aklaga? Rom. 8. v. 33. Hañ er þijn Hialp og Huggun moot Dioflenum og ollu hañs Raadaneyte, fiær og nær, upp og nidur og allt um kring, Raadslag þesser a moote þier, JEsus onijter þaug Raad. Hañ er þijn Huggun moot Daudanum, þvi hvad er nu þiñ Daude? Añad eñ þijn Himna-For, hñ slijtur þetta Samvistar Band Sælar og Lijkama, hñ leyser fra Lijkama þessa Dauda, so ertu laus misn kiæra Sæl, og med þad fer þu i Hiñneska Sælu: Og so sem þad oteliande Her Himneskra Guds Eingla umkriingt hefur JEsu Christi þijns Broodurs Sigur Vagn i Himeneñ; So verda þeir og eirneñ þiñ Reisu-Vagn i Himineñ a þiñs Burtferdar Tijd, og þegar þu kvedur seinast Lijkamañ, syngia þeir so yfer þier burtfarande, under eins og þeir hefia þig i Himeneñ, þetta er sa Madur sem komeñ er wr miklum Harmkvælingum, og hefur yferuñed fyrer Lambsens Blood; Eñ Guds Born hier, yfer epterverande Naakolldu Hreise: Hañs Mootlæte Hrygd og Mæda, hefur nu oll Ending gooda etc. Nu, O Herra JEsu! so sem eg af Hiarta vil treysta og treyste þier fyrer allt gott,

so bid eg þig miñ Hiartans Herra fyrer þitt Blood og Under, samt alla þijna Verdskulldan, ad þu uñer mier med øllum Guds Børnum, soddañ Endalyktar a miñe Hiervistar Mædu, so eg eilijfañ Fognud med þier saæ, mijn Von og Trw seiger hier til Amen, þijn Trwfeste og Sañleikur seiger og hier til Amen, Jaa sañarlega þad skal so vera. Eñ þier hædste Herra JEsu, sem ert A og O Upphaf og Ender, aasamt þijnum Himneska Fodur, og H. Anda, sie Lof og Prijs, Dijrd og Speke, Packer og Heidur, Kraptur og Styrkleike, Amen Amen fraa Eilijfd til Eilijfdar A M E N.

SOLI DEO GLORIA.



Eitt Lof-Saungur og Responsorium Ut af Uppriſuñe Christi. Med Ton, J Dag er Christur uppriseñ, etc.

## KORENN.

UPprisen er nu JEsu Christ, Haleluja, Haleluja. Saa allañ Heimeñ hefur leyst, Haleluja, Haleluja.

Ef hañ ei uppriseñ være, Haleluja, Haleluja. Oll Verolld þa fyrerfæreſt, Haleluja, Haleluja.

Þar hañ er nu uppriseñ viiſt, Haleluja, Haleluja. Aller lofum vier JEſum Chriſt, Haleluja, Haleluja.

Heilagar Kviñur komu Priſar, Haleluja, Haleluj. Til Chriſti Grafar þegar i Ar, Haleluja, Haleluja.

Leitudu hañs Liikama þar, Haleluja, Haleluja. Lauſnareñ þa uppriseñ var, Haleluja, Haleluja.

Heilaga Eingla hittu Tvo, Haleluja, Haleluja. Hryggvar Kviñur þeir gloddu ſvo, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

Hrædſlu leingur ei hafe þier, Haleluja, Haleluja. Hvørs nu leited, hañ er ei hier, Haleluja, Haleluja.

## Maria.

Sæll Guds Eingell ſeig mier þa, Haleluja, Haleluja. Siaalfañ DRotteñ hvar fiña maa, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

Af Grøfeñe uppriseñ er, Haleluja, Haleluja. Arla i Dag þad ſeige eg þier, Haleluja, Haleluja.

## Maria.

Sæta

Sætañ HErrañ miñ sijn mier þa, Haleluja, Haleluja, Sem nu er Daudum risẽñ fraa, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

So gaanged iñ og siaed þar, Haleluja, Haleluja. Sama Stad hvar hañ lagdur var, Haleluja, Haleluja.

## Maria.

HErrañ er burt, hañ hier ei siest, Haleluja, Haleluja. Ef finda eg hañ, þvi fagna mest, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

Lijted hier aa Lijn-Dwka strax, Haleluja, Haleluja. Laa hañ i þeim til Pridia Dags, Haleluja, Haleluja.

## Maria.

Soñum vier þetta sialfar vijst, Haleluja, Haleluja. Sijn oss vorn HErra JEsum Christ, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

J Galilæam gaange þier, Haleluja, Haleluja. Þar siaed hañ sem sagde fyrr, Haleluja, Haleluja.

## Maria.

Pier Eingell Guds vier þockum nu, Haleluja, Haleluja. Pad skal oss øllum Huggun trw, Haleluja, Haleluja.

## Eingelleñ.

Fared og seiged satt þar um̃, Haleluja, Haleluja. Sancte Petre og Postulum, Haleluja, Haleluja.

## Maria til Foolksins.

Sijngium nu aller af Hug og Raust, Haleluja, Haleluja. Uppreis vor HErra Efalaust, Haleluja, Haleluja.

## Allt Foolked.

Af þvi glediunst nu aller vier, Haleluja, Haleluja. Eilijf Huggun vor Christur er, Haleluja, Haleluja.



